# FORNMANNA SÖGUR.

## EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.
*Fjölsvinnsmál.*

TÍUNDA BINDI.

Niðrlag sögu Hákonar Hákonarsonar ok brot sögu Magnúss lagabætis; þættir Hálfdánar svarta, af upphafi ríkis Haralds hárfagra, Hauks hábrókar, ok Ólafs geirstaða-álfs; saga Ólafs konúngs Tryggvasonar, rituð af Oddi Snorrasyni; stutt ágrip af Noregs konúnga sögum ok Noregs Konúngatal í ljóðum.

Kaupmannahöfn, 1835.
*Prentaðar í S. L. Möllers prentsmiðju.*



# SAGA
# HÁKONAR HÁKONARSONAR
FRÁ FALLI SKÚLA HERTOGA;
## BROT SÖGU
## MAGNÚSS LAGABÆTIS;
ÞÆTTIR HÁLFDÁNAR SVARTA, AF UPPHAFI RÍKIS HARALDS HÁRFAGRA, HAUKS HÁBRÓKAR OK ÓLAFS GEIRSTADA-ÁLFS,
## SAGA
## ÓLAFS KONÚNGS TRYGGVASONAR
RITUD AF ODDI SNORRASYNI;
## STUTT ÁGRIP
## AF NOREGS KONÚNGASÖGUM
OK
## NOREGS KONÚNGATAL
Í LJÓÐUM.

---

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM
ÚTGEFIN
AD TILHLUTUN HINS
KONÚNGLIGA
NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

---

**Kaupmannahöfn, 1835.**
*Prentuð í S. L. Möllers prentsmiðju.*



# FORMÁLI.

Þetta 10da bindi af Fornmanna-Sögum fyllir loks í þær það skarð, er lengi hefir autt verið, ok endar undir eins þann mikla flokk af sögum Noregs konúnga ok öðrum fleirum er þeim viðvíkja, sem í öndverðu var til ætlað að þannig skyldi á prent útgefast. Í því eru inni falin þau rit er vèr nú stuttlega uppteljum:

A. Síðasti hluti *sögu Hákonar konúngs Hákonarsonar*, almennt nefnds hins gamla. Öllum þeim fornu skinnbókum ok bókfellsbrotum, sem til eru af henni, ok hèr hafa notuð verið, er nákvæmlega lýst í formála 9da bindis.

B. Þær litlu *leifar*, sem til eru af *sögu Magnúss konúngs lagabætis*, ritaðri af Sturlu lögmanni Þórðarsyni, einúngis tvö blöð í arkarformi úr einni, annars fyri laungu undir lok liðinni skinnbók sem geymast í Arna Magnússonar handritasafni, meðal fleiri bókfells blaða úr ýmsum Noregs konúnga sögum, í hulstri merktu Nr. 325, meðal handritanna í fjögrablaðaformi. Í safnsins ellstu uppteiknun lýsist þeim þannig:

„Úr Magnúsar sögu lagabætis *fragmenta quædam*" (einhvör eðr nokkur brot, svo vera má að við byrjun 18du aldar hafi fleiri af þeim verið til, enn nú eru mönnum kunnug). Innihald fyrst umgetinna tveggja blaða er prentað aptan við Hákonarsögu, í Kaupmanna-

höfn 1818 (eðr 5ta ok síðasta part af Noregs Konúngasögum, áðr umgetnum í formálum vors 8da ok 9da bindis) útgefna af Etatsráðum ok Professórum Thorlacius ok Werlauff. þessir nafnfrægu rithöfundar geta þess í formála sínum, bls. XV, að Skálholts stiftis hálærði ok almennt elskaði biskup Dr. Hannes Finnsson, hafi, þá hann á úngdómsárum sínum stúderaði í Kaupmannahöfn, uppskrifað þessi blöð ok útlagt þau á latínu með stuttum formála, en sá hans ritlíngr hefir oss ekki fyri sjónir borit. Einnig votta þeir að brotkorn þetta sè til prentað, að tilhlutun prests nokkurs frá Englandi, að nafni J. Johnstone, er nokkurn tíma dvaldist í Kaupmannahöfn, á árinu 1783 eðr 1784, undir þessum titli: *A fragment of ancient history*, (fornt sögubrot) með litlum viðbæti, alls einúngis á 6 blöðum, ok eigi fremr prentað enn svo, að einúngis 20 bæklíngar voru þrykktir af þeirri litlu útgáfu, sem nú munu flestir undir lok liðnir. Fyrrnefnd tvö bókfells blöð höfum við sjálfir fengið til eptirsjónar ok uppskriftar; af öðru þeirra faunst afskrift (þó eigi allskostar rètt eðr fullkomin), með fljótaskriftar hendi, líklega frá fyrra hluta 18du aldar, rituð með nettri hönd er vèr eigi þekkjum, en alls ekki sáluga biskups Dr. Hannesar. Bókfellsblöðin sjálf eru víða svo máð eðr slitin, að við einúngis með lángvinnri yfirlegu ok mestu augnaraun höfum getað lesið ok afskrifað mestan þorra innihalds þeirra, sem þannig sumstaðar hefir fengið merkilega viðrauka eðr leiðrèttíngar, er eigi finnast í þeim eldri útgáfum, — þótt enn sèu sum orð eptir í fornu blöðunum sem híngaðtil eigi hafa lesin orðið á seinni öldum, ok vart nokkru sinni framar munu lesin verða.

Saga Magnúss lagahætis er hin síðasta er menn viti at rituð sè í Íslandi, á fyrri öldum, um nokkurn

Noregs konúng; ok endar því með hennar leifum sú röð af þeirra sögum er þessu verki vorn ætlaðar. því ok hindinu til uppfyllíngar höfum vèr þó látið fylgja nokkuru viðrauka af öðrum styttri sögum, þáttum ok söguljóðum er Noregi viðvíkja, ok eru þau þessi:

1. *þáttr Hálfdánar svarta*, úr þeirri nafnfrægu, af oss áðr opt umgetnu, skinnbók í konúngsins bókahirðslu er Flateyjarbók nefnist, því einasta fornriti sem af honum nú er til. þessi þáttr inniheldr sumt það er eigi finnst í öðrum sögum Noregs konúnga, líklega að nokkru leiti af þeirri orsök, að það þótti ólíklegt, ok jafnvel lýgilegt, hvörju vissulega eigi neytað verðr, en aungu að síðr virðist oss (eins ok sál. biskupi P. E. Müller) innihald hans ekki ómerkilegt, að svo miklu leiti sem sú frásaga um margar aldir hefir gengið milli alþýðu í Noregi, þótt hún í sumu sè grundvölluð á hjátrú ok hleypidómum. Að öðru leiti er innihald sögu þessarar merkilegt, einkum þar hún eptir uppruna sínum, mun vera eldri enn sú sem í Heimskrínglu stendr.

2. *„Upphaf ríkis Haralds hárfagra"* úr sömu skinnbók; rit þetta er að nokkru leiti áþekkt því næst umgetna, heldr þó meir enn yfirskriftin lofar, þar það má kallast ágrip nokkurt af æfi hins nefnda konúngs, sem í ýmsu tilliti er merkilegt, ok mun vera eldra enn saga hans í Heimskrínglu.

3. *þáttr Hauks hábrókar*, hirðmanns ok skálds Haralds konúngs hins hárfagra, úr sömu skinnbók; hann mun að nokkru leiti á sannri sögu bygðr, en er þó án efa fjarskalega ýktr; er það því eigi ólíklegt að frásaga sú sè dregin úr fornkvæði einhvörju, sem sjálft var undir lok liðið fyrri enn þáttr þessi fyrst var ritaðr.

4. *Þáttr af Ólafi Geirstaðaálfi*, líka úr Flateyjarbók; innihald hans mun tekið vera úr sögusögnum, sem vart eru ýngri enn andlát nefnds konúngs ok þar hjá úr öðrum, sem fyrst munu vera samansettar eptir fall Ólafs konúngs hins helga.

5. *Saga Ólafs konúngs Tryggvasonar*, fyrst rituð á latínu af Oddi Snorrasyni, fyrrum múnk ok presti í Þíngeyraklaustri á Íslandi; var hún án efa byrjuð 1160, ef eigi fyrr, ok enduð hèrumbil 1170, en er líklega útlögð á Íslenzku af Styrmi presti hinum fróða, er andaðist 1245. Hið latínska frumrit er fyri löngu horfið; af þess íslenzku útleggíng er einúngis ein skinnbók eptir, ok þó aungvanveginn heil eðr ósködduð, því nokkur blöð vanta, bæði framan ok aptan af henni; hefir *Árni Magnússon* getið þess í athugasemd á lausu blaði þannig: „Framan við bókina vantar 3 blöð. Af 1ta blaðinu er tilbaka skackr geiri neðst af blaðinu, ok er sá geiri samfastr við 8da blaðið í arkinu. Fyrri síðan af þessu 1ta blaði hefir óskrifuð verið. Á síðari síðu þessa 1ta blaðs hefir sagan byrjazt; er svo af scriptura þessarar 1mæ paginæ tilbaka það sem skrifað er á geirann neðst á síðunni. Af folio 2do Codicis er tilbaka þríhyrndr geiri, sem samfastr er í hryggnum við 7da blaðið í arkinu, ok er sá geiri skrifaðr á báðum síðum. Af folio 3tio Codicis er tilbaka lítill miði efst af síðunni að hryggnum til; er sá miði samfastr við 6ta blaðið í arkinu. Síðan koma 2 heil samföst blöð midt í arkinu. Síðan er bókin heil inntil paginam 43 inclusive. Þar eru burtu 2 blöð midt í arkinu, ok eru nú í því arki eigi nema 6 blöð tilbaka, en hafa fyrrum verið 8; svo sem ok blöðin í hverju arki eru 8, ok í einu af örkunum fleiri. Aptan af bokinni er rifið 1 blað sem hefir í kjölnum samfast verið við 1ta blaðið í því arki."

| Á geiranum af 1ta blaði eru þessi orð: | Á geiranum af 2ru blaði: | Öðrumegin: |
|---|---|---|
| o | m | g |
| hvers | brøþra | þessum |
| af gu- | hann scal gef | , ega oc er |
| um þenn- | naði oc fro | .. varo þar |
| er vís orþin | ser nocqvot riki | *Tryggva s*. |
| þatt taca þau | kia milli sona m | afði átt; en Ástriþ |
| eins riks hofþingja *er* | þu þeir þo at *k* | tryggvi konúngr hefir |
| | þeir scyll*d* | *at* hon vissi |
| | O*k* | menn því at |
| | | o*n* vænn |
| | | rscom |

Bókin, nú í Árna Magnússonar handritasafni Nr. 310 í fjögrablaðaformi mun skrifuð vera á 14du öld, líklegast í Noregi; ritsmáti hennar mun þessvegna frábreyttr flestum öðrum, þótt hann nokkut líkist þeim sem tíðkaðist á Íslandi á 12tu ok snemma á 13du öld. Hann lýsir sèr bezt sjálfr, því við höfum álitið það hæfilegast, að rit þetta, sem einstakt er til síns kyns, haldi stafagjörð sinni ok ritshætti óbreyttum í þessari vorri útgáfu: að því einu frábreyttu, at áherðslumerkjum er bætt við hljóðstafina hvar vera skyldu, samt sjást þau á stöku stöðum í sjálfri bókinni, t. d. *Þór*, *Þórsárdal;* þar setst ok ýmist *u* fyri vort *v*. Brot af sögu þessari, um Svöldrar orrostu, lèt sá nafnkendi lærði O. Verelius prenta í Stokkhólmi 1665. Sagan, að svo miklu leiti hún til er, er á prent útgefin eptir sömu skinnbók, af J. J. Reenhjelm, í Uppsölum, 1691, í fjögrablaðaformi, með svenskri ok latínskri útleggíngu, í hvörri síðustu Íslendíngrinn Jón Rúgmann, er flutti handritið til Svíaríkis 1666, án efa hefir átt mikinn þátt, en sagan varð eigi fyrr prentuð enn að honum önduðum; er því eigi undarlegt þótt margar ritvillur ok prentvillur finnist í þeirri svensku útgáfu vegna hvörra hún má nær því úbrúkanleg nefnast.

6. Stutt en merkilegt *Ágrip af Sögum Noregs konúnga*, af hvörju einúngis eitt fornrit er til, ok finnst þat í Árna Magnússonar safni, undir Nr. 325 (2) meðal bókanna í fjögrablaðaformi, en er þó rannar sjálft líkast voru 12blaðaformi. Í kverinu sjást nú alls at hafa verið 4 skinnarkir, þannig samanlagðar að í sèrhvörri þeirra gátu verið 4 tvöföld eðr 8 einföld blöð. Hvört blað er 5¾ þumlúnga hátt, 5 þumlúnga breidt, skipt í tvo ritaða dálka. Í fyrstu örkina vantar 1ta blaðið allt, það hefir verið klippt eðr skorið af, ok sjást enn nokkrir stafir (2 eðr 3 af hvörri línu) að vera eptir af því, en svo ósamanhángandi, að engin meiníng verðr úr þeim fengin, ok látum vèr því hjá líða at skrifa þá hèr. Augsjáanlegt er annars að báðar blaðsíður þess hafa skrifaðar verið. Af fyrsta dálk, með hvörjum brot þetta byrjar, eru 4 þær fyrstu línur mjög máðar, ok hafa ekki svo lesnar orðið að meiníng þeirra sè til fulls skiljanleg. Önnur ok þriðja örk eru heilar, en af hinni fjörðu vantar það ytsta tvöfalda blað, ok líka þau tvö innstu, svo að af henni ekki eru nema eitt tvöfaldt eðr tvö einföld blöð eptir. Þannig vantar vissulega hið síðasta einfalda blað af 4ðu örk, sem þó varla hefir verið endir kversins, því á viðlögðum seðli hefir Árni Magnússon teiknað at enn fremr muni vanta „nokkur blöð, sem verið hafi í arki fyri sig sjálf." Í brotinu finnast mjög margar eyður fyrir einu eðr fleirum orðum, en þar það er auðsèð að þær eru þannig undirkomnar, að ritvillur hafa útskafnar verið strax eptir að þær skrifaðar voru, ok hlaupið yfir reitinn þar sem út var skafið, af því að ekki þótti gott að skrifa þar ofan í aptr, svo hið sama að ekkert vantar í, það sjáanlegt sè, þá þótti oss eigi þörf að geta þess, hvar slíkar eyður finnast.

Þetta kver mun í Noregi vera bæði samið ok skrifað; hvað serilagi ráða má af ritshættinum, sem

er enn frábreyttari öðrum fornbókum, enn í þeirri næstumgetnu sögu, ok höfum við því fylgt honum, í þessari vorri útgáfu, nær því at öllu leiti. Einúngis höfum við leyft oss að fylgja þeim rèttara eðr nú skiljanlegara skrifmáta í orðum, hvar hann stundum, en eigi alltíð, brúkast í sjálfu brotinu: t. d. *u* fyrir *v*, *v* fyrir *u*, ok *hann* fyrir *han*.

Af þeim mörgu sèrlegu breytíngum vanalegs ritsháttar (í hvörjum ritaranum samt optliga eigi kemr saman við sjálfan sig), getum vèr helzt þessara:

*c* brúkast ekki einúngis opt fyri *k* (einsok í 310, 4, ok mörgum öðrum forurritum) heldr oksvo, hvað miklu ósiðvanalegara er, opt fyrir *z* eðr *s*, t. d. *Haraldc*, *Hólmgardc*, *Estlandc*, *Miklagarþc*; *Krickirkia* fyri *Kriz* eðr *Krists kirkia*; *baþc* fyri *baðz* eðr *baðst*. Merkilegt er það að *c* þýðir *s* í því slavóniska eða forna rússiska stafrofi.

Rúnastafrinn ᛘ (*maðr* eðr *m*) brúkast víða bæði fyri sjálft orðið (maðr) ok líka fyrir bókstafinn *m*, með ýmsum breytíngum, t. d. ᛘ'*en* f. *maðrenn*.

*þ* setst stundum í staðinn fyrir *s* eðr *z*, t. d. *betþt* ok *beþt* fyri *bezt* (*betst* eðr *best*); *bœtþtu* fyrir *beztu*; *Clemetþ* fyri *Clemets*.

Bindíngarstafrinn ꜵ (hvörn oss hefir nauðsýnlegt virðzt að láta steypa til prents þessa ritlíngs) brúkast hèr á margvíslegan hátt, t. d.

1) fyrir einfaldt *a*, í nafninu *Mꜵgnús* fyri *Magnús*.

2) fyri vort *á*, í orðunum: ꜵ, *mꜵl*, *rꜵþ*, *ꜵstum*, *nꜵþu*, *hꜵlfum* *bꜵþum*, *nꜵnd*, *Þrꜵndheim*, fyrir vort: *á*, *mál*, *ráð*, *ástum*, *náðu*, *hálfum*, *báðum*, *nánd*, *Þrándheim*.

3) f. *e*, t. d. *bꜵþtu* fyri *beztu*.

4) f. *o* (*ó*), t. d. *vꜵru* f. *voru*, *ꜵdd* f. *odd*, *ꜵrþ*-

*um* f. *orðum*, *hꝍnum* f. *honum* (*hánnum*), *Nslo*, f. *Oslo*, *vꝍpn* f. *vápn*.

5) f. *ó*, t. d. *hꝍf* f. *hóf*, *drꝍgu* f. *drógu*, *gꝍþum* f. *góðum*, *ꝍgn* f. *ógn*, *rꝍ* f. *ró*, *frꝍþum* f. *fróðum*, *ꝍtti* f. *ótti*, *Hꝍlmgarþe* f. *Hólmgarðs*, *Niþarꝍs* f. *Niðarós*.

6) f. *ú*, t. d. *frꝍva* f. *frúva*, *frú*.

7) f. *ö*, t. d. *rꝍscr* f. *röskr*, *hꝍgvꝍpn* f. *höggvápn*, *fꝍstr* f. *föstr*.

8) f. œ eðr æ, t. d. *fꝍti* f. *fæti*, *brꝍþr* f. *bræðr*, *mꝍttosc* f. *mættust*, *cꝍmi* f. *kæmi*.

9) f. *aú*, eins ok opt híngaðtil hefir brúkað verið í íslenzku riti, t. d. *lꝍsir* f. *lausir*, *þꝍ* f. *þau*, *drꝍmi* f. *draumi*.

Bindíngarstafrinn ǫ brúkast einnig hèr á ýmislegan hátt, t. d.

1) f. *a* (en optastnær ꝍ) í nafninu *Mǫgnus*.

2) f. *á* (einsok ꝍ) t. d. *mǫlum* f. *málum*, *ǫst* f. *ást*, *ǫn* f. *án*, *sǫr* f. *sár*, *hǫr* f. *hár* (sem máskè er næst orðsins eldsta framburði, svarandi til *hærri*, *hærsta* (*hæsta*).

3) f. *o* (*á*), t. d. *ǫfan* f. *ofan*, *vǫru*, f. *voru*.

4) f. *ó* t. d. *blǫþ* f. *blóð*, *flǫ* f. *fló*, *mǫt* f. *mót*, *ǫþ* f. *óð*, *stǫþ* f. *stóð*, *sǫttu* f. *sóttu*, *Ǫla* f. *Óla*; viðrnefnið *blóðöx* skrifast hèr þannig ýmislega: *blǫþax*, *bloþǫx*, *bloþꝍx*).

5) f. *ú*, í *þrǫ* f. *þrjú*.

6) fyrir *ö* eins ok enn er vanalegast, t. d. í nafninu *Rǫgnvalldr*.

7) f. œ eðr æ (eðr forðum opt ø) t. d. *fǫra* f. *færa*.

Sá hálærði nú fráfallni biskup Dr. P. E. Müller hefir ekki þekkt eðr notað þetta sögubrot, sem þó er mjög merkilegt í ýmsu tilliti. Samt hefir það nýlega á prent útgengið, með danskri útleggíngu af P. A. Munch, í *Samlinger til det norske Folks Sprog og*

*Historie.* 2 B. S. 273-335. Christiania 1834. Þessi vor útgáfa mun reynast eigi að vera hinni öldúngis samkvæm, þar oss, helzt vegna frekari tómstunda, til nákvæms ok ítrekaðs lesturs þess sem mest er máð eðr undarlegt af skriftinni hefir tekizt að leiðrètta fá ein orð, ok sumstaðar nákvæmar að fylgja frumritsins ritgjörðarhætti. Hjá kversbrotinu fannst slíkr seðill með Árna Magnússonar hendi: „Eignarmenn þessa fragments hafa nýlegast verið: Þorgeir Jónsson, Jón Hákonarson, Þórðr Jónsson, eg." Mun það því vafalaust hafa komið í hans hendr frá Íslandi.

7. Fornt kvæði, er inniheldr *Noregs Konúngatal*, úr Flateyjarbók. Það er þar eignað Sæmundi hinum fróða, ok jafnvel sagt að hann það ort hafi, en slíkt getr aungvan vegin staðizt að öðru leiti, enn því, að skáldið, sem lifði á dögum sonarsonar hans, Jóns Loptssonar, ok eignaði honum kvæðið, orti eptir sögu Sæmundar þess fyrra helmíng, er nær til andláts Magnúss konúngs hins góða. Eptir vorri meiníng munkvæðið eigi ort fyrr vera enn 1184. Íslands ok þess lærdómsmenta ódauðlegi vinr ok iðkari, Conferenzráð Jón Eiríksson, útgaf það fyrstr manna í Kaupmannahöfn á andlátsári sinu, 1787, í fjögrablaðaformi, með ýmsum merkilegum viðraukum undir þessum titli: „*Jon Loptssöns Encomiast eller en ubenævnt Forfatters Lykönskningsvers til ham, indeholdende en Fortegnelse og Tidsregning over de norske Enevoldskonger fra Harald Haarfager indtil Kong Sverrer, med dansk Oversættelse og nogle Anmærkninger, samt Thormod Torfesens Brevvexling med adskillige Lærde, mest Arne Magnusen, angaaende den gamle norske og tildeels den övrige nordiske Tidsregning, fornemmelig fra Harald Haarfager til Olaf den Helliges Död. Oversat af det Islandske og tildeels bragt i Udtog, med nogle Tillæg (o. s. frv.)* — Vor útgáfa er samin

eptir aðalritinu sjálfu í Flateyjarbók, er merkist *A* í mismunargreinunum; við hana eru samanbornar tvær pappírs afskriftir, komnar frá Islandi ok tilheyrandi mèr Finni Magnússyni; *B* er skrifuð á Austfjörðum, að tilhlutan sáluga prófasts Árna þorsteinssonar að Hofi í Vopnafirði, eptir fornri afskrift, er sýnist að vera í öndverðu uppsprottin frá öðru frumriti, ok sumstaðar jafnvel rèttara, enn það sem stendr í Flateyjarbók. *C* er skrifuð, eins ok hún með sèr ber, ár 1719, líklega á Íslandi. *D* er hin eldri prentaða útgáfa, er sumstaðar víkr frá þessari vorri, vegna þess að útgjafara hinnar fyrri hafa lesizt orðin öðruvísi enn oss; efi nokkur, hvör rèttara hefir, hlýtr fornritið sjálft að skera úr þeim málum.

þannig er (með því fyrr útkomna 11ta bindi) gjörvallr þessi flokkr af Fornmanna-Sögum, til lykta leiddr, ok er þó enn eptir eitt verksins bindi, sem á at innihalda hlutaregistr ok registr yfir öll staðanöfn, sem í því fyri koma, ásamt nákvæmri útskíríngu yfir vísur þær sem í sjálfum sögunum standa, voru forna skáldamáli til upplýsíngar.

þetta 10da bindi af Fornmanna-Sögum er, eptir nákvæman samanburð við aðalritin ok aðrar fornar skinnbækr (í tilliti til Hákonarsögu), útgefið af sömu limum Fornritanefndarinnar hèr í staðnum, sem hið 8da ok 9da bindi.

Kaupmannahöfn, þann 28da October 1835.

# FRAMMHALD
# SÖGU HÁKONAR HÁKONARSONAR.

## 243 Kapítuli.

*Er konúngr frèttir fall Skúla hertoga*[1].

Eptir [þessi tíðindi[2] fóru Birkibeinar brot or Niðarósi, [ok hverr heim til sín[3]. Stephán hèt sá maðr, Thómasmágr, er [Ásólfr sendi suðr til konúngs með brèfum. En er konúngr sá þessi brèf, þá mælti hann[4]: á þessum brèfum eru mikil tíðindi tvenn; þat eru ill tíðindi er klaustrið er brunnit á Elgisetri, en þau eru önnur, er Skúli magr minn er dauðr[5]. Hákon konúngr sat í Björgyn um sumarit, ok efnaði þar til vetrsetu, ok sat þar um vetrinn; þessi var hinn fjórði vetr ok XX konúngdóms hans. Um

[1]) *b. H, B*; Frá Birkibeinum, *G.* [2]) þetta stórvirki, *F;* er nú var frá sagt um hríð, *b. F, B.* [3]) þeir norðr á Hálogaland, er þar áttu heima, en þeir suðr, er þaðan voru, *B, F.* [4]) *frá* [ tók við brèfum Ásólfs ok þeirra, er konúnginum voru send, ok er Stephán kom til Björgynjar, var konúngi sagt at maðr var kominn norðan frá þeim Ásólfi, lèt konúngr þá kalla Stephán í herbergi til sín, ok er hann kom þar, sat konúngrinn í sömu stofu, ok sömu skör, sem um vetrinn er Grímr keikan kom með sín tíðindi. Stephán bar fram brèfin, ok er konúngr hafði yfirlesið þau, tók hann til orða, *B, F, G.* [5]) eptir þetta var blásit til stefnu, ok sagði konúngr sjálfr allri hirðinni tíðindin, ok fannst mönnum mikit til, drottníngu einna mest, *b. B, F, G.*

vârit[1] urðu mikil tíðindi í Danmörk, þá andaðist Valldimarr konúngr, son Valldimars Knútssonar, er þann tíma var einn[2] ágætastr konúngr á Norðrlöndum; hann hafði verit konúngr í Danmörk [XIX vetr ok XX[3]; en til ríkis kom eptir hann Eiríkr konúngr, son hans, ok hafði hann áðr verit V vetr konúngr með feðr sínum. Um vârit[4] fór Hákon konúngr austr til Víkr, en sendi norðr til þrándheims Jón tvískiptíng[5], ok tók hann af lífi Sigurð hít; hann var Varbelgr, ok hafði ekki sæzt við konúng. þá lèt Gregoríus Jónsson drepa Arnfinn þjófsson, en annat [vâr áðr hafði Bjarni Móysesson drepit[6] Játgeir skáld í [Kaupmannahöfn[7]. En er Hákon konúngr kom austr til Víkr[8], var þar fyri Gregoríus, son herra Andres[9], ok[10] bað *Cecilíu*, dóttur Hákonar konúngs. Tók konúngr þessu máli vel, ok [fór[11] þat fram[12] nokkuru síðarr, sem enn mun sagt verða. Hákon konúngr fór þaðan til Konúngahellu, ok ætlaði at finna Eirík konúng, því at Svíar kærðu[13] mjök á Hákon konúng, er hann hafði brennt Vermaland. Eiríkr konúngr var þá

---

[1]) eptir á föstu, *b. F, G.* [2]) *v. G.* [3]) XXXIX vetr, *F; H,* vetri fátt í fjóra tigi, *G.* [4]) eptir, *b. F, H.* [5]) tinskafin, *B, F;* tvískipan, *G.* [6]) *frá* [ vârit eptir (litlu síðar, *H;* sama vâr, *G*) drap Bjarni Móisesson, *G, H, F.* [7]) Kaupmannahafn; hann var þá kominn ofan or Svíaveldi, ok hafði farit allt hit eystra, sem fyrr var ritat, eptir þat er Gunnar konúngsfrændi hafði tekit brèfin af honum í Helsingjalandi, *b. B, F.* [8]) Hákon konúngr fór austr til Víkr, ok er hann kom austr til Borgar, *F, G.* [9]) bróður Filippuss konúngs, *b. F.* [10]) vakti þá bónorð sitt ok, *b. F.* [11]) varð þat ráð framgengt, *G.* [12]) *b. F, B.* [13]) þá, *b. F.*

uppi í Gautlandi, ok vildi eigi finna Hákon konúng, en sendi til hans Birgi mág sinn, er þá átti Ingibjörgu, systur Eiríks konúngs. Þar[1] kom til Hákonar konúngs sá maðr er Matheus hèt, sendr af Friðreki keisara, með mörgum ágætum gjöfum; með honum komu utan V blámenn. Hákon konúngr fór[2] norðr til Björgynjar, ok dvaldist þar [um sumarit[3]. [4]Á þessu sama ári andaðist Gregoríus pávi, ok kom eptir hann Innocentíus. Þetta haust[5] tók Gizurr Þorvaldsson af lífi Snorra Sturluson í Reykjaholti á Íslandi. Hákon konúngr fór um haustið norðr til Þrándheims, ok sat þar um vetrinn. Þessi var hinn V ok XX konúngdóms hans.

*Giptíng frú Cecilíu dóttur Hákonar konúngs*[6].

244. Um vetrinn kom sunnan um fjall herra Gregoríus, ok gerði brúðlaup sitt, ok fèkk frú Cecilíu, dóttur Hákonar konúngs. Veitti konúngr sæmiliga veizlu, en fór síðan suðr til Björgynjar, ok var þar um sumarit[7]. Þat haust kom af Íslandi Orækja Snorrason, ok höfðu þeir Gizurr ok Kolbeinn[8] tekit hann ok sent utan; kom hann á vald Hákonar konúngs í Björgyn, ok gaf hann honum upp skjótt reiði sína fyri þat er hann fór í banni konúngs út, en þó [sagði konúngr at hann væri betr til fallinn at deyja fyri þá sök en faðir hans: ok eigi mundi faðir þinn

[1]) í Konúngahellu, *F*, *H*. [2]) um sumarit, *b. hèr F*, *G*, *H*. [3]) nokkura hríð, *F*, *G*. [4]) Um haustit, *b. F*, *G*, *H*. [5]) hit sama, *b. F*. [6]) *b. H*; Herra Gregoríus gjörði brúðlaup sitt, *G*. [7]) vorit, *H*. [8]) úngi, *b. F*.

drepinn, ef hann hefði komit á minn fund[1]. Var Órækja með konúngi um vetrinn, var konúngr vel til hans[2]; þessi var hinn sètti vetr ok XX konúngdóms hans. [Hann bjóst um sumarit er á leið austr til Víkr, ok gaf honum illa, ok sneri hann aptr til Björgynjar, ok sat þar um vetrinn[3]. þessi var hinn sjöundi[4] ok XX konúngdóms hans.

*Brèfsendíng Alexanders til Hákonar konúngs*[5].

245. [Í þann tíma er Hákon konúngr rèð Noregi[6], var Alexander konúngr í Skotlandi, son Vilhjálms Skotakonúngs; hann var höfðíngi mikill, ok mjök[7] ágjarn [til þessa heims metorða[8]. Hann [sendi menn vestan af Skotlandi til Hákonar konúngs, II biskupa í[9] fyrstu[10]. þeir [vildu forvitnast, ef[11] Hákon konúngr vildi gefa upp ríki þat, í Suðreyjum, er[12] Magnús kon-

1) *frá* [ reiknaði konúngr þat dauðasök, *II.* 2) þenna vetr sat Hákon konúngr í Björgyn, *b. F.* 3) *frá* [ þetta sumar (eptir) var konúngrinn í Björgyn, ok ætlaði um haustit austr til Víkr ok sitja þar um vetrinn. Varð konúngr síðbúinn, þvíat (konúngi því dvalsamt í Björgyn at) hann átti mörgu at skipa. Komu menn til hans vestan um haf ok af öðrum löndum, þeir er erendi áttu við hann, ok (um haustit) er hann kom *suðr fyrir* Rógaland, lögðust á stormar miklir, sneri hann þá inn í Stafángr, ok dvaldist þar um hríð; tók þá veðrátta at harðna, fór konúngr þá norðr til Björgynjar, (en með því at þá tók at vetra ok v. at h., gerði hann þat ráð at snúa), *B, F, G, II.* 4) VII, *F, G, II.* 5) *b. II;* Frá Hákoni k. ok Skóta konúngi, *G.* 6) þá er þessir atburðir urðu í Noregi, sem nú hafa sagðir verit, *II.* 7) ærit, *F;* nokkut, *G.* 8) *v. F.* 9) *v. F.* 10) *frá* [ hafði jafnan sent menn til Noregs konúngs, at fala af honum þat er hann átti í Suðreyjum, ok nú sendi hann tvá biskupa, *II.* 11) höfðu þat erindi at, *F, G.* 12) hann kallaði (þeir kölluðu) at, *b. B, F.*

úngr berfættr[1] hafði[2] sótt[3] af Melkólfi[4] Skotakonúngi frænda hans. Konúngr sagði svâ, at[5] þeir Magnús konúngr hefði[6] samit með sèr, hvat ríki Norðmenn skyldi hafa í Skotlandi eðr smáeyjum þeim er þar lágu næst[7]; en ekki vald sagði hann Skotakonúng [hafa þann tíma[8] í Suðreyjum, er Magnús konúngr vann þær af Guðreyði konúngi, ok kallaðist Magnús konúngr þó gánga eptir sínum erfðalöndum. þá sögðu sendimenn, at Skota konúngr vildi kaupa[9] Suðreyjar at[10] Hákoni konúngi, ok báðu hann meta við brendu silfri. Konúngr sagði at hann vissi sèr önga[11] [nauðsyn til[12] silfrs, svâ at hann þyrfti selja erfðalönd sín[13]. Fóru sendimenn við þat í brott[14].

*Gizurr þorvaldsson kom utan af Íslandi*[15].

246. þetta sama sumar[16] kom utan af Íslandi Gizurr þorvaldsson, ok fór á fund Hákonar konúngs. Hit sama sumar fór[17] þórðr kakali[18] til Íslands, ok átti þá miklar deilur við Kolbein Arnórsson, þá II[19] vetr er hann sat í Vestfjörðum. þá er Hákon konúngr hafði setit II vetr í Björgyn, fór hann um vârit norðr til þránd-

[1]) berbeinn, *B, F, G.* [2]) hefði, *F, B.* [3]) með nokkrum újafnaði, *b. B, F, G.* [4]) Mælkolmi, *G.* [5]) at hann lèzt vita, at, *b. F.* [6]) þat allt, *b. F, G.* [7]) til, *F, B.* [8]) þá hafa, *G.* [9]) allar, *b. F.* [10]) af, *F.* [11]) eigi svâ bráða, *F.* [12]) þurft, *B.* [13]) gerðist af því nokkut sundrþykki með konúngunum, *b. H.* [14]) Enn leitaði Skota konúngr þessa máls oft, ok gerði þar um margar orðsendingar, ok fengu Skotar engan annann orskurð, en þann sem nú er sagðr, *b. F, G.* [15]) *b. G.* [16]) er nú var frá sagt ok Hákon konúngr sat í Björgyn, ok Úrækja kom utan af Íslandi, þá, *b. F.* [17]) fèkk, *F.* [18]) orlof, *b. F.* [19]) III, *B, F, G.*

heims[1]; þá kom í land Björn ábóti aptr[2], ok [bað Hákon konúng gefa sèr upp reiði sína[3], ok kvaðst hafa góð tíðindi[4]. Konúngr játtaði honum því[5]. [Hann færði konúngi brèf þat, er pávinn hafði sent honum með blessan ok svâ fögrum orðum[6], at varla hefir slíkt[7] brèf komit í Noreg af páva. Var ábóti með konúngi um sumarit. Hákon konúngr fór í Vík austr um haustið; þá andaðist Ormr biskup í Oslu. Hákon konúngr sat um vetrinn í Víkinni, en Björn ábóti fór norðr, ok ætlaði heim í Hólm, en hann komst eigi lengra en í Selju, ok andaðist þar; þessi var hinn VIII vetr ok XX konúngdóms hans.

*Brèf Hákonar konúngs til páva*[8].

247. Hákon konúngr hugsaði eptir um brèf þat hit fagra, er Innocentíus pávi hafði sent[9] honum; [hann bauð til sín[10] Sigurði erkibiskupi ok öðrum biskupum í Noregi, [ok bað[11] þá rita við sèr til páva ok biðja orlofs at koróna konúnginn. Biskupar tóku þessu vel[12], ok lètust gjarna vilja rita með honum, ef[13] hann gæfi þeim[14] rèttar-

---

1) ok sat þar nokkura hríð, *b. F.* 2) hann sendi menn frá sèr til Hákonar konúngs, *b. F, B, G, H.* 3) beiddist friðar af honum (bað at hann skyldi í friði fyrir honum vera), *F, B, G, H.* 4) fram at bera, *b. F, G.* 5) bliðliga ok bað hann til sín koma, þegar honum líkaði, *b. F, G.* 6) ok er hann fann konúng, færði hann honum kveðju páfans ok blessan með brèfum ok svâ fögrum orðsendingum, *F, G, H.* 7) jafnfagurt, *F, G*; þvílikt, *H.* 8) *b. H, G.* 9) ritað, *F, G.* 10) þá sendi hann orð, *F, G, H.* 11) en er þeir fundust, bað konúngr, *F, G, H.* 12) vonu bráðara gáfu þeir andsvar, *b. F.* 13) með því at, *F, G.* 14) góðar, *b. F, G.*

bætr[1]; þat lètu þeir ok fylgja, at hann skyldi hafa[2] hinn sama eið[3] undir korónu, sem Magnús konúngr Erlíngsson hafði, þá er hann var kórónaðr. Konúngr svarar: svâ framarliga hafa konúngar játtað yðr rèttarbótum, at varla[4] [kann ek þat at[5] auka, en þó [hafit þèr[6] enn framar nýttar[7], en gefnar hafa verit[8]; en ef vèr sverjum slíkan eið, sem Magnús konúngr sór, þá virðist oss svâ, sem mínkaðist vâr sæmð í því, heldr en yxi, þvíat [hann hirti ekki, hvat hann vann[9] til, ef hann fengi þat, er hann var eigi til kominn, en með guðs miskunn þá þikkjumst ek[10] eigi af yðr þiggja eða kaupa þurfa þat, er guð hefir oss [rèttliga til kosit eptir vârn föður ok forellri[11]; ok án allra afarkosta vil ek hana síðan mega frjálsliga bera[12], eða ella skal hún aldri á[13] vârt höfuð koma[14]. Nokkuru síðarr gerði Hákon konúngr menn til pávans, ok bað hann at senda nokkurn sinn kardinála, at gera konúngi þá sæmð at vígja hann undir korónu.

*Orðsendíng páva til Hákonar konúngs*[15].

248. Hákon konúngr sat í Björgyn um vetrinn eptir biskupafundinn, ok var þessi inn IX

1) ef þetta sýstist fremar en aðrir höfðu sýst, *b. F.* 2) sverja, *H.* 3) eiðstaf, *F, G.* 4) trautt, *H.* 5) veit ek at vèr megum á þat, *F.* 6) hafa þær, *F.* 7) verit, *b. F.* 8) orðit, *F.* 9) Magnús konúngr ok þeir feðgar hirtu ekki um hvat þeir unnu, *H.* 10) vèr, *F, G.* 11) *frá* [ gefit í vora erfð, *H*; ok þat skulut þèr sannliga vita, at með guðs miskunn skal ek svâ frjálsliga at kórónu komast, *b. F, B, G.* 12) sem góðir konúngar, *b. F*; aðrir rèttir k., *G.* 13) yfir, *H.* 14) ef guð vill at svâ sè, *b. F*; ok þeirrar stundar bíða er guð hefir fyrir sett, en hann vill vârn vilja fullkomna, *b. B.* 15) *b. H*; Viðbúnaðr konúngsvigslu, *G.*

vetr ok XX konúngdóms hans. Þetta sumar eptir komu þeir af Íslandi Gizurr ok Þórðr kakali, ok höfðu þá sæzt[1] í konúngs dóm á[2] öll mál sín. Þá hafði Þórðr um vârit barizt við Brand Kolbeinsson í Skagafirði, ok fèll þar mart manna af hvârumtveggjum ok gott mannval. Hákon konúngr fór um haustið norðr til Þrándheims, ok efnaði þar til vetrsetu. Ok er á leið vetrinn, [frètti konúngr at koma mundi[3] frá páva einhverr kardináli í Noreg, ok gera sæmð alla konúngsins eptir páva boði. [Síðan bað konúngr erkibiskup ok aðra biskupa, lenda menn ok lögmenn ok hirð sína[4] koma til Björgynjar á því sumri; hann sendi ok skip vestr til Englands ok annarra landa um vârit, at afla þeirra [tilfánga, sem honum þótti mest þurfa í Noregi, at fagna kardinála[5]. Knútr jarl var þá í Þrándheimi, ok hafði þar setið [III vetr áðr[6], ok hafði jafnan IIII fylki í Þrándheimi ok Naumudal ok Sogn hálfan.

*Kardináli kom í Noreg*[7].

249. Hákon konúngr fór um vârit norðan

[1]) fest, G. [2]) *v. F, G.* [3]) komu sendimenn konúngs frá Róma ok sögðu, *B;* komu orðsendingar utan frá Pavagarði af sendimönnum konúngs, ok sögðu at á því sama ári mundi koma, *F, H, G.* [4]) ok birti konúngr þetta erkibiskupi, ok bað hann senda eptir öllum biskupum ok ábótum ok hinum skinsömustu lærðum mönnum til Björgynjar; konúngr sendi ok orð lendum mönnum, lögmönnum, sýslumönnum ok hirðmönnum ok öllum inum beztum bændum, ok bað þá búast sem sæmiligast, ok, *B, F, H, G.* [5]) *frá* [ luta, sem hann kvað á, *G*; luta, sem honum þótti á skort í Noregi, *H*; eptir því sem hann vildi ok báðum þeim sömdi, *b, B.* [6]) nokkura III vetr eðr IIII, *F*; IIII vetr, *G.* [7]) *b. G*; Er karðináli kemr í land, *H.*

or þrándheimi, ok með honum Knútr jarl ok margir aðrir [göfgir menn[1] norðan or landi. þá hafði Hákon konúngr verit XXX vetra. [Vilhjálmr kardináli kom[2] vârit sunnan í England, ok fagnaði Heinrekr konúngr honum sæmiliga[3]. þat var honum sagt af enskum mönnum, sakir öfundar við Noregs konúng ok [hans menn[4], at hann mundi þar öngar sæmðir fá, ok [varla vera fæddr[5], ok löttu[6] at hann færi í Noreg[7]. Kardináli [sagði svâ[8]: þá er ek var[9] firr meirr, en nú em ek, heyrða ek sagt betr frá því fólki[10], en nú segi þèr; er mèr sagt at þar sè margir góðir[11] kristnir menn ok vitr konúngr[12]; erkibiskup þeirra hefi ek sèð, ok [þikki[13] mèr hann líkligr til góðs[14] höfðíngja[15]; hefi ek til þeirra II eyrendi, er ek vænti at öllum góðum mönnum skuli vel virðast[16], þat er[17] at birta þeim Jesum Christum sannan guðs son, annat at koróna konúng þeirra með guðs miskunn ok pávans forsjá, en því kvíði ek eigi, at mik skorti þar mat eða drykk. Síðan bjó hann ferð sína til Noregs, ok

1) góðir menn ok göfgir, *F.* 2) Ok er hann kom til Björgynjar, hugsaði hann með vitra manna ráði, hversu hann skyldi fyrir búast þess sem sæmiligast væri við kardinála. En um kardinála ferð er þat at segja (tala) at hann kom um *B, G, F.* 3) vel, *F.* 4) Norðmenn, *G, H.* 5) *frá* [ ok eigi nær mat ok aungvan drykk utan vatn, *G*; (blöndu, *H*). 6) enskir menn sem mest, *b. B, F.* 7) ok ógnuðu honum bæði hafinu ok grimmleik fólksins, *b. B, F, G.* 8) svaraði á þá leið, *F.* 9) Noregi, *b. G.* 10) er þar byggír, *b. B, F.* 11) vel, *B.* 12) ok skynsamr, *b. G.* 13) sýndist, *F.* 14) *frá* [ trúi ek hann vera góðan, *F.* 15) svâ hefi ek ok heyrt, at þar eru ok sagðir skynsamir biskupar, ok vænti ek at þar fylgi mart annat gott, *b. B, F.* 16) at gefast, *F, G.* 17) eina, *F.*

gekk á skip. Kardináli kom til Noregs Botólfs vökudag utan at ey þeirri, er Síre[1] heitir, ok gerði menn fyrir sèr at segja konúnginum kvâmu sína; var þat[2] allt senn at sendimenn komu til konúngs, ok kardinálinn kom á Björgynjar vâg eptir þeim siglandi skipi sínu[3] síð dags. Konúngr sendi þegar menn til hans, ok bauð honum alla luti sem sæmiligast, Kardinálinn sagði[4] at hann vill konúngs forsjá[5] hlíta[6]. En um morgininn er súngnar voru tíðir, gekk konúngr til skips síns; þat var hálfþrítugt[7] at rúmatali með gylltum höfðum ok allvel búit[8], [gekk konúngr þar á við hirð sína, allir sýslumenn reyru ok út sínum skipum; fann konúngr[9] kardinála, ok voru þar allblíðar kveðjur, ok fóru svâ inn at bryggjum; [gerðu kennimenn fagra prócessíu móti kardinála[10]. Síðan lèt konúngr blása til þíngs út í Krists kirkjugarði; ok er kardinálinn kom á þíngit, [mælti hann svâ[11]:

*Tala kardinála*[12].

250. Ek vil öllum mönnum kunnigt gera: með guðs miskunn ok pávans forsjá kom ek í þetta land at boða mönnum nafn [Jesú-Christí[13]

[1]) Síri, *G.* [2]) mjök, *b. B, F, G.* [3]) ok þá mjök, *b. F.* [4]) svaraði svâ sendimönnum, *H.* [5]) ráðum, *F.* [6]) um ferð sína, *b. F.* [7]) XXV, *F.* [8]) þat skip var kallað Drekinn, *b. B, F.* [9]) En allir sýslumenn, þeir er í bænum voru, lögðu út skipum sínum, ok þángat sem kardináli lá. Kardináli hafði eina snekkju enska. Konúngr kallaði með sèr lenda menn ok hirðstjóra, ok fór síðan á skip, *B, F.* [10]) Fögr prócessía var ger móti kardinála af biskupum ok lærðum mönnum ok klaustra fólki, *B, F.* [11]) hóf hann sitt erindi á þessa lund, *G.* [12]) *b. H, G.* [13]) hifna konúngs, *G.*

ok koróna konúng yðarn; eigi sendi hann til þessa eyrendis einn[1] prest eðr lærðan mann með litlu veldi, heldr [mik, einn af kardinálum sínum með [biskupsnafni, ok[2] svâ miklu valdi at leysa ok binda öll mál, sem pávi sjálfr væri hèr, þvíat hann vildi at þetta væri svâ gert at konúnginum væri sem mest til sæmðar. Síðan talaði hann margfalda[3] trú fyri fólkinu; [eptir þat gaf hann mönnum[4] gott heimleyfi[5]. Kardinálinn talaði jafnan við biskupa[6]; erkibiskup kom síðarst[7], en er þeir kardináli höfðu við talazt, þóttist konúngr finna, [at annat var[8] fyri honum talat, en áðr hafði hann sjálfr ætlat.

*Beiðsla kardinála ok svar konúngs*[9].

251. Einn dag [mælti kardinálinn til konúngs[10]: meðr því, herra konúngr, at þèr ætlið at taka meiri sæmð af heilagri kirkju, en [engi[11] konúngr tók fyrr[12] í Noregi, þá væntum vèr at þèr munit vilja játa heilagri kirkju því sem aðrir hafa játtað fyri yðr ok með [góðu enn umbæta[13]; svâ munu þèr ok slíkan eið sverja[14] vilja, sem

---

1) einhvern, *B.* 2) *v. F*; *frá fyrra* [ em ek einn biskup með kardinála vígslu ok, *H.* 3) almenniliga, *H.* 4) öllum blessan sína ok, *b. B, F.* 5) *frá* [ok síðan blessaði hann allt liðit, *G*; o. s. gaf hann öllu fólki blessan, *H*; Síðan töluðu þeir optliga konúngr ok kardináli, ok var ekki annat í ræðu kardinála, en gera sem mesta sæmð konúngsins, *b. B, F, G.* 6) þá er þar voru, *b. B, F.* 7) allra þeirra, *b. B, F, G.* 8) at þá var annat, *F*; *frá* [ nokkurn drátt í tali kardinála um vígslugerðina, meira en fyrrum, *G.* 9) *b. G*; Frá kardinála, *B*; Viðtal þeirra konúngs ok kardinála, *H.* 10) er þeir voru á tali í Kristskirkju, konúngr ok kardináli, þá hóf kardináli tal sitt á þessa leið, *F, G.* 11) nokkr, *F.* 12) *frá* [aðrir konúngar fyrir yðr, *G.* 13) góðri umbót, *F.* 14) vinna *F, G.*

sór[1] Magnús konúngr, er fyrst var korónaðr í landinu. Konúngr svarar: ek finn nú, herra, at þessi orð eru [eigi minnr[2] af annara manna orðum en sjálfra[3] yðar, en þeim rèttarbótum viljum vèr gjarna játa heilagri kirkju ok hennar þjónustumönnum at hún hafi slíkt frelsi hèr, sem í þeim löndum er [skipat, er[4] sitt frelsi [hefir hvart, ok[5] sína sæmð, heilög kirkja ok konúngdómrinn; en þó at nokkurr konúngr hafi því játað, er [þeir áttu eigi framarr at játta en fyri sjálfa sik[6], þá viljum vèr þó engi máluspell gera oss eðr þeim er eptir oss koma: ok skjótt at segja, ef þèr vilit[7] nokkurskonar kaupmála [at gera[8] korónu at[9] gefa[10], ok[11] fyrr viljum vèr önga korónu at bera en nokkut ófrelsi á oss at taka, ok þurfit þèr eigi þessa optarr at leita. Kardinálinn svarar: herra konúngr, látið yðr um þetta ekki mislíka, þvíat svâ skal vera, sem þèr vilit. [Litlu síðarr talaði kardinálinn við biskupa ok sagði svâ[12]: ek talaði við konúnginn þeim orðum, sem ek var beðinn, ok sýnist mèr sem hann hafi sannara í þessu máli, en þeir sem annars beiðast, [ok mun ek ekki fleira um þetta mál við konúng tala[13].

---

1) vann, *F, G.* 2) runnin, *F.* 3) *frá* [ komin undan túngurótum annarra manna meir en, *H.* 4) á milli konúngs ok erkibiskups, *b. H*; *frá* [ henni er skipat, *G.* 5) *frá* [ ok hefir þá hvârt, G. 6) hann átti eigi vald á, *G.* 7) oss, *b. F, G.* 8) *v. F, G.* 9) *v. F, G.* 10) eða undandrátt vorum erfíngjum, *b. H.* 11) át, *F.* 12) *frá* [ Eptir þetta gerði kardinali boð erkibiskupi ok lýðbiskupum ok kórsbræðrum, ok ræddi við þá þessum orðum, *B, F.* 13) ok því vil ek at þèr vitit at ek mun einkis annars beiðast hèðan í

*Frá konúngi ok kardinála*[1].

252. Margar nauðsynjar ræddi konúngr fyri kardinála af hendi þegna sinna, ok [bætti kardinálinn um sem hann fèkk[2]. Hann vígði Postulákirkju í konúngsgarði, þá er Hákon konúngr hafði gera látið, ok gaf til mikla aflausn æfinliga. [þá var ok þat ráðit, at konúnginn skyldi vígja til korónu á Ólafs vökudag, þvíat konúngrinn var í ættartölu við hann[3]. þann tíma[4] var hörð veðráttá fyri regna sakir, svâ at ekki mátti úti um búast[5]. Hákon konúngr hafði látið gera hús mikit út undir knörrum[6], þat er hann ætlaði til nausts. þat var nírætt at lengð, en LX [álna breitt[7]; [lèt konúngr þar umbúast sem bezt at veita í, þvíat hann þóttist hvergi hafa mega jafnmart manna hjá sèr[8].

---

frá, en kóróna hann svâ frjálsliga sem konúngligri tign byrjar, en þetta þarf eigi optar at tala, *B, F, G.*

[1]) *b. G.* [2]) ok fèkk þat allt er hann beiddi, *b. G.* [3]) *frá* [ Ok þá er um var rætt, hvern dag konúngr skyldi verða vígðr, þá sagði kardinálinn at þat skyldi vera á einhverri postulamessu, en með því at Hákon konúngr var í ættartölu við hinn heilaga Ólaf konúng, þá vildi hann helzt á hans hátíðisdegi þá sæmð taka; siðan var til allra luta skipat (ráðit) sem þar þurfti til, *B, F, G.* [4]) um sumarit, *b. F, G.* [5]) eggjuðu menn þess, at konúngr skyldi veita í þeim tveimr trèhöllum, sem voru í konúngsgarði, *b. B, F.* [6]) Knorinni, *F.* [7]) á breidd, *F*; á breiðan, *G.* [8]) *frá* [ einn dag er konúngr ok kardináli gengu þángat, þá mælti konúngr: meðr því, herra, at vèr höfum ekki stór hús, sýnist yðr nokkut at vèr gerim hèr veizlu vora til þess at fleira fólk megi hjá oss vera. Kardinálinn svarar: þat þikkir mèr it bezta ráð, (af þeim sem til eru). Siðan lèt konúngr þat hús búa með þeim (beztum) efnum sem til heyrðu (voru), *hin.*

### *Vígsla Hákonar konúngs*[1].

253. Eptir þat var búizt til vígslunnar Ólafsvökudag. Þar voru við þessir höfðíngjar: Vilhjálmr kardináli, Sigurðr erkibiskup, Heinrekr biskup af Hólum, Árni biskup af Björgyn, Áskell biskup af Stafángri, Þorkell biskup af Oslu, Páll biskup af Hamri; þessir leikmanna[2] höfðíngjar: Hákon konúngr ok Hákon konúngr úngi, son Hákonar (konúngs), Knútr jarl, júnkherra Magnús, Sigurðr konúngsson; þessir lendir menn: Gautr Jónsson, Loðinn Gunnason, Jón drottníng, Sigurðr biskupsson, Pètr Pálsson, Gunnarr konúngsfrændi, Munan biskupsson, Finnr Gautsson, Brynjólfr Jónsson[3]; tíu ábótar; erkidjáknar ok prófastar[4] af öllum biskupsstólum[5]; V lögmenn, stallarar konúngs ok sýslumenn[6] ok öll hirðin, ok hinir beztu bændr or hverju fylki. Þar var ok fjöldi útlendra manna. Þann tíma voru vætur [miklar bæði[7] nætr ok daga; var því tjaldat með klæðum bæði grænum ok rauðum milli Kristskirkju dura ok konúngs garðs, bæði yfir[8] ok II vega at utan, en í konúngsgarði voru landtjöld, ok mátti svá gánga til herbergja, at ekki [meinaði vætan[9].

### *Vígsla Hákonar konúngs*[10].

254. Ólafsvökuaptan var á sunnudag, en messudaginn sjálfan voru súngnar tíðir um allan

1) *b. B*; Frá mannvali í Noregi, *G.* 2) leikmenn ok, *F.* 3) ok margir aðrir, *b. G.* 4) ok flestir kórsbræðr, *b. F, G.* 5) í landinu, *b. F.* 6) ok hirðstjórar, *b. B, F, G.* 7) svá miklar, at bæði rigndi, *E, H.* 8) uppi, *b. F, G, H.* 9) kendi vætu, *G.* 10) *b. H*; Um tilskipan konúngsvígslu, *G*; Af embætti kardinála, *B.*

bæinn. Eptir þat[1] var blásit öllu fólki út í Kristskirkjugarð; LXXX[2] hirðmanna voru herklæddir[3] at rýma fyri veginn[4] til Kristskirkju. En þessi var skipan á göngu konúngsins til kyrkju: fyrst gekk hirðin sú er veginn ruddi, æ II jafn fram; þar næst gengu II menn[5] við[6] merkjum, þar næst skutilsveinar ok sýslumenn[7] í góðum klæðum, þar næst lendir menn með velbúnum sverðum, þarnæst III[8] lendir menn, ok báru mikit taflborð [yfir höfði sèr[9], ok þar á öll vígsluklæði ok konúngs skrúð; þá gekk Sigurðr konúngsson ok Munan biskupsson ok báru II ríkisvöndu af silfri, gullkross á öðrum, en ari af gulli á öðrum, þar næst gekk Hákon konúngr úngi ok bar kórónu, ok Knútr jarl, ok bar vígslugull[10]; Sigurðr erkibiskup ok aðrir II biskupar leiddu Hákon konúng[11]. Þar næst við portið[12] í konúngsgarði komu í mót kennimenn[13] með processíu, ok súngu upp responsorium: *Ecce mitto angelum meum*, ok gengu svâ til kirkju. Kardináli stóð [við kirkjudyr[14], ok II biskupar við honum ok klerkar hans, [15]ok fylgðu konúngi til altaris; síðan var súngin messa; eptir þat fór vígsla fram eptir því sem býðr[16]. Ok er messu var lokit, fylgði erkibiskup konúngi heim ok aðrir biskupar til

---

[1]) messu, *B, F, G.* [2]) LXXXX, *H,* [3]) öllum búnaði, *b. B, F.* [4]) þar er gánga skyldi, *b. F, H.* [5]) merkismenn, *B, F, G.* [6]) II, *b. F, G.* [7]) æ II saman, *b. H.* [8]) IIII, *B, G.* [9]) milli sín, *F, G, H.* [10]) vígslu sverð, *B, G.* [11]) í milli sín, *b. B, G.* [12]) garðsliðit, *H.* [13]) biskupar ok ábótar (ok aðrir lærðir menn), *F, G.* [14]) í kirkjudyrum, *F, G, H.* [15]) ok hófu þar upp saung á nýja leik, *b. B, F, G.* [16]) byrjaði, B, boðit er, *G, H.*

herbergis með sama hætti sem fyrr, sýngjandi lof guði. Hèreptir afklæddist konúngr vígsluklæðum, ok fór í [annann búnað sœmiligan[1], ok bar korónu þann dag. Síðan gekk konúngr í herbergi [með lið sitt[2]. Húsit var allt tjaldat með steindum klæðum ok góðum kulltum með [silki ok pellum gullskotnum[3]. En svâ var skipat sessum í herberginu at hit neyrðra[4] megin [með innstofunni[5] sat konúngrinn; kardináli sat á aðra[6] hönd konúngi, þá erkibiskup, [þá ljóðbiskupar; á hægra veg til sjáfar sátu kennimenn aðrir[7]; í [miðju herberginu[8] jafnfram[9] hásætinu var gert annat hásæti, ok sat þar í Hákon konúngr úngi, ok Knútr jarl, Sigurðr konúngsson ok útífrá þeim lendir menn; drottníng sat á vinstri[10] hönd konúngi, þá frú Ragnhildr[11], móðir hennar, þá frú Kristín ok frú Cecilía[12], þá frú Ragnfríð[13] ok þar konur útífrá sem[14] vanzt. Við hinn syðra veginn sat hirð konúngs, var þar tvískipat eptir endilöngu, [voru skipaðir XIII stólar[15]. Mikill

---

1) allan konúngsbúnað, *B*, *F*, *G*. 2) þar sem veizlan skyldi vera með öllu fólki því er til var ætlat; við litlu Krists kirkju mætti hann kardinála, ok gengu þeir báðir saman (til húss) ok allt fólk með þeim, *B*, *F*. 3) pellum ok silki gullskotnu, *B*. 4) neðra, *B*, *F*. 5) við stafina, *B*; við innstafana, *F*, *G*. 6) hægri, *F*, *G*, *H*. 7) *frá* [ þá biskup af Björgyn, ok hverr af öðrum biskupa; á hægra veg til sjáfarins sátu ábótar, príórar ok prófastar ok aðrir lærðir menn, *C*, *F*, *G*. 8) *frá* [ miðri höllinni (hallinni), *F*, *B*, *G*. 9) gegnt, *F*. 10) hægri, *F*. 11) Margrèt, *G*. 12) konúngsdóttir, *b*. *B*, *F*. 13) Ragnríðr, *B*, *G*; þá abbadísar, *b*. *F*, *G*. 14) skipan, *b*. *F*. 15) *frá* [ húsinu, en útífrá þeim sátu gestir, enn með tvískipuðu, en alls voru þessar skipanir XIII eptir endilöngu húsi, *B*, *F*, *H*.

fjöldi var í tjöldum umhverfis[1], er eigi hölðu rúm inni. Hinn fyrsta rètt báru inn þessir lendir menn: Munan biskupsson, Brynjúlfr Jónsson, Gunnar konúngsfrændi, Sigurðr biskupsson. Hit fyrsta ker skenkti upp[2] Hákon konúngr feðr sínum, Knútr jarl kardinála, Sigurðr konúngsson[3] drottníngu, Munan biskupsson erkibiskupi, ok gengu síðan í sæti sín[4].

*Ræða kardinála*[5].

255. Þá er menn voru varla[6] mettir[7], talaði[8] kardináli helga trú fyri mönnum ok mælti svâ: lofaðr sè guð er ek hefi þat eyrendi [fullt gert[9] í dag, sem ek hafði umboð til[10] herra páfans[11], ok er nú konúngr yðarr[12] fullkomliga sæmðr, svâ at engi [hefir slíka fengit[13] fyrr í Noregi. [Ek var ok mjök lattr híngatferðar[14]; mèr var sagt at ek munda fá menn sjá, en þó at ek sæi nokkura, mundi þeir[15] vera líkari mönnum en dýrum í sinni atferð; en nú sè ek hèr [útalligan her af[16] lands fólki, ok sýnist mèr með góðum atferðum[17]. Svâ sè ek ok hèr mikinn [útlenzkan her[18] ok svâ mikinn fjöldá skipa, at ek

---

1) umhverfum hjá herberginu, *G.* 2) *v. F.* 3) biskupsson, *B, F, G.* 4) við öðrum mönnum, *b. G.* 5) *b. H, G.* 6) mjök, *H.* 7) þá lèt kardináli kalla til hljóðs ok, *F.* 8) fyrst, *b. B, F.* 9) fullgert, *F.* 10) af hendi heilagrar Rómaborgar ok, *b. B, F, G.* 11) ok allra kardinála, *b. B, F.* 12) kórónaðr (er betr er, *b. G*) ok, *b. F, G.* 13) *frá* [ man slíka sæmð fengit hafa fýrr, *F.* 14) *frá* [ þess sè ok guð lofaðr, er ek aptraði eigi ferð minni híngað (sneri eigi aptr) svâ sem ek var eggjaðr, *F, G.* 15) eigi, *b. A* (*rángt*). 16) þessa, *b. F.* 17) háttum, *H*; *frá* [ marga menn ok vel siðaða, *G.* 18) her útlendskra manna, *F, G.*

hefi eigi sèt fleiri skip í einni höfn, ok trúi ek at flest hafi híngat góðum lutum hlaðin verit. Ek var ok mjök hræddr gerr at ek munda hèr lítið brauð fá eðr annan mat, en þó vândan þann sem væri. Nú sýnist mèr mikil gnótt af gæzku, svâ at bæði eru full hús ok skip. Sagt var mèr ok at ek munda hèr öngan drykk fá nema blöndu ok vatn, en nú sè [ek hèr alla luti þá sem hafa þarf[1]. Nú gæti guð[2] konúnga vârra ok drottníngar ok biskupa ok lærðra[3] manna, ok alls fólks[4]. [Síðan gekk kardinálinn í brott, ok hans menn[5]; svâ kvað Sturla:

Sú kom gipta
af guðs syni
yfir Hákon
heilli góðu:
er allvald
öflgrar kristni
fyrirmaðr
til friðar vígði[6].
Ok geðstórr[7]
á grams höfuð
konúngligt
kórónu lèt;
þá kom kappsnúinn
kardínáli

[1]) guð þess lofaðr, at ek sè hèr alla luti góða, þá sem til eru ok betra er at hafa en missa, *F, G, H.* [2]) drottinn, *b. F.* [3]) lendra, *G.* [4]) ok gefi mèr þat erendi hígat, at yðr sè til fagnaðar (heiðrs, *B*) ok öllum oss bæði þessa heims ok annars, *b. F, B, G.* [5]) fólk, *B*; *frá* [ ok eptir þat gengu menn til kirkju, er menn höfðu snætt, *H.* [6]) *þannig hin*; valgði, (*rángt*) *H.* [7]) *þ. F, G, H*; geðstórt, *A.*

þeir at XIII degi jóla[1] í Feneði, ok spurðu þau tíðindi þar, at keisarinn hafði andazt fyrir jólin út á Púli. Hurfu þeir þá aptr, ok ætluðu í Svafa á fund herra Konráðs[2], ok í þeirri ferð voru þeir [inn kastaðir[3], ok voru í þeirri prísand[4], þar til er herra Konráðr [leysti þá út. Síðan fóru þeir á fund keisara, tók hann þeim sæmiliga[5], en engi fengu þeir þau eyrendi[6] sem þeir mundu fá[7], ef keisarinn hefði lifat. Er þat mál manna at Friðrekr keisari hafi[8] göfgastr verit af Rúmverja keisurum í hinni síðari æfi, Hann var keisari [XIX vetr ok XX[9], en eptir hann fèll niðr keisaradómrinn, ok[10] engi hefir verit síðan, [þar til er þessi bók var saman sett, ok[11] Magnús hafði konúngr verit at Noregi II vetr, síðan Hákon konúngr fór vestr um haf. Eptir þetta fóru þeir Askatín norðr í Noreg, ok fundu Hákon konúng í Björgyn; [þeir höfðu ok frið gert við Lýbikumenn[12]; voru þeir síðan hinir mestu vinir Hákonar konúngs.

*Herbúnaðr*[13].

276. Um vetrinn eptir brúðlaupsgerðina[14] sat

---

1) *v. F, G.* 2) sonar Friðreks keisara, *b. B, F.* 3) teknir ok innsettir, *B, F, G.* 4) prisund, *F, G.* 5) *frá* [ spurði, ok hann sendi menn til at frelsa þá; fóru þeir siðan á fund Konráðs, ok tók hann þeim vel, *B, F, G.* 6) erendis lok, *F, G.* 7) fengit hafa, *F*; *v. G.* 8) einhver, *b. B, F.* 9) XXXIX vetr, *F*; vetri miðr en fjóra tigi vetra, *G.* 10) svá, at, *F.* 11) *frá* [ *v. G.* 12) *frá* [ um Jónsvökuskeið, ok sögðu þau tiðindi er þeir höfðu, ok þótti konúngi mesti skaði at keisara. Bjarni Móysesson kom aptr, ok hafði eptir ráði k. gert við Lýbikumenn, svá at hvárir skyldu sigla til annarra með friði, *B, F, G.* 13) *b. B*; Andlát Páls biskups í Hamri, *G.* 14) Hákonar únga, *b. F*; únga konúngs, *G.*

Hákon konúngr í Oslu, [ok hèlt jólin í Hamri. Þenna vetr andaðist Páll biskup or Hamri; þessi var[1] hinn [XV vetr ok XX[2] konúngdóms Hákonar konúngs. Um vârit í förstu[3] andaðist Sigurðr erkibiskup, annan[4] nonas Martíí, en í stað hans var körinn síra Sörli[5] kórsbróðir í Hamri; fór hann þetta sumar or landi á fund Innocentíí páva, ok fèkk vígslu af honum. Sörli erkibiskup vígði II biskupa á páva garði: Pètr biskup [í Hamri[6], en Rikarð til Suðreyja. Um vârit í förstu fór Hákon konúngr[7] austr til Elfar, ok fann þar Birgir jarl; [sagði Hákon konúngr[8] hver lausmæli Abel Danakonúngr hafði sýnt við hann, er hann hafði rofit stefnulag þeirra. Jarl sagði ok at Danir hefði gert Svíum hinn mesta mannskaða í ránum ok manndrápum, en þat mest er Danir höfðu þá herrana eflt uppá Svíaríki. Ok með því at hvârirtveggju þóttust mikit eiga at telja á við Dani, gerðu þeir þat ráð at þá XII mánaði skyldi þeir búa her af báðum ríkjunum, skyldi Hákon konúngr hafa skipaher af Noregi, en jarl skyldi hafa V þúsundir af Svíaríki, ok finnast um vârit við Elfina, ok fara svâ í Danaveldi[9] ok gera þat hervirki, sem þeim líkaði[10].

[1]) *frá* [ Á þessu sama ári hafði andazt, áðr um vorit, Páll biskup í Hamri. Hákon k. hèlt jólin í Oslu um vetrinn, ok var þessi, *F.* [2]) V vetr ok XXX, *F, G.* [3]) urðu mikil tíðindi í Þrándheimi, þá, *b. B, F.* [4]) II, *F, G.* [5]) er áðr var, *b. F.* [6]) til Hamars, hann var áðr prèdikari, *B, F, G.* [7]) or Oslo, *b. F.* [8]) ok töluðu þeir þá marga luti sín í milli; kærði þá konúngr fyri jarli, *F, G.* [9]) skyldi Hákon konúngr sigla skipahernum í Eyrarsund, en Birgir jarl skyldi ríða suðr um Halland ok Skáney, *b. F.* [10]) ok finnast síðan í Eyrar-

Síðan[1] ferr Hákon konúngr norðr til Túnsbergs, en Birgir jarl upp í Svíaríki. Hákon konúngr sat um sumarit í Björgyn. Þetta sumar fóru þeir Heinrekr biskup ok Gizurr ok Þorgísl[2] ok Finnbjörn út til Íslands, ok tóku þau ríki undir sik, sem konúngr hafði skipat þeim. En þó gerðist brátt mikill úfriðr milli Gizurar ok [þeirra annarra, sem konúngr[3] hafði skipat ríkin[4]; [þótti Heinriki biskupi Gizurr[5] eigi enda við konúng þat sem hann hafði heitið; [sneri hann þá brátt sinni vináttu til óvina Gizurar[6]. Þat sumar er þeir Gizurr fóru til Íslands, fèkk Hákon konúngr Þórði kakala sýslu norðr í Gaulardal, ok fór hann þannig, en sendi út til Íslands Kolbein grön, frænda sinn, ok þótti hann ekki mikill manna sættir, er hann kom til Íslands.

*Um stríð af Abel við Frísi*[7].

277. Þetta sumar er nú var frásagt, hèlt Abel konúngr stríð við Frísi, ok vildi hann leggja á þá meiri skyldir[8], en fyrr hafði verit. Frísir

---

sundi, ok taka þá þat ráð er vænst þætti sèr til framkvæmdar, ef Danir vildi eigi sæmilig boð bjóða af sinni hendi, *b. F, B, G.*

[1]) Eptir þessa ráðagjörð, *F.* [2]) Þorgils, *F.* [3]) Þórðr, *F.* [4]) *frá* [ umboðsmanna Þórðar, *B.* [5]) höfðu þeir eigi lengi verit á Islandi, Heinrekr biskup ok Gissurr, áðr biskupi þótti hann, *F.* [6]) kom þá svâ brátt at biskup vendi sína vináttu til þeirra manna, er mestir voru úvinir Gissurar, ok sagði svâ, at enginn væri fullkomnari (falskari), en Gissurr, at rjúfa alla þá hluti er konúngi væri til sæmðar ok hann hafði heitit. Þeim kom ok eigi saman, Gissuri ok Þorgilsi, þvíat Þorgilsi þótti hann litit vilja af halda þeim trúnaði, sem konúngr hafði hann í bundit, *F, G.* [7]) *b. G.* [8]) tolla, *G.*

höfðu samnað nokkurn, ok lètu skóga mjök gæta sín; en er Abel konúngr leitaði eptir þeim, var hann lostinn öru, ok fèkk hann bana af því. Eptir andlát hans tóku Danir Kristifara[1], bróður Eiríks konúngs, til konúngs; tók [hann þá[2] undir sik allt Danaveldi, [ok gerðist höfðíngi mikill[3]. Hákon konúngr sat um vetrinn í Björgyn; þessi var hinn sètti vetr hins fjórða tigar ríkis hans. En er vâraði, gerði hann útbóð[4] um allt land, [bæði at liði ok vistum, sagði hann þá[5], at [hann ætlaði[6] öllum herinum til Danmerkr[7]; hèlt hann svâ austr til Víkr, ok fór herinn ekki mjök samfast[8], þvíat mjök sigldu hverir, sem búnir voru. Hákon konúngr lagði til Túnsbergs, ok lèt þar eptir frú Margretu drottníng ok frú Ríkizu[9], en hann sigldi austr yfir Foldina, sótti þar til hans mikit lið um Víkina[10]. Hákon konúngr hafði þá Ólafssúðina, en úngi konúngr Drekann, Knútr jarl Dragmókina[11], herra Sigurðr konúngsson Rýgjabrandinn, Pètr í Gizka Borgundarbátinn, Ögmundr krækidans Gunnarsbátinn[12]; mörg höfðu þeir önnur stór skip. Hákon konúngr lagði at [við Ramshólm[13]; þar stóð skip þat hit mikla, er

[1]) Christophor, *B;* Kristófóra, *G.* [2]) *b. F.* [3]) *frá* [ *v. F.* [4]) útboðabrèf, *F, G.* [5]) ok bauð út miklu liði með vistum ok skipa búnaði ok vâpna; gerði hann þat bert, *F, G.* [6]) halda, *b. F, G.* [7]) safnaðist um sumarit saman í Noregi mikill her, *b. F, G.* [8]) í fyrstum, *b. F.* [9]) drottning, *b. G.* [10]) ok norðan or landi, *b. B, F.* [11]) Dragmörkina, *F;* Dragsmörkina, *B.* [12]) Bárðr or Hestbæ hafði enn mikit skip, *b. B, F.* [13]) *frá* [ í Herviðarsundi (*F, G;* Hermdarsundi, *B*); ok kom þar til hans mestr þorri liðsins; konúngr fór þaðan inn í Hrafnsholt (Hrafnholt), *F. G.*

Gunnarr konúngsfrændi hafði gera látið eptir fyrirsögn konúngsins, er[1] mest hefir gert verit í Noregi. Lèt konúngr setja fram skipit af bakkastokkum, ok [rèzt til[2] allgiptusamliga. Talaði konúngr þá snjallt eyrendi, ok gaf nafn skipinu, ok kallaði Krossfúðina, [setti hann þá menn eptir[3] at búa skipit, en hann [sigldi suðr til Elfar, ok lagði við Lindishólma[4], spurði hann þá, at Birgir jarl var kominn með Svíaher[5].

*Frá Hákoni konúngi ok Magnúsi*[6].

278. Hákon konúngr sendir þá norðr eptir Krossfúðinni júnkherra Magnús[7] ok Gaut á Meli; skyldi þeir sigla skipinu til Ekreyja til annarra skipanna. Ok er þeir komu norðr bjöggu þeir skipit at því sem áðr var óbúit. En er þeir fóru or Ramshólmi[8], talaði júnkherra Magnús [hit fyrsta eyrendi, ok fannst mönnum mikit um, hversu[9] óbernsliga fram var[10] borit. Hèldu þeir skipinu til Ekreyja; ok er þeir komu í höfnina ok köstuðu akkerum, þá varð svâ mikit svif at skipinu at eldr kom í [dokkuna, er þeir höfðu brugðit[11] um kaðlinum; hugðu menn at strengrinn mundi brenna ok vættu eitt tjald, ok ætluðu at slökkva eldinn; en júnkherra Magnús var því

1) eitthvert, *b. F, G.* 2) tókst þat, *F.* 3) en er flotat var skipinu, setti konúngr eptir menn, *F.* 4) en hann fór þá til móts við herinn, ok sigldi suðr í Eikureyjar (Ekureyjar, *B*) ok lèt flestan herinn þar liggja, en konúngarnir gengu þá á lèttiskip, ok flestir lendir menn með þeim, ok lögðu inn til Elfar, ok lágu þar sem Lindishólmar heita, *B, F, G.* 5) eptir því sem þeir höfðu áðr ráðit, *b. B, F*; ætlat var, *G.* 6) *b. G.* 7) son sinn, *b. F, G.* 8) Hrafnsholti, *F.* 9) snjallt erendi; þat var, ok, *b. F, G.* 10) *v. F, G.* 11) dokkina, er þeir brugðu, *F*

betri fánga ráðs ok skjótari, at hann tók byttu eina, fulla af drykk, ok steypti yfir dokkuna ok kældi svâ eldinn[1]. Þá er Krossfúðin kom í lægi hjá öðrum skipum, bar jafnhátt borðin á henni sem tjaldásana á öðrum skipum ok Ólafs súðinni; borðit var IX álna fyri ofan sjá á Krosssúðinni, var þetta miklu mest allra þeirra skipa sem þar voru, ok var þat þó mál[2] manna, þeirra er gamlir voru, at eigi hefði sèt jafnmörg stór skip í einum leiðángri. Af þeim [skipum var[3] mikit ógnarboð um allt Hallland ok Danmörk, ok þótti mönnum sem [hèr mundi ekki viðstanda[4], sem Sturla kvað:

Öldum segi ek hve ófrið guldut
unnviggs skipuðr! Dönum sunnan,
víða settu þínar þjóðir
þunnar skeiðr af fyri[5] hlunnum;
stórir höfðu útboð ærin
yðrir þegnar [rán at hegna[6],
ýtum þóttið leiðángr lítill
lánga stund fyrir víðri grundu.

Framla dreif til hverrar hömlu
hilmis þjóð ens mærðar fróða,
síðan hèldut suðr með láði
seima stiklir! flota miklum;
hræddar urðu Hallands ferðir
hrínga baldr af þínu valdi,

---

1) strenginn, *B.* 2) margra, *b. B.* 3) leiðángri ok skipaflota fór, *B, F.* 4) í móti þessum her mundi engi rönd reisa, *B, F;* ekki vetta mundi standa við her Hákonar konúngs, *G.* 5) nýjum, *B.* 6) *frá* [ rána hegnir, *B, G.*

engi maðr var[1] Jóta þengils
óttalaus við Noregs drottinn.

*Frá Hákoni konúngi*[2].

279. Hákon konúngr hafði í þessum leiðángri marga ágæta menn: þar voru [III konúngar aðrir[3]: [Hákon konúngr úngi, Jón konúngr af Suðreyjum, Duggall konúngr[4], Knútr jarl, júnkherra Magnús, herra Sigurðr. þessir voru lendir menn göfgastir: Pètr í Gizka, Nicholás son hans, Gautr á Meli, Brynjólfr Jónsson. þá er Hákon konúngr lá í Ekreyjum[5], kom þar Sörli erkibiskup[6] frá páva [ok með honum Pètr biskup ok margir aðrir biskupar[7].

*Frá sendiboðum Dana*[8].

280. þá er Hákon konúngr lá við Lindishólma, var[9] Birgir jarl fyrir austan ána með her sínum við Gullbergseið; hafði hann[10] V þúsundir manna; þar var mart göfugra manna með honum: herra Karl[11], son Úlfs jarls, herra Hólmgeirr son Fólka jarls ok Karl [Kneifason, Jón Engilsson[12]; þar var með jarli Andres konúngr af Súrs-

---

1) *b. hin.* 2) *b. G.* 3) *frá* [ II konúngar, *G.* 4) *frá* [ *v. G.* 5) Hēreyjum, *F, G.* 6) utan, *b. F.* 7) *frá* [ ok fyrir skemstu or Tunsbergi, en áðr var nýkominn Árni biskup, *B*; (áðr var við konúngi Árni biskup o. s. frv., *G*) ok hafði hann fyrst komit til Túnsbergs, ok fèkk drottníng honum lèttiskip suðr eptir konúnginum; var með honum Pètr biskup, en áðr var með honum Árni biskup af Björgyn, Áskell biskup af Stafángri, Hákon biskup af Osló, ok margir aðrir kennimenn, bæði með konúnginum ok biskupum, *F*; Hákon k. lagði at við Gullbergseið, *b. B.* 8) *b. G.* 9) *þannig hin*; en, *A.* 10) jarl, *F.* 11) bróðir Úlfs ok herra Karl, *b. F.* 12) *frá* [ kneifr, son Jón engils, ok margir aðrir ágætir höfðingjar or Sviþjóð, *F*; *v. G.*

dölum, bróðir Alexanders konúngs af Hólmgarði; hann hafði flýit austan fyri Tattarum. Hákon konúngr úngi fór [í boð Birgis[1] jarls, en [annan dag eptir[2] fór Birgir jarl[3] [til móts við Hákon konúng gamla[4], ok töluðu þeir marga luti með sèr; sagði jarl[5] at sendimenn Danakonúngs voru sunnan komnir ok lágu uppi í ánni við Gullbergseið, biskupar II ok XV riddarar, ok mart annarra manna, ok sendir til þess at sættast á [þá luti, sem Hákon konúngr teldi á[6] Dani. Jónsvökudag fundust hvârirtveggju[7] með viðrtali[8], ok þótti mönnum Birgir jarl meirr flytja [með Dönum[9] en þeir hugðu[10], en þá sætt tóku Danir sem Hákon konúngr kvað á[11]: skyldu Danir svâ mikit fè gjalda Norðmönnum sem próvaðist, at [þeir hefði mist af Dönum í ránum[12]. Dæmt var ok nokkut fè á [Hákon konúng[13] fyri þat er Danir töldu at við Norðmenn, ok skyldi þat fè framkoma um haustið ok svâ sumt af því er Danir [áttu at gjalda[14], en [Halland at veði fyri því er eptir stóð[15], en ef Kristófórus konúngr vildi eigi þetta, þá skyldu riddararnir sumir fara

---

1) or Lindishólma, ok Pètr í Gízka ok fleiri göfugir menn, í boð (ok voru í boði, *G*), *F*. 2) sunnudaginn fyri Jónsvöku, *F*, *G*. 3) með Hákoni únga, *b. F*; m. únga konúngi, *G*. 4) á fund H. ks., *F*. 5) konúnginum, *b. F*, *G*. 6) þær sakir sem Norðmenn telja á við, *F*, *G*. 7) þeir allir samt, *G*. 8) töluðu þeir þar um marga hluti, *b. F*, *G*. 9) mál Dana, *F*, *G*. 10) ætluðu, *F*, *G*. 11) at standa skyldi með hinna vitrustu manna ráði, en sú vąr sætt, *b. F*, *G*. 12) Norðmenn væri í öngu skaðaðir af þeim ófriði, er þeir höfðu fengit af Dönum, *hin*. 13) hendr Hákoni konúngi, *F*, *G*. 14) skyldi lúka, *F*; laukst þá þegar sumt; *b. B*. 15) fyrir þat er eptir stóð, skyldi Halland (liggja) at veði, *B*, *F*, *G*.

með Hákoni konúngi, en sumir með Birgi jarli í Svíaríki, ok sitja þar, til þess er þeir væri út leystir. [Voru eptir þessi sætt ger brèf ok innsiglut af hvârratveggja hendi[1], sem Sturla segir;

Rán gallt randatýnir
rógstríðr[2] Dönum síðan,
fyrst kom fura[3] lestir
fleyvángs til Ekreyja;
öld hèt gnógu gjaldi
gullstríði þá síðan,
lönd tók lofðúngr þrænda
liðbáls at veðmála[4].

[5]Síðan raufst leiðángrinn; sneri Hákon konúngr norðr[6] til Túnsbergs nær Pètrsmessu[7].

*Um ferð Hákonar konúngs*[8].

281. [9]En er áleið sumarit, sendi konúngr[10] austr til lands enda[11] fè þat, er hann skyldi gjalda Dönum, [en öngir komu[12] af Danmörk at taka við fènu, ok öngir til þess at greiða þat sem mælt var. Áslákr kom til móts við Birgi jarl, ok sagði[13] at Danakonúngr vildi at engi fègjöld færi fram á því hausti, en vildi at þeir fyndist

1) ok er þessi sætt var staðfest (sett ok samið), voru þareptir ger brèf með brèfum biskupanna af hvârutveggja ríkinu, *B*; ok sett fyrir innsigli biskupa ok annarra (dugandi) manna o. s. frv., *F*, *G*. 2) *þannig hin*; rógstríðs, *A*. 3) furu, *F*. 4) veðmáli, *B*, *F*. 5) En er þetta var mælt ok staðfest, tóku þeir ráðagerðir sínar, Hákon konúngr ok Birgir jarl, *b. B*, *F*, *G*. 6) ok kom, *b. F*. 7) gaf hann þá öllum heimleyfi, *b. hin*. 8) *b. G*; Frá Hákoni konúngi, *B*. 9) Hákon konúngr fór or Túnsbergi, þegar hann var búinn, til Björgynjar ok sat þar um sumarit, *b. hin*. 10) Áslák g...a, *b. F*; Å.gust, *G*. 11) með, *b. F*. 12) ok er Aslákr kom til Elfinnar, þá komu öngir menn, *F*, *G*. 13) jarl honum svâ, *b. F*, *G*.

konúngarnir sjálfir um sumarit, ok semði þá [sætt sína[1]; var jarl þá mjök fýsandi[2]. Hákon konúngr fór norðr í land, ok sat í þrándheimi um vetrinn; þessi var hinn VII vetr hins fjórða tigar konúngdóms hans. Um vârit í föstu andaðist[3] Pètr[4] í Gizka. þetta vâr andaðist Sörli erkibiskup[5] II postula messu: Filippi ok Jacobi. Hákon konúngr fór suðr til Björgynjar. Eptir andlát erkibiskups [urðu kórsbræðr á þat sáttir[6] at kjósa til erkibiskups Einar smjörbak, son Gunnars grjónbaks[7], en hann var út í Paris. Fóru þá út [brèf til hans, en ekki vissi konúngr til þessa[8]. Hákon konúngr fór um sumarit austr[9] til Elfar til móts við Danakonúng[10]; lagði konúngr þá[11] til Lindishólma, en Birgir jarl var við Gullbergseið. þar kom ok Kristófórus Danakonúngr, ok var mjök traust hans þar sem var Birgir jarl. En er um sættir var talat, fannst þat á, at Danakonúngi þóttu biskupar hit fýrra sumar hafa miklu frekara tekit, en [hann hafði þeim boðit[12]. Urðu konúngar á ekki sáttir, en Birgir jarl vildi[13] at þeir sættist[14], ok þótti Norðmönnum hann mjök[15]

1) alla hluti sem milli bærí, *F, G.* 2) ok eptir þetta fór Áslákr heim, *b. F, G.* 3) þar í Þrándheimi, *b. F, G.* 4) bp, *b. F* (*rángt*); b. (bóndi), *G.* 5) í Þrándheimi, *b. F, G.* 6) áttu kórsbræðr tal, ok kom ásamt með þeim, *F, G.* 7) grjónstakks, *F.* 8) *frá* [ til hans meistari Hákon ok meistari Óttarr við brèfum ok segja þenna kosning, (at þetta væri þeirra vili ok konúngs), en eigi höfðu þeir ráð Hákonar konúngs við þetta, *F, B, G.* 9) í Vik ok allt, *b. F.* 10) eptir því sem Birgir jarl hafði beiðzt, *b. F.* 11) austr, *b. F.* 12) svâ sem boðit var, *F;* þeim hafði boðit verit, *G.* 13) hèlt í öllu til þess, *F;* vildi öllu halda t. þ., *G.* 14) semdi, *G.* 15) allt, *G.*

halla eptir Dönum. En svâ lauk fundi þeim, at Danakonúngr reið í brott með öngum sættum[1]; hann reið suðr eptir Halllandi, ok lèt taka brúar af hvèrri á, allar sem hann [komst við[2]. Hákon konúngr fór norðr af í Víkina, ok sat þar um sumarit.

*Andlát Sigurðar konúngssonar*[3].

282. Þat vâr er nú var frá sagt, andaðist[4] Sigurðr, son Hákonar konúngs, ok Áskell biskup af Stafángri. Þetta sumar sendi Hákon konúngr til Íslands Sigvarð biskup at flytja mál sín á þíngi, [ok Sigurð silkiauga með honum[5]; höfðu þeir mörg brèf[6], voru þar á utanstefníngar við Gizur Þorvaldsson ok enn fleiri aðra. [Um vetrinn áðr höfðu[7] þeir Eyjólfr[8] ok Hrani[9] ok Kolbeinn grön[10] brennt inni III sunu Gizurar á Flugumyri ok marga menn aðra. [Ok þann sama vetr drap Gizurr[11] Kolbein grön ok VII menn aðra, en um vârit drap Oddr Þórarinsson Hrana ok [III menn aðra[12] í Grímsey, var þá mikill úfriðr á Íslandi. Sígurðr biskup fann Gizur fyri sunnan land, ok var hann þá í stórmælum af Heinreki biskupi. En er Heinrekr biskup frètti skipkvâmuna, reið hann suðr um land[13]; herðu þeir þá báðir biskuparnir at Gizuri, svâ at hann rèzt

1) staðfestum, *b. hin.* 2) kom yfir, *F, G.* 3) *b. G.* 4) herra, *b, F, G.* 5) Sigurðr silkiauga fór ok út, at skynja hversu einarðliga biskup færi með málum konúngsins, *B, G.* 6) til Íslands, *b. B, F, G.* 7) ok er þeir komu til Íslands, spurðu þeir at þar hefðu orðit mikil tiðindi um haustit, at, *F, G.* 8) Þorsteinsson, *b. F.* 9) Koðránsson, *b. F.* 10) höfðu, *b. F.* 11) en Gissurr hefði drepit, um vetrinn, *F.* 12) *frá* [ þá IIII, *G.* 13) heiði, *G.*

þegar utan, en skipaði Oddi þórarinssyni yfir Skagafjörð, ok fèkk hónum í hendr öll sín mál[1], en þóri tott skipaði hann föðurleifð sína, ok[2] vera til styrktar við Odd, móti [Eyjólfi ok Hrafni[3]. Gizurr kom til Björgynjar, ok var þar fyri þórðr kakali, ok var með þeim engi vinafundr; fór Gizurr þá þegar austr til Víkr, ok fann þar Hákon konúng.

*Ívarr fór til Íslands með konúngs erindum*[4].

283. þetta sama haust lèt Hákon konúngr búa til vetrsetu á Berginu; var þessi hinn XVIII vetr ok XX konúngdóms hans; þá voru þeir þar báðir Gizurr ok þórðr, var Gizurr í bænum, en þórðr á Berginu. Um vârit fór Hákon konúngr til Björgynjar, ok hafði Krossfúðina. þetta sumar kom í land[5] Einarr erkibiskup[6], ok vildi ekki finna konúng; þótti honum þat undarligt. Um [sumarit þetta[7], er Hákon konúngr sat í Björgyn, sendi hann til Íslands Ívar Englason[8], at flytja eyrendi sín við liðveizlu[9] biskupa, þvíat hann trúði þeim vel. En konúngr fèkk sýslu Gizuri ok þórði, hafði Gizurr norðr í þrándheimi, en þórðr austr[10] á Skíðu. [Um vetrinn, áðr Ívarr kom út[11], höfðu þeir Hrafn ok Eyjólfr drepit Odd þórarinsson í Geldíngaholti[12], en [um

1) við brennumenn, *b. B, F.* 2) skyldi hann, *b. F.* 3) *frá* [ brennumönnum, *G.* 4) *b. B*; Búin vetrseta á Berginu, *G.* 5) af páva fundi, *b. B.* 6) af hafi utan, at Allda, ok sneri þegar norðr með landi til þrándheims, *b. F.* 7) vârit, *F.* 8) Eglason, *B.* 9) atfylgi, *F;* atveitslu, *G;* tilbeina, *B.* 10) *þannig F;* norðr (*rángt*), *A.* 11) *frá* [ þá er Ívarr kom til Islands spurði hann þau tíðindi, at þeir H. ok E. h., *F.* 12) um vetrinn áðr, *b. F.*

sumarit eptir[1] höfðu þeir barizt á Þveráreyrum, Þorvardr [Þórarinsson, ok veittu þeir honum Þorgísl[2] Böðvarsson ok Sturla Þórðarson, en til móts voru þeir Hrafn ok Eyjólfr, ok fèll Eyjólfr[3], en Rafn flýði. Ívarr var um vetrinn í Skálaholti, ok þótti honum biskup leggja minna hug á konúngs eyrendi, en hann hafði heitið. Fór Ívarr um vârit norðr til Skagafjarðar, ok fann þar Heinrek biskup ok [Þorgísl skarða[4], er þá var yfir Skagafirði, ok flutti konúngsmál fyri þeim. Tóku þeir báðir vel undir, ok [stefndu saman[5] bóndum[6] í Skagafirði, ok fluttu konúngsmál með Ívari; kom þá svâ at allir Skagfirðíngar ok [um Eyjafjörð[7] játtuðu at gjalda[8] skatta, ok mestr lutr bænda í Norðlendínga fjórðúngi þvílíkan sem [þeim semði[9] við Ívar. Fór Ívarr utan um sumarit, ok þótti orðit minna sitt eyrendi en hann ætlaði, kendi hann þat mest vinum Gizurar[10] ok [þó nokkut Þórðar[11] vinum.

*Einarr erkibiskup kom til stóls*[12].

284. [13]Einarr erkibiskup kom til stóls síns í Niðarós, ok [er hann frètti at Hákoni konúngi mislíkaði[14], er hann hafði eigi [fundit hann, er biskup[15] kom í land, fór hann suðr til Björgynjar;

[1]) þetta sumar, er Ívarr kom út um haustit, *F.* [2]) *frá* [ ok Þorgils skarði, ok þartil veittu þeir honum Þorgils, *F.* [3]) í þeim bardaga, *b. F.* [4]) *frá* [ Þorgils, *G.* [5]) öllum, *b. F.* [6]) *frá* [ höfðu almenniligt þing, *G.* [7]) Eyfirðingar, *G*; *v. F.* [8]) konúngi, *b. F.* [9]) þeir urðu á sáttir, *F, G.* [10]) ok fóstbræðrum, *b. hin.* [11]) enn sumum frændum Þórðar ok, *G.* [12]) *b. G.* [13]) þegar er, *b. G.* [14]) *frá* [ þegar er skip kom sunnan, þá varð erkibiskup þess viss, at Hákoni konúngi hafði mjök mislikat, *F.* [15]) farit á hans fund þegar er hann, *F.*

tók konúngr honum vel, er þeir fundust[1]. Erkibiskup var [mikill vinr[2] konúngs únga, þvíat hann hafði gefit honum konúngsnafn[3]. [Hann bað konúnginn[4] gera nokkut landaskipti milli sona sinna, [þat sem bezt sæmði[5]. Hákon konúngr átti hèr um tal við vini sína[6]; lögðu menn hèr allmisjafnt til, sögðu sumir at Magnús skyldi hafa þriðjúng af landi ok hertoganafn; sumir mæltu at skipta skyldi landi í helmínga, þótt Hákon bæri konúngsnafn[7]. Sumir voru þeir er eigi lètust vilja vera á þeim stefnum, er nokkurr lutr væri misjafnaðr með þeim bræðrum[8]. Konúngr tók þessu blíðliga, en sagði þat mundu bezt gegna, at guð skipti með þeim, ok eyddist þat svâ at engi varð skipan á ger. Fór erkibiskup norðr til stóls síns ok skildust þeir konúngr með[9] vináttu. Hákon konúngr úngi hafði þetta sumar gert menn[10] út í Spanía til konúngs af Kastel; var fyri þeim[11] Elis prestr; höfðu þeir hauka nokkura at færa konúnginum ok fleiri luti aðra þá sem þar voru torugætir. Ok er þeir komu út í Spaníam, tók konúngr þeim vel ok

---

1) ok töluðu marga luti sín í milli; fóru allar ræður vel með þeim, *b. B, F, G.* 2) hinn mesti höfuðvin, *F;* h. m. ástvin, G. 3) ok lagði til hans síðan hinn mesta ástarþokka, *b. F.* 4) Erkibiskup kærði þat fyri konúngi, at hann skyldi, *F.* 5) at sèr lifanda, *F, G;* þat er landsfólkit mætti vel við una, ok báðir þeir játuðu at halda, *F.* 6) ok ráðgjafa, *b. F.* 7) eptir föður sinn, *b. B, F.* 8) lètu þat bezt gegna mundi, at öllu væri í helmínga skipt þeirra í millum. Einarr erkibiskup ok vinir únga konúngs báðu konúng staðfesta þetta mál með nokkurri skipan, ok setja þar fyrir brèf sitt, ok innsigli, ok þar með annara höfðingja, *b. F.* 9) blíðu ok mikilli, *b. F.* 10) sendimenn. *F,* 11) sendiboðum, *b. F.*

svâ [sendíngum Noregs konúngs[1]; dvöldust þeir þar um hríð í góðu yfirlæti.

*Brèfasendíng til Danmerkr*[2].

285. þenna vetr hinn næsta sat Hákon konúngr í Björgyn, ok var þessi hinn XIX vetr ok XX ríkis hans. Um vârit nær páskum sendi Hákon konúngr þorlaug[3] bósa við nọkkura menn til Danmerkr á fund Jacobs erkibiskups í Lund; [ok skyldi hann verða vís, hvârt Danakonúngr vildi halda sættir þær, sem mæltar voru hit fyrra sumarit[4]; en er þorlaugr kom í Lund, tók erkibiskup honum vel, ok lèt hann við sèr vera, en sendi menn á fund Danakonúngs í Sjóland [í Róiskeldu[5]. En er konúngr vissi þeirra eyrendi, hèlt hann þeim með sèr, en gerði menn upp á Skáni[6], at taka sendimenn Noregs konúngs[7]. En erkibiskup fèkk njósn af því, ok gerði þorlaug varan við, ok fèkk honum hesta, ok reið hann upp í Svíaríki, en sumir fèlagar hans voru eptir með erkibiskupi leyniliga. þeir þorlaugr fóru [til móts við Hâkon konúng í Björgyn[8], ok sögðu [at Danakonúngr ætlaði önga sætt at halda við Norðmennn[9]. Konúngr lèt sèr fátt um

---

1) þeim presentum er honum voru sendar, *G.* 2) *b. G.* 3) þorleif, (*ritvilla*) *G.* 4) *frá* [ gerði konúngr brèf til erkibiskups, at hann skyldi senda brèf ok menn til Kristóförus konúngs, at forvitnast hvârt hann vildi nokkut halda af sættum þeim er gervar voru millum Dana ok Norðmanna um sumarit, er Hákon k. lá í Eikreyjum, *B, F, G.* 5) til Hróarskeldu, *F.* 6) Skáney, *B, F.* 7) ok flytja þá til sin, *b. F.* 8) hit eystra til Víkrinnar ok svâ norðr á konúngs fund, ok komu at hvítasunnu(degi, *F*; hvítadegi, *G*) til Björgynjar, *B, F, G.* 9) *frá* [ honum sin tíðindi ok orðsendíng biskups, at

þetta finnast. En [litlu síðarr[1] lèt hann flota[2] Ólafssúðinni, ok gerði þat orð á, at hann mundi fara norðr til þrándheims. En er skipit var lagit út undir Fenhríng, sagðist konúngr skyldu sigla austr til Víkr. Hann [sendi fyri brèf í Vík, at engi kaupskip skyldu[3] sigla austr lengra[4] en til Ekreyja, áðr[5] konúngr gerði ráð fyri[6]. [En er konúngr[7] kom í Víkina[8], gerði hann útboðabrèf um alla Víkina, ok stefndi til sín lendum mönnum[9]. Dróst þar saman mikill her ok fjöldi skipa, hèlt Hákon konúngr her þeim suðr til Ekreyja; kom þar saman allmikit lið; [þat var ávarp manna, at eigi mundi vanta[10] CCC skipa, sem Sturla kvað:

Eigi sátuð jöfra hneitir!
ættum góðr at rofnar sættir,
stirðan[11] bjöggu hirðmenn harðir
herskips[12] streng[13] í kyrðum lengi;

---

Hákon konúngr munði eigi þurfa til þess at ætla, at neinn greiðskapr mundi verða á því fègjaldi er Norðmenn áttu skilit af Dönum, eðr öðrum þeim einkamálum er höfðu verit þeirra í millum, *b. F.*

1) vonu bráðara, *F.* 2) skipi sínu, *b. F, G.* 3) gerði menn austr fyri sèr til sýslumanna ok kaupmanna þeirra er vanir voru at sigla til Danmerkr, ok lagði ríkt við at engi Eyrarfloti skyldi, *F, G*; fyribauð konúngr neinum at, *G.* 4) með landi, *b. B, F.* 5) ok biða þar þess er, *F.* 6) hvernig hann vildi at þeir færi, *b. G.* 7) Hákon konúngr sigldi austr með landi, ok er hann kom, *b. B, F.* 8) hèlt hann fyrst til Túnsbergs, ok er hann kom þar, *b. B, F.* 9) ok sýslumönnum, þeim er i Víkinni voru, ok dróst þar saman mikill her ok fjöldi skipa; hèlt Hákon konúngr öllum þeim her suðr með landi, *b. B, F, G.* 10) þá komst nær, *G.* 11) stirðar, *B, F.* 12) *þ. hin*; herskip, (*rángt*) *A.* 13) steingr, *B, F, H.*

mætum hèlt fyri[1] Elfi utan,
auðit lèzt þú flotnum dauða,
nauða vissu nýjar súðir,
Norðmanna gramr [þannig[2] borðum[3].

Síðan[4] sendi Hákon konúngr mikinn luta liðsins suðr fyrir Halland, bað þá herja[5] landit ok eyða bæði með eldi ok vâpnum. Sendi hann tvâ luti liðsins allt suðr til Glymsteins[6], voru þar fyrir Ögmundr krækidans, Arnbjörn posi, Bárðr í Hestbæ, Áslákr gus, Páll gás, Ámundi Haraldsson. Einn þriðjúngr skyldi gánga upp í Geitkjörrum[7]; var þar fyrir Jón drottníng, Jón Loðinsson, Þórðr kakali ok enn fleiri sýslumenn or Víkinni. Sigldu þeir allir saman til Mostrarsunds, sem Sturla kvað:

Sneiða[8] lètu þínar þjóðir
þunnar skeiðr með[9] [búnu reiði[10],
Gautar spurðu leiðángr ljótan,
lunda völl at Morstrarsundi[11];
síðan lætr[12], er seglum hlóðu,
snarfengr konúngr! yðrir drengir,
lýsa tók af herskips hausum,
hrygðar fólk í Dana bygðum.

---

1) frá, *B.* 2) fyri, *G*; fyri skeiðar, *B.* 3) *frá* [ *leiðrètt*; borðum þannig, *A*, *liklegar mót rèttum ljóðahætti, hvörjum hinar skinnbækurnar hèr fylgja.* 4) þá er Hákon konúngr kom í Ekreyjarsund (Eikundasund), *B*, *F.* 5) á, *b. F.* 6) Glaumsteins, *B*; Gleymsteins, *F.* 7) Geitskorum, *B.* 8) Sniða, *F*, *G.* 9) und, *G*, *B.* 10) búnum reiða, *F.* 11) Mustrarsundi, *G* (*hèr ok annars*). 12) lèt, *B* (*máskè rèttast* lítr *eða* leit).

þá er konúngr kom í Morstrarsund, voru þar fyri nokkurir Danir[1], ok voru flestir drepnir.

*Hernaðr í Danmörk*[2].

286. Barthólómeus messudagr var á þórsdegi[3]. þá skipuðust Norðmenn til uppgöngu[4] eptir því sem konúngr hafði ráð fyri gert. Gengu þeir ok upp við Glymstein, en Jón hvârrtveggi fór fyrst inn í Barðfjörð[5], ok brendu þar eina kirkjusókn; síðan hèldu þeir suðr til Geitkjarra, ok gengu þar upp, þar var fyri samnaðr nokkur af landsmönnum, ok hèldust þeir litla stund við, ok fèll þar mart af Dönum. Síðan tóku Norðmenn at herja landit ok brenna, sem Sturla kvað:

Allvaldr reðtu því er ýtar hèldu
ognarbráðs at fylkis láði,
prúðar rèðu[6] sveitir síðan
sóknar stríngs á land at gánga;
stórar[7] lètu Halllands[8] herjar[9]
hirðmenn þínir, frelsi sínu
víða týndu virða kindir
vægðar laust, fyri Geitkjörr austan.

Norðmenn gengu[10] yfir landit, ok drápu menn, en brendu bygðir, fólkit flýði undan sem við komst; [svâ kvað Sturla[11]:

Sýngja lètu snarpir drengir
sókna[12] gífr[13] í fleina drífu

[1]) danskir menn, *F.* [2]) *b. G.* [3]) fimtadag, *B.* [4]) á Hallandi, *b. F, G.* [5]) Harðfjörð, *B.* [6]) náðu, *B, F, G.* [7]) stórir, (*likliga rèttara*) *F.* [8]) Halland, *B, F.* [9]) herjat, *B, G*; herja, *F*, (*likl. rèttara*). [10]) víða, *b. G.* [11]) sem kveðit er, *B.* [12]) sóknar, *B, F, G.* [13]) hnif, *F.*

brandar hleyptu ört úr undum
ærnu[1] blóði danskrar þjóðar;
víða fèllu vegnir þollar
víga drótt í reknum flótta,
faldin gekk þar ferð[2] at hildi
frægra málma ægishjálmi.
Styrkir gengu menn und merkjum
málma lunds á víðri grundu,
valgammr sleit at vâpna móti
varma bráð af þínu ráði;
sjálfri[3] skipti örn við úlfa
ógnar báru höfuð sára,
gyldir stóð yfir grimmra[4] hölda
greyprar[5] þjóðar meginblóði.

Þeir Ögmundr gengu á land við Glymstein Barthólómeus messudag, ok fengu önga viðtöku, en drápu mart af Dönum [en brendu bygðir allt suðr til Eiðre[6]; svâ kvað Sturla:

Hæstan kyndu hirðmenn traustir
heitan eld í Danaveldi,
skæriligr gekk húsum hærri
hallar gandr á sviðnu landi;
víða fór um búkars[7] búðir
birkisótt en hræddar dróttir,
bragnar margir[8] báli slegnir[9],

[1]) vörnu, *F.* [2]) fast, *B, F, G.* [3]) sjálfr, *B.* [4]) greypra, *F, G.* [5]) grimmrar, *hin.* [6]) *frá* [ þeir brendu bygðirnar um kveldit ok frjádaginn (föstudaginn), ok fóru allt suðr til ár þeirrar er Eiðre heitir, ok brendu þar kaupþorp eitt. Laugardag sneru þeir aptr ok brendu allar bygðir, þær sem fyrir þeim urðu, *B, F, G.* [7]) búkarls, *hin.* [8]) eyddu, *B, F.* [9]) slegnn, *F.*

brunnit land til skógar runnu. Síðan fóru Norðmenn til skipa sinna[1]. Sunnudag komu ofan Danir með mikinn samnað[2], [þeir drápu nokkura sveina Norðmanna á landi[3]. Eptir þat fóru Norðmenn brott frá Glymsteini, ok brendu áðr[4] staðinn í Aranesi, sem Sturla kvað:

Gneistum hratt fyri Elfi austan
elrisgarmr í ráfit[5] varma
síðan fèllu háfar hallir
hrygðar stund í Danabygðum;
[innin tóku öll at brenna
ógnar stríð á Hallllands síðu,
ýta rann um stórlig stræti
stórðar úlfr fyri Glymstein norðan[6].

Hákon konúngr lá í Eikreyjum, þá er herinn kom[7] til móts við hann[8], skiptu þeir herfángi sínu eptir konúngs ráði. [Síðan sendi hann[9]

[1]) Um nóttina fyrir sunnudaginn lágu Norðmenn á skipum sínum; þá kom á stormr mikill ok rak nokkur skip þeirra frá þeim or festum, en menn báru áðr af fèit, ok gengu sjálfir á þau skip er fest voru með grunnfærum, *b. B, F, G.* [2]) her, *F.* [3]) *frá* [ þeir drápu nokkra þá menn (aðra, *B*) er slegizt höfðu eptir (í bygðina, *b F*) at úspektum. Síðan tóku þeir skipin, þau er at landi höfðu rekit, ok gerðu á bál stór, ok ætluðu at þau skyldi reka út at skipum Norðmanna, þvíat vindr hafði gengit á land. Norðmenn rèru upp á móti, at landinu, er þeir sá þessa nýlundu ok komu stafuljám á sum skipin ok drógu at sèr, ok varð þeim eigi mein at þeirri umbúð, *B, F, G.* [4]) nokkru síðar, *F*; litlu s., *G.* [5]) ræfrit, *B, G.* [6]) *frá* [ *v. G.* [7]) eptir sunnan, *b. F, G.* [8]) spurði hann þá glöggliga öll þau tíðindi er gerzt höfðu, *b. B, F.* [9]) Hákon konúngr hugsaði þá eptir at Norðmenn höfðu gert mikinn úfrið í ríki Danakonúngs; átti hann þá tal við

menn á fund Danakonúngs[1], hvârt hann vildi[2] sættast eðr halda úfrið við Norðmenn. Með þeim eyrindum fóru þeir Símon prèdikari ok [Sigurðr bróðir; Danakonúngr tók[3] þúngliga[4] þeim málum, ok lèt sèr mikit um finnast, er Norðmenn höfðu herjat ríki hans; fengu þeir öngan orskurð af Danakonúngi; fóru þeir síðan aptr, ok sögðu Hákoni konúngi sín eyrindi, ok þeim þótti ekki líkligt til nokkura sætta.

*Frá sendimönnum konúngs af Spanía[5].*

287. Hákon konúngr fór or Ekreyjum; setti hann eptir við Elfina Hákon konúng, son sinn, ok lá hann í Straumssundi[6] með X stórskipum. Þessir voru skipstjórnarmenn [eptir með únga konúngi[7]: Ögmundr krækidans, Veseti af Helli, Símon staurr, Loðinn staurr[8], Helgi rauði prestr; gestir höfðu II skip[9]. Hákon konúngr fór norðr í Víkina, ok[10] ætlaði[11] norðr í land, en er hann kom [norðr á Agðir[12], kom til hans Elis prestr, er úngi konúngr hafði sent í Spanía; sagði hann konúngi at í landit voru komnir sendimenn konúngs af Spanía, ok hèt sá síra Ferant[13], er fyri þeim var, ok þeir hefði mörg tíðindi til Hákonar konúngs, ok[14] konúngr af Spanía vildi vera vin

sína menn, hversu hann skyldi gæta ríkisins, var þá þat ráð tekit at senda, *B*, *F*, *G*.

[1]) hvert ráð hann vildi gera fyrir þessum málum, þar sem komit var, *b*. *F*. [2]) til, *b*. *F*. [3]) bróðir Sigurðr, þeir komu á fund Danakonúngs, ok tók hann heldr, *F*. [4]) seinliga, *G*. [5]) *b*. *G*. [6]) Straumsundi, *G*. [7]) með konúnginum, *F*. [8]) G. s., *G*. [9]) mikil, *b*. *B*, *F*. [10]) hèlt fyrst til Túnsbergs ok dvaldist þar litla hríð, *b*. *F*. [11]) áðr hann fór, *F*. [12]) á Austr-Agðir, *F*, *G*. [13]) Ferans, *F*, *G*. [14]) þat, at, *b*. *F*

hans ok binda þat styrkum[1] tengðum. En er Hákon konúngr kom[2] í Rauðasund, voru sendimenn þar fyrir, ok sögðu honum sín eyrendi. Konúngr gerði ráð fyri þeim, at þeir skyldi [bíða hans í Túnsbergi[3], til þess er hann kvæmi norðan um vârit, ok hann veitti orskurð eyrendum þeirra með vitra[4] manna ráði. Síðan fór Hákon konúngr[5] til Björgynjar, ok efnaði þar til vetrsetu. Þetta haust kom Ívarr Englason[6] af Íslandi, ok sagði slík tíðindi, sem þar[7] höfðu gerzt.

*Hákon konúngr úngi lagði fègjald á Dani*[8].

288. Hâkon konúngr úngi lá um haustið í Straumssundi, sem fyrr var sagt, ok stóð Dönum mikil ógn af honum[9]; hann gerði orð[10] um Halland[11] í þau hèruð sem óbrend voru, ok lagði á þá mikit fègjald, ok kvað á, hversu mörg hundrut nauta þeir skyldi gjalda honum, en ella lèzt hann mundu fara til þeirra, ok gera þeirra kost at öngu betra en hinna er brent var fyrir. Danir gengu undir[12] álög konúngs, ok guldu honum[13] fjölda nauta, en gjald[14] leystu þeir með vaxi ok lèreptum ok[15] silfri[16]. Þetta fè var flutt í Straumssund til Hákonar konúngs, lá hann á skipum allt til Marteinsmessu. Sjálendíngar lágu í samnaði um vetrinn, ok voru mjök hræddir, at kon-

[1]) með hinum sterkustum, *B, F, G.* [2]) *b. hin.* [3]) sitja í Noregi um vetrinn, í Túnsbergi, ok bíða þar, *F, G.* [4]) hinna beztu, *F.* [5]) norðr í land, ok kom um haustið, *b. F, G.* [6]) Eglason, *B.* [7]) í hans ferðum, *F, G.* [8]) *b. G.* [9]) þvíat þeir höfðu mjök hræddir orðit um sumarit, við þann úfrið er þeir höfðu gert á Hallandi, *b. F.* [10]) áhald, *G.* [11]) haustit, *F, G.* [12]) öll, *b F, G.* [13]) mikinn, *b. B, F.* [14]) sumt gjaldit, *B, F.* [15]) brendu, *b. G.* [16]) ok öðrum kaupeyri, *b. F.*

úngr mundi herja á þá. Hákon konúngr úngi lèt búa sèr til jólaveizlu í Túnsbergi, ok fór hann þannig fyri jólin, en setti Ögmund krækidanz eptir austr ok [sýslumenn við honum[1]. Hákon konúngr sat í Túnsbergi um jólin, ok litlu síðarr sendi Ögmundr orð, at hann kvæmi austr, þvíat honum voru flutt mörg stóryrði Dana. Hákon konúngr bjóst þegar[2] eptir jólin or Túnsbergi, [ok fór austr til[3] Konúngahellu, var hann þar [til föstunnar[4]. Þá komu brèf frá [föður hans[5], *at hann skyldi fara norðr til Oslóar*, ok bíða þess er Hákon konúngr kvæmi norðan, ok[6] þeir gerði ráð fyrir, hversu svara[7] skyldi málum[8] þeim, er síra Ferant fór með, er konúngr af Spáni beiddi þess, at Hákon konúngr skyldi gipta dóttur sína júngfrú Kristin einhverjum af bræðrum sínum. Hákon konungr úngi fór af Konúngahellu öskudag[9] norðr til Oslóar. [Litlu síðarr[10] komu brèf til hans austan or Gautlandi frá Birgi jarli, mági hans, at hann skyldi koma austr sem skjótast til móts við hann. Ok með því at faðir hans var eigi norðan kominn,

---

[1]) þá sem sýslur höfðu austr þar, *F, G.* [2]) ok fór tveim nóttum, *b. B.* [3]) *frá* [ ok fèkk mikit (vâs, *G*) veðr ok ákafa þvert ok varð at slaga til áðr hann náði höfninni í Spjör, fyrir austan Foldina. Síðan gekk konúngr á skútu ok lèt flytja sik til meginlands, en hann fór út it efra at veizlum, ok lèt skipin sigla it ytra austr til Elfarinnar, ok kom hann fyrr til Konúngahellu en skipin. Hann sat í borginni í Hólmannum við, *G, F, B.* [4]) í föstunni, *G.* [5]) gamla konúngi, *G.* [6]) ok þeir fyndist ok, *b. B.* [7]) fara, *F, B.* [8]) með vandamálum, *F, B.* [9]) öskn-óðinsdag, *F.* [10]) ok er hann hafði dvalizt þar um hríð, *F.*

[sigldi hann austr til Konúngahellu, ok kom þar[1] í [Dymbildagaviku öndverðri[2], ok fór þaðan til Ljóðhúsa, ok var þar fyri Valdimarr Svíakonúngr, mágr hans, ok fagnaði hann konúngi með hinni mestu blíðu. Riðu þeir báðir saman upp í Gautland. En er Birgir jarl spurði at Hákon konúngr, mágr hans, var kominn í Svíaveldi, [bað hann sína[3] menn taka honum sæmiliga[4] ok hans mönnum, ok lagði svâ ríkt við, ef nokkurir tæki Norðmenn við spotti eða[5] hæðiligum nöfnum, at þeir skyldi öngu fyri týna nema [hálsbeini sínu[6]. Þeir mágarnir voru allir um páskirnar í vestra Gautlandi á þeim bæ er í Lenum[7] heitir; ok páskadag[8], at messu, leiddi Valdimarr konúngr ok Birgir jarl Hákon konúng til altaris, ok veittu honum hina mestu sæmð í öllu ok skipuðu honum milli sín. Þeir skildust ok með hinum mesta kærleika ok blíðu; reið Hákon konúngr ofan til Konúngahellu[9], ok [fór síðan[10] norðr í Víkina. Hann reið jafnan, ok skemti sèr við haukum ok hundum, ok einn dag, er hann fór austr yfir ána í Gulleyna, at skemta sèr[11]: um næstu nótt eptir tók hann sótt; [en er

---

[1]) *frá* [ þá býr hann ferð sína or Oslu til Túnsbergs, ok fèkk í þeirri ferð nokkurn sjúkleik, ok bætti guð honum skjótt; ok er hann kom til Túnsbergs, gekk hann á skip ok sigldi austr til Elfarinnar, ok kom til Konúngahellu, *B, F.* [2]) efstu viku föstu, *G.* [3]) átti hann tal við sína menn, ok bað, *F, G.* [4]) sem viusamligast, *F.* [5]) kallaði þá Bagga eða öðrum, *b. hin.* [6]) lífinu, *G,* [7]) Leinum, *B, G, H;* Hleinum, *F.* [8]) fyrsta, *b. F.* [9]) með hinum beztum gjöfum, *b. G.* [10]) reið síðan, *G;* dvaldist þar nokkura hríð um vorit, ok bjó þaðan ferð sína, *F.* [11]) hann fór þaðan, *b. F;* ok er hann f. þ., *G.*

hann kom austan at Foldinni, herði honum sóttin; lèt hann þá róa með sik á skútu einni[1] yfir Foldina til Túnsbergs, ok lèt hann færa sik upp til múnklífis, ok lá þar; kom þá til hans læknir sá, er [síra Ferant hafði utan með sèr[2], ok lagði ráð til um sótt hans, en sóttinni þýngði eigi því síðr, ok andaðist hann litlu síðarr, ok er ártið hans II nóttum eptir Vítalismessu[3]. Þetta þótti mönnum[4] hinn mesti skaði, þvíat Hákon konúngr var allvinsæll[5] við sínum mönnum[6]; hann var heldr hár meðalmaðr ok vel vaxinn, fríðr sýnum, hærðr vel, eygðr manna bezt, vel styrkr, manna fimastr[7] ok lèttastr[8] á sèr, [9]manna bezt hestfærr, þeirra sem þá voru í Noregi. Lík hans var flutt inn til Oslóar, ok jarðað at Hallvarðskirkju, þar sem Sigurðr konúngr jórsalafari var grafinn.

*Ráðagerðir*[10].

289. Hákon konúngr sat þenna vetr í Björgyn; þessi var hinn fertugundi[11] ríkis hans[12]; gerði hann þá útboðabrèf um allan Noreg[13]; hann sendi

---

[1]) *frá* [ var þá búin ferð hans norðr í Víkina, ok fór konúngr þá á skip sitt ok byrjaði vel austr af Foldinni, tók þá sótt at herða at honum; gekk hann á skútu eina, ok lèt róa með sik, *F, G, B.* [2]) farit hafði af Spanía með síra Ferant, *F.* [3]) krossmessu, *hin.* [4]) öllum, *F, G.* [5]) hinn vinsælasti, *B.* [6]) ok örr af fè, *b. B, F, G.* [7]) vápnfimastr, *B.* [8]) um allt hinn lèttasti, *F.* [9]) allra, *b. F, G.* [10]) *b. B*; Frá Hákoni konúngi, *G.* [11]) fertugandi, *F*; fertogundi, *G*, fjórtugandi, *B.* [12]) Ok síðan er prèdikarar þeir höfðu til hans komit, er hann hafði sent um haustit suðr til Danmerkr, faust honum svá í orðum þeirra sem Danakonúngr hefði litinn hug á at sættast við Norðmenn, ok er Hákon konúngr sá, at ekki mundi af sættum verða, *b. F.* [13]) voru minnstar

orð Einari erkibiskupi ok[1] öllum[1] lýðbiskupum, at þeir skyldi[2] fylgja honum í leiðángr þenna. Hákon konúngr lèt flota skipi því, er hann hafði þá látit gera í Björgyn, ok kallaði Maríusúðina, allra skipa fríðast; eldr braut or hlunnunum, er fram gekk; svâ kvað Sturla:

Hrinda [lèt út[3] herskips bröndum
hilmir frægr á saltan ægi
eldi hrauð [fyrir æsi[4] köldum
unnar meiðr[5] or dregum hlunni;
almenníngr varð út at sinna[6],
ógnar lundr! á þinni grundu
mildir höfðu útboð[7] höldar
harða[8] sveld af Noregs veldi.

*Hákon konúngr spurði andlát sonar síns*[9].

290. Þá er Hákon konúngr var búinn or Björgyn, hèlt hann[10] austr fyrir Agðir; frètti hann þar andlát Hákonar konúngs, sonar síns, þótti honum þat mikill[11] skaði, sem var. Hèllt hann þá fyrst til Túnsbergs, [átti hann þar ráð við hina vitrustu menn[12], hversu svara skyldi eyrendum þeim, er [síra Ferant fór með[13]. Sýndist[14] mönnum þetta

nefníngar (nefndir) um Hálogaland, en því meiri sem sunnar var, *b. F, G, B.*

[1]) *þannig hin*; öðrum, (*rángt*) *A.* [2]) sem skjótast til hans koma, ok, *b. F, G.* [3]) rèðut, *F*; rèðtu, *B.* [4]) á ægi, *F, G.* [5]) *þ. F*; meið, *A.* [6]) gánga, *F.* [7]) herboð, *F.* [8]) harðla, *B.* [9]) *b. G.* [10]) fyrst austr til Víkr, ok er hann kom, *b. F.* [11]) þúngr, *B, G.* [12]) *frá* [ ok stefndi til sín erkibiskupi (öllum biskupum, *G*) ok öllum hinum vitrustu mönnum, er í landinu voru, til ráðagerðar, *F, G.* [13]) sendimenn konúngs af Spania höfðu til hans ok júngfrú Kristínar, *F, G*; ok er erkibiskup kom, ok hèr var um talat, *b. F.* [14]) sumum, *b. F*; öllum vitrum, *G.*

sæmiligt gjaforð, ef gipta vildi fylgja[1]; var þat konúngs atkvæði[2], at játta sendimönnum því, at hann mundi senda frú Kristín, dóttur sína, út í Spán eptir því sem konúngrinn haíði orð til sent[3], með því móti at jungfrúin skyldi kjósa sèr til manns einn af bræðrum hans, þann sem henni líkaði ok þeim beztum mönnum sem konúngr fengi til fylgðar með henni. Eptir þat lèt konúngr búa ferð hennar[4], ok ætlaði menn til ferðar við henni; var þar fyri Pètr biskup af Hamri, Symon predikari[5], Ívarr Englason, Þorlaugr bósi, Loðinn leppr, Ámundi Haraldsson ok margir aðrir ágætir menn[6]; höfðu þeir meirr en C[7] manna; margar [ágætar konur voru ok í fylgð við henni[8]. Hákon konúngr gerði júngfrú heiman við svâ miklu fè í gulli ok brenndu silfri[9] ok skinnavöru hvítri ok grárri ok öðrum dýrgripum, at engi maðr vissi dæmi til, at þvílíkt fè hefði greitt verit fyrr með nokkurri konúngsdóttur[10] af Noregi. Konúngr lèt ok búa þeim snekkju eina mikla, ok voru þar geyr í herbergi, annat borð[11] júngfrúnni, en á annat borð síra Ferant, þvíat hann mátti ekki [hjá öðrum mönnum[12] vera fyrir sjáverk[13]. Þessi ferð var búin með miklum kostnaði ok hæversku[14], sem Sturla kvað:

---

[1]) eptir því sem von þótti til vera, *b. F.* [2]) með ráði vina sinna, *b. B, F, G.* [3]) ok hún skyldi koma á hans vald, *b. F.* [4]) ok föruneytis, *b. G.* [5]) ok enn fleiri lærðir menn; þar voru ok fyrir, *b, F, G.* [6]) leikmenn, *B.* [7]) CC, *F*; *v. G.* [8]) *frá* [ konur af inum beztum ættum, *G.* [9]) *b. B, F, G.* [10]) *hèr byrjar 6ta brot.* [11]) hjá, *b. F.* [12]) *frá* [ uppi, *G.* [13]) sjóverk, *B.* [14]) háttprýði, *6ta brot, (hèr skaddað á kantinum).*

Errinn sendi úngan svarra
út í lönd á geima þrútinn,
aldri frèttuð jöfra drottins
æðri ferð[1] af heimangerðum[2];
allir tóku yppi[3] þollar
unnartams fyri lægi sunnan
árablakks sem allvaldr væri[4]
innan lands[5] við dóttur þinni.

þegar er ferð júngfrúar var búin, sigldu þau í haf, ok komu[6] við Járnamóðu á Englandi[7].

*Boð Danakonúngs til Hákonar konúngs*[8].

291. [Hákon konúngr[9] dvaldist í Túnsbergi, ok kom til hans mikit[10] lið ok frítt[11]; [svâ kvað Sturla:

Norðan hèldu allt um öldur,
auðar lundr! við þik til fundar,
húfar treystu drifnar dúfur,
dygðar menn or Finna bygðum;
svífa lèztu or hverju hrófi
hlaðnar skeiðr á vatnit breiða,
sandi jós um stálin steindu
storðar gandr fyrir Elfi norðan[12].

þá er Hákon konúngr var í Túnsbergi, kom sunnan af Danmörk Absalon predikari, er próvincíalis var af öllum prèdikaraklaustrum á nor-

---

1) gerð, 6*ta brot*. 2) heimanferðum, 6*ta brot*. 3) uppi, *F*. 4) færi, *F*. 5) borðs, 6*ta brot*, (*máskè rèttast*). 6) af hafi, *b. F*. 7) munu vèr þar nú lètta at sinni at segja af þeirra ferðum, *b. B, F*, 6*ta br*. 8) *b. B*; Um liðdrátt, *G*; Frá ferð Hákonar konúngs til Danmerkr, 6*ta br*. 9) Þat er at segja af Hákoni konúngi at hann, 6*ta br*. 10) stórmikit, *F*. 11) af Noregi, *b. F*; Hann hafði útboð stór um alla Víkina, *b.* 6*ta brot, B*. 12) *frá [ v.* 6*tu br*.

rænni túngu, hann var sendr af Danakonúngi til Hákonar konúngs, at Norðmenn skyldu eigi herja[1] ríki hans, ok sagði at Danakonúngr vildi[2] eiga stefnu við Noregs konúng ok sættast við hann eptir góðra manna ráði. Hákon konúngr bar þetta fyrir vini sína, ok fannst þeim svâ í at eigi[3] mætti fyrir alvöru taka þat er Danir mæltu, með því at þeir höfðu eigi ent[4] þat, er þeir höfðu fyrr við talazt. Ok fyrir því gaf Hákon konúngr þann úrskurð[5], at hann mundi sigla til Danmerkr, sem hann hafði ætlat, ok fara með[6] friði til þess er reynt væri, hvârt þeir Danakonúngr yrði á sáttir[7]. Fór Absalon[8] suðr til Danmerkr[9]. Eptir þetta býr Hákon konúngr ferð sína af Túnsbergi, ok hafði Maríusúðina, þat var dreki XXX at rúmatali[10]; höfuðin voru gulli búin[11] ok svírarnir, [seglit var[12] sett með fögrum skriptum. Mörg hafði Hákon konúngr önnur stór skip ok[13] vel búin, ok þótti mjök líkt til at sjá í sólskini sem eldr brynni af höfðunum ok veðrvitum ok gyltum skjöldum, er við stafnanna voru, sem Sturla kvað:

---

1) í, *b. F*; á, 6 *br.* 2) heldr, *b. F*, 6 *br.* 3) varla, 6 *br.* 4) efnt fyrr, *F*; haldit fyrr, 6 *br.* 5) bróður Absaloni, *b. F*, *G*, 6 *br.* 6) spekt ok, *b. F*, *G.* 7) eðr væri þessi orð ekki nema fals ok hègómi, *b. F.* 8) við þennan orskurð, *b. F*, *G.* 6 *br.* 9) ok með honum Sigurðr prior, er fyrr hafði í milli farit, áðr um vetrinn, *b. B*, *F*, 6 *br.*; (jafnan hafði þar á millum farit), *G.* 10) ok allra skipa (skjótast ok, 6 *br.*) fríðast (bezt) er ger hafa verit í Noregi, *b. F*, *G*, 6 *br.* 11) lögð, *F*, 6 *br.* 12) seglin voru, *F*; vefr seglit, ok, 6 *br.* 13) ágæta, *b. F*, 6 *br.*

messu hina síðari, ok lögðu fyrst í Laxavâg[1]. Um daginn eptir reyru konúngar ok hinir beztu menn móti júnkfrúnni, [fagnaði Hákon konúngr henni vel[2] ok öllu hennar föruneyti; [fór júnkfrú þá til Mikjáls klaustrs[3], ok Hákon biskup við henni[4]. Hákon konúngr mælti svâ er hann kom heim, ok hann hafði sèt júnkfrúna: þat hafða ek ætlat at fagna vel þessi júnkfrú[5], en svâ giptusamliga lízt mèr á hana, at ek skal þó[6] hvar meiri stund á leggja [en ek ætlaða[7]. Eptir þetta lèt Hákon konúngr búa II[8] hallir í konúngsgarði [at veita í brúðkaupit[9].

*Brúðlaup*[10].

309. Sunnudag eptir Maríumessu hina síðari[11] var júnkfrú Íngilborg pausut Magnúsi kon-

---

[1]) Hákon konúngr ok Magnús konúngr voru fyrir í bænum, ok gengu þeir þegar til skipa sinna, ok erkibiskup, með öllum hinum beztum mönnum, ok ætluðu at róa móti júngfrúni, en veðr var svâ hvast, at þeir fengu hvergi róit, *b. B, G.* [2]) fögnuðu konúngar henni með hinni mestu blíðu, *G.* [3]) kirkju, *B.* [4]) *frá* [ þá var þat ráð fyri gert at júngfrú skyldi ekki koma í konúngsgarð, fyrr en brullaupit skyldi vera; fór hún upp til Michjals kirkju (Maríu kirkju, *G*), ok Hákon biskup við henni, ok voru þar nokkurar VII nætr, *G, B.* [5]) er hún kæmi í Noreg, *b. G.* [6]) nú, *G.* [7]) *frá* [ hennar mál, *G*; Hákon konúngr bauð Magnúsi konúngi kost á, hvârt hann vildi heldr búa láta naustit þat it mikla: er þá var veitt í, er ek var vígðr, eðr vildi hann veizluna vera láta i konúngsgarði, í þeim herbergjum, sem þar voru til. Magnús konúngr svarar, at þar voru svâ góðar hallar í konúngsgarði þær, sem þá voru eigi til, er hinn fyrri var veizlan, at þar mátti eigi um vanda þau herbergi, *b. B, G.* [8]) III, *B, G,* [9]) með inum beztum faungum, allskonar er til voru í landinu, *G.* [10]) *b. B*; Pausut júngfrú Íngilbjörg Magnúsi konúngi, *G.* [11]) fyrri, (*rángt*) *B.*

íngi með mikilli sœmð; gekk Magnús konúngr þá at brúðlaupi sínu, ok voru báðir konúngarnir í steinhöllinni, ok erkibiskup ok lýðbiskupar, Knútr jarl, [1]lendir menn ok hirðin[2]. Frú Margrèt drottníng var í trèhöllinni ok júnkfrú Íngilborg ok allt hennar föruneyti[3]. [Svâ var talt at eigi var færra manna þar en ellifu[4] hundrat, ok um fram þjónustumenn[5]; var þessi veizla veitt með hinum mesta kostnaði ok hinum beztum föngum er til voru; ok [segja menn[6] at eigi muni þvílíkt brúðlaup veitt hafa verit í Noregi sem þessi, [þvíat þar skorti eigi heldr vín en annan drykk[7]. Hákon konúngr leitaði ráðs við vini sína ok ráðgjafa, hvart Magnús konúng skyldi vígja undir kórónu [þá þegar[8], en þar lögðu menn misjafnt til; mæltu sumir at Magnús konúngr mundi [taka stærð[9] með kórónu[10], ok kölluðu þat greina vænt milli konúnga, en Hákon biskup ok aðrir, þeir sem farit höfðu móti júnkfrúnni, sögðu Hákon konúng því heitið hafa, at þau skyldi bæði kóróna, báðu konúnginn þat efna, sem hann hafði heitið báðum þeim til sæmð-

---

1) ok flestir, *b. G.* 2) hirðstjórar ok it bezta mannval, *G.* 3) konur (ok karlar, *b. G*) ok klaustra menn ok mart annarra góðra manna. Í jóla höllunni var Ögmundr krækidanz ok Erlingr Álfsson, kaupmenn, útlendismenn (útlendt fólk) ok bæjarfólk (allt klaustrafólk, *G*), *b. B, G.* 4) XVI, *B.* 5) *frá* [ XVI hundrut manna var veitt, utan sveinum (þjónustumönnum, *B*), *G.* 6) var þat vitra manna mál, *G.* 7) *frá* [ Hákon konúngr mælti svâ fyrir, at í þeirri hall (höll) er hann veitti sjálfr í, skyldi hverr kjósa sèr drykk, hvern sem drekka vildi, þvíat eigi var vín úgnægara en annarr drykkr, *B, G.* 8) *frá* [ eðr eigi, *G.* 9) starast, *G.* 10) ok mundi vilja hafa hirð aðra, *b. B, G.*

ar; en þó veitti þetta seint[1]. Magnús konúngr flutti þá sjálfr sitt mál við föður sinn, ok sagði svâ: eigi skulut þèr, minn herra, trúa þeirra manna orðum, er þat segja, at ek muna nokkura [taka ímóti yðr[2], þótt þèr [gefit mèr meiri sæmð en nokkurr konúngr annarr í Noregi[3] sínum syni; þvíat þèr vitið[4] at ek hefi yðr mjúkr[5] verit í öllum lutum[6]; vænti ek at enn skuli svâ vera, þótt þèr unnit mèr þeirrar tignar sem þèr hafit mèr heitið. Hákon konúngr svarar: satt er þat, Magnús konúngr, at þèr hafit ástsamliga til vâr þjónat[7]; er þat úmakligt at ek unna yðr eigi hinnar hæstu sæmðar[8], eptir því sem framast er guðs miskunn[9] til. Brúðlaupsveizlan stóð III daga.

*Vígðr Magnús konúngr*[10].

310. [Krossmessudagr var óðinsdagr[11] í vikunni[12], lèt Hákon konúngr þá umbúast af nýju[13], þvíat hann ætlaði at þann sama dag skyldi vígja Magnús konúng undir kórónu[14]; voru þá allir lutir líktir eptir því sem þá er Hákon konúngr var

[1]) fluttu þetta margir vinir þeirra, ok svâ kom þessu, at menn vissu eigi, hvarnin verða mundi, *b. G.* [2]) stærð upp taka, *G.* [3]) *frá* [ veitit mèr þá sæmð, sem eingi Noregs konúngr hefir veitt, *G.* [4]) þat sjálfr, minn herra! (kæri faðir! *B*), *b. G, B.* [5]) mjúklyndr, *G.* [6]) eigi nú síðr er ek konúngr, en áðr, sem bæði er yðr sæmð ok mín, *b. B.* [7]) gert, *G.* [8]) tignar, *G.* [9]) vili, *G.* [10]) *b. B*; Krúnaðr Magnús konúngr Hákonarson, *G.* [11]) á fimta dag, *B.* [12]) *frá* [ Krossmessa var óðinsdaginn, *G.* [13]) í garðinum, *b. B, G.* [14]) eptir því sem guð hafði fyrirhugat. Var þá súngit árla í bænum (um bæinn) ok at lyktum tíðum sótti allt fólk upp í konúngsgarð, *b. G, B.*

kórónaðr[1]. En um messuna stóð Missel rídari uppi á kórinum, ok undraðist mjök atferð vígslunnar, því at þat er ekki siðr at kóróna konúnga í Skotlandi[2]; ok þá er Magnús konúngr var klæddr, ok Hákon konúngr ok erkibiskup[3] lögðu um hann vígslusverðit, mælti hinn skotski rídari: þat var mèr sagt, at hèr væri ekki rídarar dubbaðir í þessu landi, en ek sá öngan rídara jafntíguliga dubbaðan þarsem X[4] hinir ágætustu höfðíngjar[5] leggja um hann vígslusverðit[6]. Þá er Magnús konúngr var skrýddr, leiddi erkibiskup hann til sætis síns. Síðan vígðu þeir drottnı́ngu. Þá gekk Hákon konúngr at stólin-

---

[1]) vigðr; var svâ öllum lutum skipat, sem þá. Fyrst fóru þeir er rýmdú veginn, þarnæst þeir er merkin báru, þá sýslumenn, eptir þat — *hèr sleppir skinnbókin G til fulls ok alls*; herklæddist þá mestr luti hirðarinnar öllum herbúnaði at gánga bæði um konúngsgarð, ok rýma veginn til Kristskirkju; fyrst gekk hirðin, sú er rýma skyldi veginn, þarnæst þeir er merkin báru, þar næst sýslumenn ok skutilsveinar, eptir þá lendir menn, þá gengu IIII lendir menn ok báru mikit taflborð milli sin yfir höfði sèr, ok þar á konúngsskrúð ok vigsluklæði, þar næst gengu þeir Erlíngr Álfsson ok Brynjólfr Jónsson ok báru II ríkissvöndu af silfri ok mjök gulli búna; þar næst gekk Knútr jarl ok bar kórónu, ok leiddu hann tveir stallarar, þvíat hann var mjök sjúkr. Jafnfram honum gekk Gautr Jónsson, ok bar vigslusverðit, þar næst voru leiddir konúngarnir; við garðshlið í konúngsgarði komu ímót biskupar, ábótar ok lærðir menn með processione, ok hófu upp saung, ok gengu svâ til altarls; eptir þetta var messa súngin, ok fór vigslan allvel fram eptir því sem heilög kirkja býðr, *b. B.* [2]) honum fanst svâ mikit til vigslunnar, at hann klökk, áðr en þeir sögðu honum er hjá stóðu, *b. B.* [3]) ok aðrir þrír biskupar, *b. B.* [4]) V, *B.* [5]) í þessu landi, *b. B.* [6]) sverðit, *B.*

um, er Magnús konúngr sat á; hann vildi upp standa á mót honum; Hákon konúngr tók hendinni á öxl honum, ok mælti: eigi skulut þèr [nokkurum manni hneiga[1] þenna dag, þvíat nú er sá dagr kominn, er ek vilda gjarna beðit hafa, at ek sè mitt hold svâ tignat, heldr en ek fyrimuna þèr þessa veldis[2]. Eptir þat gánga konúngar til borðs, ok bar Magnús konúngr kórónu þann dag, var þá hin fegrsta veizla[3] Magnúsi konúngi til sæmðar ok frú Ingilborgu drottníngu ok [þeirra mönnum[4], sem Sturla kvað:

Úngr tóktu jöfra þengill
ægr með[5] vígslu frægri,
kynnist kapp þitt mönnum,
konúngs nafn á þik jafnan,
ok sókngæðir síðan
snjallmæltr hlutuð allrar,
hèr lýsi ek veg vísa,
vald framkomit aldar.
[6]Heilags hafit hála
hraustr þengilsson fengit,
þik reifir guð gæfu,

1) upp standa mót mèr, frændi, þvíat þèr skulut nú halda yðr sem tíguglígast, ok hneigja engum manni, *B.* 2) en því leitaða ek ráðs hèr um, at ek vildi vita hèr um annarra manna tillögur, ok voru þeir inir sömu er mèr löttu þessa, ok eigi hafa áðr verit umbóta menn með mèr ok enum fyrrum yðrum frændum, sem guð fyriláti þeim. Þá er messu var lokit, fylgði erkibiskup ok aðrir biskupar konúnginum heim til herbergis, sem fyrr, sýngjandi lof guði; þá afklæddist konúngrinn vígsluklæðum, ok veitti erkibiskup honum alla þjónustu, er vígslunni átti at fylgja; eptir þat fór hann í allan konúngsbúnað, *b. B.* 3) með miklum fagnaði, *b. B.* 4) öllum þeirra vinum, *B.* 5) við, *B.* 6) Ok enn, *b. B.*

gnótt, þjóðkonúngsdóttur;
snjallr má Eiríkr öllu
alldýr konúngr stýra,
yðar þroski gengr óskum,
einart við guð hreinan.

At þessi veizlu gáfu konúngar margar sæmiligar gjafir [öllum höfðíngjum ok svâ dönskum mönnum, þeim sem júnkfrú[1] höfðu sunnan fylgt, ok leysti þá [vel á braut, ok undu við sitt eyrindi, en sumir voru eptir með drottníngu[2].

*Andlát Knúts jarls*[3].

311. Knútr jarl var kránkr mjök um veizluna, sem fyrr var ritat; síðan lagðist hann í sótt, ok andaðist síðan. Hákon konúngr gerði líkferð hans sæmiliga, sem tign hans byrjaði ok burðum; hann var jarðaðr í Kristskirkju hjá Hákoni föður sínum. Knútr jarl var allra manna kurteysastr um alla hluti, klerkr góðr ok manna örvastr af fè, hár maðr vexti ok vel yfirlits, drykkjumaðr ofmikill, ok þaraf fèkk hann vanheilsu. Þetta haust komu þeir utan af Grænlandi Oddr af Sjolltum, Páll Magnússon ok[4] Knarrar-Leifr, þeir höfðu verit út[5] IIII vetr, ok sögðu at Grænlendíngar hefði gengit undir skatta[6], svâ ok[7] skyldi bæta öll manndráp við konúng, hvârt sem drepnir væri

---

[1]) *frá* [ fyrst erkibiskupi ok öðrum höfðingjum; Magnús konúngr gaf öllum sveitúngum sínum gjafir ok mörgum öðrum, en eptir veizluna hafði hann alla danska menn í boði sínu, þá sem frú Engilborg, *B.* [2]) *frá* [ alla höfðingliga af höndum, ok fóru þeir heim til Danmerkr, en eptir voru með drottningu konur þær ok sveinar, sem henni líkaði, *B.* [3]) *b.* *B.* [4]) *b.* *B.* [5]) burttu, *B.* [6]) skattgildi, *B.* [7]) at, *B.*

norænir menn eða grænlenzkir[1], allt norðr undir stjörnu[2], [svâ at gjalda þegngildi eptir[3], sem Sturla kvâð:

Norðr líkar þèr allt at auka
yðart vald um heiminn kalda,
gegnir munu því fyrðar fagna,
fjörnis álfr und leiðarstjörnu;
þengill hefir þar annarr engi
allvaldr enn þú ríki haldit,
lengra reiða[4] þjóðir þángat
þína dýrð enn röðull skíni.

Sumar þetta er nú var frá sagt sendi Hákon konúngr til Íslands Hallvarð gullskó[5]; kom hann í Hvítá [í Borgarfirði[6], ok fór brátt at finna jarl, ok flutti djarfliga konúngs eyrindi fyrir honum; jarl tók því vel[7]. Hallvarðr fór til vistar í Reykjaholt. [Sóru sumir menn um haustið Hákoni konúngi land ok þegna[8]. Jarl sat um vetrinn fyrir norðan land, ok [átti tal við bændr, hvert ráð skyldi gera fyrir áköllum þeim, er konúngsmenn höfðu, ok hann hafði konúngi heitið; fór þá upp allt hit sanna, hverju hann hafði konúngi játtað; var þá þat ráð gert, at bændr hètu jarli stórfè, at leysa þat gjald sem á var kveðit;

---

[1]) ok hvârt sem þeir væri drepnir í bygð eðr norðrsetu ok, *b. B.* [2]) stjörnuna, *B.* [3]) skyldi konúngr þegngildi taka, *B.* [4]) telja, *B.* [5]) at flytja sitt erendi við jarl, at hann endi sín einkamál, *b. B.* [6]) *v. B.* [7]) ok kvaðst svâ skyldu gera sem konúngr hafði orð til sent, *b. B.* [8]) *frá* [ ok sat þar um vetrinn; þeir jarl fundust um vetrinn öndverðan, ok sóru þá nokkurir bændr konúngi trúnaðareiða, þeir er áðr höfðu mót staðit, *B.*

hètu sumir bændr[1] CC, sumir C eða XII aura [eða minna[2]. Ok er Hallvarðr spurði þetta, [segir hann at konúngr vildi hafa hlýðni af bændum ok slíkan skatt sem þeir yrði á sáttir, en konúngr vildi ekki[3] at bændr væri pýndir til svâ mikilla fègjalda[4]. Hallvarðr flutti ok konúngs mál við Vestfirðínga, ok hètu þeir at koma til þórsnes þíngs[5], en [jarl stefndi[6] bóndum til Hegranesþíngs, ok lèt þar nokkura menn sverja Hákoni konúngi[7], en Rafn Oddsson kom[8] til þórsnesþíngs, ok því fór Hallvarðr eigi þángat; var þessu máli skotit til alþíngis; drógu allir hinir stærstu menn saman flokka í Vestfjörðum [ok fyri sunnan land, ok ætluðu að fylgja konúngs máli á alþíngi[9]. En er jarl spurði þetta, flutti hann við Norðlendínga[10] konúngs mál, ok[11] kallaði fjörráð við sik, ef [eigi væri gengit undir þat sem konúngr beiddi[12]. Ok er skiput var lögrètta, sóru flestir hinir beztu bændr or Norðlendíngafjórðúngi, ok af Sunnlendíngafjórðúngi

---

1) *frá* [ leitaði ráðs við bændr, hverju svara skyldi; buðu bændr at leysa, jarls vegna, við konúnginn, sumir, *B.* 2) *v. B.* 3) *frá* [ kvað hann konúng ekki vilja, *B.* 4) kvað hann vilja hafa mátuligan af almenningi skatt, ok hèt í móti rèttarbótum, *b. B.* 5) um vârit, ok sverja þar konúngi land ok þegna, *b. B.* 6) er jarl varð þessa viss, stefndi hann, *B.* 7) land, *b. B.* 8) eigi, *b. B.* 9) er at leið þingstefnunni; þeir sendu menn á fund sona Steinvarar ok Andressona, at þeir skyldu ríða til þings með öllum afla sínum fyrir austan Þjórsá; Þorvarðr Þórarinsson hafði heilið at koma með Austfirðinga. Gissur jarl kom til alþingis með miklu liði, *B.* 10) ok Sunnlendinga, *b. B.* 11) bað þá til með góðum orðum, ok, *b. B.* 12) þeir mælti í mót, *B.*

fyrir uttan þjórsá Hákoni konúngi land ok þegna ok æfinligan skatt, [sem brèf þat vâttar er þar var eptir gert[1]. Reið Sigvarðr biskup með Hallvarði [vestr til Borgarfjarðar[2] til þverárþíngs; gengu þar Vestfirðíngar undir [þvílíka eiða sem[3] fyrst sóru formenn Rafn[4] ok Sighvatr Böðvarsson, Sturla þórðarson, Einarr þorvaldsson, Vigfús Gunnsteinsson, ok III bændr með hverjum þeirra; þrír bændr sóru ok fyri Borgfirðínga[5].

*Frá Magnúsi konúngi*[6].

312. [Hinn næsta vetr eptir er Magnús konúngr gerði brúðlaup sitt, ok hann var kórónaðr, sat hann í Björgyn, ok svâ Hákon konúngr fram um jólin[7], ok var þessi hinn V vetr hins fimta tigar ríkis hans. Snemma um vârit fóru konúngarnir austr til Víkr, ok ætluðu austr til Elfar til móts við Birgir jarl, eptir því sem áðr höfðu

1) *frá* [ síðan reið jarl af þingi ok suðr í Laugardal ok hèlt þar saman flokkinum um hríð, *B.* 2) *v. B.* 3) *frá* [ hlýðni, *B.* 4) Oddson, *b. B.* 5) þá höfðu allir Íslendingar gengit undir skatt við Hákon konúng, utan Austfirðingar frá Helkunduheiði ok til Þjórsár í Sunnlendinga fjórðungi, *b. B.* 6) *b B.* 7) Hákon konúngr sat um vetrinn í Björgyn, en Magnús konúngr fór suðr í Stafángr. Einar erkibiskup leiddi hann til skips ok mælti svâ: jafnan hefir mèr fyri þótt at skilja við yðr utan nú, þviat þat gleðr mik nú at ek hefir veitt yðr alla þá þjónustu sem ek má yðr til tígnar gera. Fyrst gaf ek yðr konúngsnafn, eptir þat pausaði ek yðr við drottningina, síðan vigða ek yðr undir kórónu ok svâ drottningina; er nú þat eitt eptir sem guð láti mèr eigi auðit verða, at standa yfir grefti yðrum. Magnús konúngr þakkaði biskupi bæði orð ok þjónustugjörð. Magnús konúngr dvaldist í Stafángri um hríð; hann fór norðr aptr fyrir jólin, ok sátu þeir Hákon konúngr báðir samt um jólin í Björgyn, *B.*

orð farit í millum þeirra. Ok skyldu þeir gera ráð fyrir eignum þeim sem áttu dætr Eiríks konúngs í Danmörk, þvíat þeir áttu þar heimtur[1] til, Magnús konúngr ok Valdimar konúngr; hann hafði fengit Suffíu, dóttur Eiríks konúngs[2]. En er konúngar fóru or Björgyn, voru þar eptir Margret drottníng ok frú Íngilborg, þvíat hún var þá með barni. [Ok er konúngar komu í Víkina, voru þar fyri sendimenn Birgis jarls[3], ok sögðu at jarl þóttist eigi mega finna konúnga, sakir fjölskylda, en [bað hvâratveggju[4] senda menn til Danmerkr, ok vita [hvern útveg Margret drottníng vildi gera á fyrrnefndum eignum, ok væri síðan skipt með þeim systrum ok svâ hinum tveim er ógiptar voru[5].

*Frá Hákoni konúngi[6].*

313. Þá sendu þeir Hákon konúngr ok Magnús konúngr suðr til *Danmerkr Pál gás*, Andres plyt[7], Þorlaug bósa, ok skyldu þeir sjá yfir þetta fêskipti af hendi Magnúss konúngs ok [Íngilborgar drottníngar[8]. Ok er þeir komu til Danmerkr, var þar fyrir *Aðalbrikt* hertogi af Brúnsvík, ok hafði ráð öll með drottníngu. Dvöldust þeir Páll við hertoganum um sumarit, ok fengu engi orskurð sinna eyrinda[9]. Magnús konúngr

1) heimtíngar, *B.* 2) systur Engilborgar drottningar, *b. B.* 3) *frá* [ Konúngarnir fundu sendimenn Birgis jarls í Túnsbergi, *B.* 4) gaf þat ráð at, *B.* 5) *frá* [ hvat hver þeirra systra ætti, Engilborg ok Sophía, eða þær tvær sem úgiftar voru, ok skifta síðan með jafnaði, *B.* 6) *b. B* 7) plytt, *B.* 8) frú Engilborgar, *B.* 9) Hákon konúngr fór til Oslóar, en, *b. B.*

fór austr til Borgar, at sjá um þau lèn, sem Hákon konúngr hafði veitt frú Íngilborg [at brúðlaupi þeirra Magnús konúngs[1]. Síðan fóru þeir báðir konúngarnir til Björgynjar[2] um vakna skeið, [ok dvöldust þar um sumarit. Þetta sumar[3] sendi Hákon konúngr Loðin lepp ok Hákon eysil út til soldáns [af Túnis[4] með mörgum fálkum ok öðrum þeim lutum[5], sem þar voru torugætir. Ok er þeir komu út, tók soldán þeim vel, [ok voru þeir þar lengi um vetrinn[6], sem Sturla kvað:

Allvaldr dýrðkast út með Serkjum
innanlands af mildi þinni,
þjóðum[7] líka þínir haukar
þaðra allt með Blálands jaðri;
víða hrjóta veglig mæti
vægðarlaust af yðrum frægðum,
hollar prýða[8] heiminn allan
hnossir þínar mærðar tínir!

Þetta sumar kom uttan af Íslandi Hallvarðr gullskórr, ok sagði at Íslendíngar hefði svarit skatt Hákoni konúngi. Þá kom ok uttan með honum Sighvatr Böðvarsson, Sturla Hrafnsson; þá kom ok af Íslandi Brandr ábóti Jónsson at orðsendíngu Einars erkibiskups[9]. Þetta sumar var

1262

[1]) *frá* [ í þessari ferð fèkk Magnús konúngr sjúkleika, af því er hann hafði riðit svâ mikinn, ok sneri hann þá til Oslóar, ok var þá nokkuru lèttari; gekk hann þá til kirkju ok gerði biskup processionem í móti honum; hèðan af bættist honum, *B.* [2]) ok komu norðr, *b. B.* [3]) *frá* [ þá, *B.* [4]) *frá* [ konúngs til Serklands, *B.* [5]) gripum, *B.* [6]) *v. B.* [7]) þeingil, *B.* [8]) prýði, *B.* [9]) ok fór til móts við hann. Þorlaugr bósi kom til Hákonar konúngr í Björgyn ok sagðist ekki geta sýst, en þeir voru eptir Páll gás ok Andres plyttr, *b. B.*

fæddr í Björgyn Ólafr, son Magnúss konúngs ok Íngilborgar drottníngar. Um haustið fóru konúngar norðr til þrándheims, ok með þeim drottníngar báðar, en júnkherra Ólafr var eptir at nunnuklaustri[1]. Sátu konúngar þann vetr í þrándheimi. Andres plytt kom sunnan um vetrinn fyrir jól af Danmörk, sagði [hann at hertoginn ok drottníng hefði öngar eignir til greitt, þær sem Íngilborg drottníng átti, ok ekki skipti væri gert með dætrum Eiríks konúngs, en vísir voru þeir orðnir[2], hversu miklar voru eignirnar, eðr hvar lágu.

## *Útboð*[3].

314. [4]Um sumarit áðr[5] komu brèf vestan af Suðreyjum frá [konúngum, ok kærðu þeir[6] mjök um þann ófrið er jarlinn af Ros ok Kjarnakr, son Makamals[7] ok aðrir Skotar höfðu gert á Suðreyjum, þá er þeir fóru [út í Skíð[8], ok brendu bæi ok kirkjur, en drápu [mikinn fjölda[9], karla ok konur, ok [svâ sögðu þeir, at Skotar hefði tekit smábörnin ok lögðu á spjótsodda, ok skóku til þess er þau rendu at höndum þeim ofan ok köstuðu þeim svâ dauðum af fram[10]; sögðu ok at Skotakon-

---

[1]) nunnusetri. En er þau komu norðr gerði erkibiskup fagra processionem í móti þeim, *B.* [2]) *frá* [ ekki skipti vera gert með frú Engilborg, en vita kvaðst hann, *B.* [3]) *b. B.* [4]) Hákon konúngr sat um jólin í Þrándheimi, ok hafði mikinn kostnað. Brandr ábóti var með honum, ok var konúngr vel til hans. Einarr erkibiskup var sjúkr um vetrinn, gekk hann litt at finna konúng, en þó fóru allir lutir vel með þeim, dró Magnús konúngr þar ok alla luti til, *b. B.* [5]) *v. B.* [6]) *frá* [ konúnginum, hann kærði, *B.* [7]) Machamals, *B.* [8]) *frá* [ í stríð, *B.* [9]) *frá* [ bæði, *B.* [10]) *frá* [ lètu smá börn sprækla á spjótaoddum, *B.*

úngr ætlaði at leggja undir sik allar Suðreyjar[1]. En er þessi tíðindi frètti Hákon konúngr, fèkk honum mikillar áhyggju, ok bar þetta mál fyri [ráð sitt[2]; en hvat sem hverr lagði til, lèt Hákon konúngr gera útboða-brèf um vetrinn eptir jól of allan Noreg, ok bauð út leiðángri bæði at liði[3] ok vistum, [svâ sem honum þótti landit mestu mega afla[4]. Stefndi hann her þeim öllum til móts við sik [snemma um sumarit í Björgyn[5].

*Brandr ábóti kjörinn biskup til Hóla.*

315. Einarr erkibiskup átti tal við kórsbræðr um vârit of biskups kosníng [til Hóla[6] á Íslandi, ok [kom þat ásamt með þeim at kjósa Brand til biskups. Ok sama dag var kosinn með ráði konúngs síra Gillibert, er þá var nýkominn or kúría[7]. Hinn IIII nonas dag marzíí mánaðar vígði Einarr erkibiskup þá báða til biskupa, Gillibert til Hamars, en Brand til Hóla á Íslandi[8].

*Konúngr byrjaði herferð til Skotlands[9].*

316. Hákon konúngr fór or Niðarósi nær miðri föstu[10] hit efra austr til Víkr, ok svâ austr til Elfar til móts við Birgi jarl[11]. Ok er Hákon

---

[1]) ef honum ynnist líf til, *b. B.* [2]) vini sína, *B.* [3]) skipum, *b. B.* [4]) *frá* [ *v. B.* [5]) *frá* [ til Björgynjar, *B.* [6]) *v. B.* [7]) *frá* [ keyru þeir Brand ábóta með samþykki báðra konúnganna; þá var ok utan´kominn af kúría síra Gillibert; hann sýndi brèf páva at hann gaf í vald erkibiskups biskupskosníng í Hamri, ok skyldi hann þó kjósa Gillibert, eptir því sem konúngs vili var til, *B.* [8]) voru þar við Pètr biskup af Björgyn, ok Þorgils biskup af Stafángri, *b. B.* [9]) *b. B.* [10]) út til Orkadals ok svâ suðr um fjall, ok, *b. B.* [11]) eptir því sem orð höfðu í milli farit þeirra Birgis jarls, at þeir skyldu finnast i Ljóðhúsum í páskaviku, *b. B.*

konúngr kom til Ljóðhúsa, var jarl í brottu; fór konúngr þá í Víkina norðr[1]. [Magnús konúngr kom eptir páska suðr til Björgynjar, ok fór síðan[2] suðr í Stafángr. Hákon konúngr kom norðr til Björgynjar at krossmessu, [hèlt hann þá á búnaði sínum sem skjótligast. Samnaðist þar mikit lið til hans, ok nær allir handgengnir menn ok sýslumenn ok fjöldi leiðángrsmanna[3].

*Hákon konúngr átti þíng við liðit.*

317. Síðan átti Hákon konúngr almenniligt þíng í Björgyn uppi á Bökkum; kom þar saman allmikill her; lýsti konúngr þá yfir ferð sinni, at ætlar vestr um haf her þeim til Skotlands, at hefna þess hernaðar[4], er Skotar höfðu gert á ríki hans; en Magnús konúngr bauð at [fara þessa ferð fyrir hann, en Hákon konúngr væri eptir[5]; hann þakkaði honum þat [mörgum fögrum orðum, en sagði þó, þar sem hann var ellri, ok hafði lengr haft frèttir af Vestrlöndum, ok vildi hann því þessa ferð fara[6]. En hann fèkk öll landráð Magnúsi konúngi. [Á þessu þíngi skipaði hann mörgum lutum þeim sem landinu heyrði[7]; hann gaf ok upp bóndum, at öngar

---

[1]) Litlu siðar fór Magnús konúngr or Þrándheimi ok drottníngar báðar; hann hafði tiðir páskadag í Frekeyjarsundi; *b. B.* [2]) *frá* [ hann fór, *B.* [3]) *frá* [ dvaldist þar um vorit, ok hèlt á búnaði sínum. Þá er Magnús konúngr hafði gert ráð fyrir útboðum ok skipabúníngi í Rýgjafylki, þá fór hann til móts við Hákon konúng. Eptir þat safnaðist lið hversdagliga til bæjar, bæði lendir menn ok sýslumenn, ok flestir handgengnir menn í landinu, *B.* [4]) úfriðar, *B.* [5]) *frá* [ vera fyri herinum, *B.* [6]) *frá* [ ástsamliga, en sagðist heldr fara vilja, *B.* [7]) *frá* [ *v. B.*

sakir skyldi sýslumenn sækja, meðan hann væri í brottu, uttan þær sakir sem stærstar væri. Til þessarar ferðar hafði Hákon konúngr skip þat hit mikla, er hann hafði gera látið í Björgyn[1] af eik einni; þat var með ágætum drekahöfðum öllum [gulllögðum, ok svâ[2] svírarnir; mörg hafði hann önnur stór skip ok vel búin. Um vârit hafði Hákon konúngr sent vestr [til Orkneyja[3] Jón Lánglífarson [eptir leiðsögumönnum til Hjaltlands; þeir Jón fóru til Suðreyja, ok sögðu Duggal konúngi[4], at hersins var austan vân. En þat orð lèk á, at Skotar mundu herja á Eyjarnar of sumarit. En Duggall konúngr laust því upp, at austan væri[5] af Noregi XL skipa[6], ok heptust Skotar við þat.

*Frá Hákoni konúngi*[7].

318. Nokkuru áðr en konúngr var búinn, sendi hann IIII[8] skip vestr fyrir[9]; þessir voru þar formenn: Rögnvaldr urka[10], [Erlíngr Ívarsson, Andres Nicholásson[11], Hallvarðr rauðr[12]. Þá er Hákon konúngr hafði búit skip sitt, lagði hann brott or bænum út til Eiðsvâgs [með allan herinn[13], ok fór síðan inn til bæjar, ok dvaldist þar nokkurar nætr, ok fór síðan út[14] í Herðlover[15], sem segir í Hrafnsmálum[16].

---

1) ok ætlaði sèr til útfaraskips; þat var VII rúm ok XX gert, *b. B.* 2) *frá* [ gulli lögðum ok búnir, *B.* 3) *frá* [ um haf, *B.* 4) *frá* [ Heinrek skot at fá leiðsögumenn. Þeir fundu Duggal konúng ok sögðu honum, *B.* 5) komin, *b. B.* 6) skip, *B.* 7) *b. B.* 8) átta, *B.* 9) sèr, *b. B.* 10) Nichulásson, *B.* 11) *frá* [ *v. B.* 12) ok enn fleiri; þeir lágu um hríð út við haf, ok byrjaði eigi, *b. B.* 13) ok mestr luti hersins, *B.* 14) *til skips ok sigldi út, b. B.* 15) kom þar saman

Sóttu sóknhvattar
sveitir háleitan
geiraglymstæri
glyggs or Finnbygðum;
allt bar[1] jarðbeltis
austan sigr flaustum
gjálfr af Gautelfi
gætis hásæta.
Aungr sá ormvengis
ótti vígdróttir,
fleiri flugstæris
fleins í stað einum;
lukti lómblekkir[2]
landa útstrandir
hríða herskíðum
harðr [ok rann garði[3].
Glumdi á gjálfrtömdum
Gestils skeiðhestum
eldr of allvaldi
ægis nafnfrægjum;
skein af skautvönum
skeiðum brynreiðar
sól of[4] sigdeili
snotran[5] óþrotlig[6].

---

allr herinn, bæði norðan or landi ok sunnan; var þar stórmikill her, *b. B.* [16]) Rafnsmálum, ok Sturla kvað, *B.*

[1]) *þannig B;* frá, *A.* [2]) lómhlekki, *B.* [3]) *frá* [ at rángarði. Hákon konúngr lá með herinum öllum í Herðluveri; var þat allmikit lið ok fritt; mörg hafði konúngrinn stór skip ok vel búin, sem hèr segir, *B.* [4]) *þannig leiðrètt;* af, *A;* um, *B.* [5]) *þannig rèttar B;* snotrum, *A.* [6]) Nokkurum nóttum síðar en Hákon konúngr kom í Herðluver, sigldu þeir af hafi, Rögnvaldr ok Erlíngr, með þeim skipum er þeir höfðu, *b. B.*

þeir Rögnvaldr skildust í hafi, ok kom Rögnvaldr við Orkneyjum með sumum skipum; en Erlíngr ok Andres ok Hallvarðr[1] sigldu fyri sunnan Hjalltland, ok svâ vestr fyri þareyjarfjörð[2], ok sá ekki land fyrr en Súlnastapa[3] vestr frá Orkneyjum. Síðan sigldu þeir inn undir Skotland undir[4] Dýrnes[5], ok gengu þar upp, ok brutu kastala einn, en menn, þeir sem í voru, flýðu undan; síðan brendu þeir meirr en XX bæi; ok þá sigldu þeir í Suðreyjar, ok fundu þar [Magnús konúng or Mön[6].

*Hákon konúngr fór af Noregi.*

319. þrim nóttum eptir[7] Seljamannavöku sigldi Hákon konúngr í Sólundarhaf við öllum herinum, þá hafði hann verit konúngr at Noregi XL vetra ok VI vetr; var þá allgóðr byrr ok fagrt veðr; var flotinn allglæsiligr at sjá, sem hèr segir:

Laust af liðföstum
ljósum valdrósar
brims á bjart himna
blómum vegljóma[8];
ferð var friðskerðis
flokka áþokkut
heims um haf strauma
hrínga eldíngum.

Hákon konúngr hafði mjök valið lið á skip sitt; þessir voru í fyrirúmi: þorleifr ábóti af Hólmi, síra Askatin, prestar IIII ok[9] klerkar konúngs,

---

1) rauðr, *b. B.* 2) Barreyjarfjörð, (*líklega rèttara*) *B.* 3) súlnasker, *B.* 4) ok komu við, *B.* 5) Dýrrnes, *B.* 6) *frá* [ konúnginn af Mann, *B.* 7) fyrir, *B.* 8) vígljóma, *B* 9) aðrir, *b. B.*

[1]Andres af þissis ey, Andres Hávarðarson, Guthormr Gullason[2] ok þorsteinn, bróðir hans, Eiríkr skota Gautsson, ok enn fleiri. þessir voru í krapparúmi: Aslákr Dagsson, Steinarr herka, Klömit lági[3], Andres gums, Eiríkr Duggalsson[4], Sighvatr Böðvarsson, Höskuldr Oddsson, Jón hóglífi, Árni slínkr[5]. Í þriðja rúmi var Sigurðr Ívarsson[6], [Ívarr son Helga[7] at Loflói[8], Erlendr skolbeinn[9], Dagr af Suðrheimum[10], Brynjólfr Jónsson, Guðleikr sneis, ok enn fleiri herbergismenn konúngs; Andres plytr var fèhirðir konúngs. þessir voru í stafni: Eiríkr skífa[11], þorfinnr Sigvaldason, Kári Eindriðason, Guðbrandr[12] Jónsson, ok enn fleiri skutilsveinar; víðast voru IIII menn í hálfrými. Með Hákoni konúngi fór or Björgyn Magnús jarl af Orkneyjum, ok gaf konúngr honum gott lángskip. þessir voru lendir menn með konúngi: Brynjólfr Jónsson, Finnr Gautsson, Erlíngr Álfsson, Erlendr rauðr[13], Bárðr í Hestbæ, Eilífr í Naustdal, Andres pottr, Ögmundr krækidanz. [þessir voru fyri framan siglu: Rögnvaldr urka, Erlíngr Ívarsson, Jón drottníng; Gautr á Meli ok Nicholás í Gizka voru eptir með Magnúsi konúngi[14]. Hákon kon-

---

1) þessir leikir menn: Áslákr guss, stallari konúngs, *b. B.* 2) Gillason, *B.* 3) lángi, *B.* 4) faðir Duggals konúngs, Einarr lúngbarðr, Arnbjörn svæla, *b. B.* 5) slýngr, *B.* 6) sonr Ívars kofu, *b. B.* 7) Helgi son Ívars, *B.* 8) Lofalæk, *B.* 9) skósveinn, *B.* 10) Suðreyjum, *B.* 11) kífa, *B.* 12) Guðmundr, *B.* 13) rauði, *B.* 14) *frá* [ þeir sigldu fyrir Rögnvaldsey; Erlíngr Ívarsson, Jón drottníng voru eptir í Björgyn, ok enn fleiri skipstjórnarmenn, því at þeir voru eigi búnir; margir voru aðrir ágætir skipstjórnarmenn með Hákoni konúngi, þeir sem enn verðr getit, *B.*

úngr fèkk hægja byri, ok var II nætr í hafi, ok tók Hjaltland með miklum[1] luta hersins, þar sem heitir Breiðeyjarsund, sem Sturla kvað:

Leysti lángrastar[2]
landa stýrandi
heldum [um haf aldir[3]
húfum bláðúfur;
lýstist hrein hestum
höfn af skipstöfnum
eldi álfoldar
auðar glóðrauðum.

Hákon konúngr lá í Breiðeyjarsundi nær hálfum mánaði, ok sigldi þaðan til Orkneyja, ok lá um hríð í Elliðarvík, þat er næst[4] Kirkjuvâgi. Þá [lýsti hann því fyrir mönnum, at hann mundi[5] skipta herinum ok senda suman suðr til Breiðafjarðar, ok herja þar. En hann sjálfr [sigldi til Rögnvaldsvâgs[6]; ok lá þar um hríð; þá gerði hann orð[7] yfir á Katanes, ok lagði á þá gjald, ok hèt þeim friði á mót[8], ella mundu þeir sæta

1) *v. B.* 2) lögrastar, *B.* 3) *frá* [ haf aldar, (háfaldar?) *B.* 4) nær, *B.* 5) *frá* [ hafði Hákon k. tal við ráð sitt, ok lýsti því fyri þeim, at hann vildi, *B.* 6) *frá* [ vildi bíða með Orkneyingum með stórskipunum ok mestum luta hersins, en bændr ok leiðángrsfólk gerðu sik bera mót at mæla, at fara nokkra, nema með konúnginum sjálfum, ok því eyddist þessi ferð. Ólafsvökudagr var á sunnudegi, ok lèt Hákon konúngr sýngja hátíðliga tíðir í landtjaldi ok veitti um daginn almúganum á skipi sínu. Eptir Ólafsvöku sigldi Hákon konúngr or Elliðarvík suðr fyri Múla, fyri Rögnvaldseyjar, með öllum herinum; var þá til konúngs kominn Rögnvaldr utan or Orkneyjum með þeim skipum er honum höfðu fylgt. Hákon konúngr lagði herinum í Rögnvaldsvâg, *B.* 7) menn, *B.* 8) ef þeir gengi undir, *b. B.*

afarkostum, en Katnesíngar [gengu undir gjaldit[1], sem hèr er kveðit:

Fyrst tók fjörleystum[2]
fróðr af Nes þjóðum
gjöld hinn griðmildi
gætir norðsætra[3];
öll var ógnfallinn
öld [á stórveldum[4]
hrædd við herklæddan
herði böðgerðar.

Þá er Hákon konúngr lá í Rögnvaldsvâgi, dró myrkr mikit á sólina, svâ at lítill hríngr var bjartr um sólina uttan, ok hèlt því nokkura stund dags[5]. Lafranzvökudag sigldi Hákon konúngr yfir[6] Petlandsfjörð; [bað hann Orkneyínga sigla eptir, þegar þeir væri búnir. Magnús jarl var ok eptir. Hákon konúngr sigldi Lafranzvökudag fyrir Hvarf við öllum herinum, ok lagði til hafnar, þar sem Hálseyjarvík heitir. Síðan sigldu þeir[7] til Rauneyja, ok þaðan í Skíðsund[8], þar sem heitir Kerlíngarsteinn. Þar kom til hans

1) játuðu gjaldi ok fèkk Hákon k. þar menn til viðtöku, *B.* 2) fjörlestir, *B.* 3) vegs sætra, *B.* 4) af stórvöldum, *B.* 5) Hákon konúngr hafði spurt ill tiðindi or Suðreyjum, þviat Jón Lángalifarson hafði komit til konúngs á Hjaltlandi, er konúngr hafði vestr siglt, ok sagt þau tiðindi, at Jón konúngr í Suðreyjum mundi hafa umskipt sinum trúnaði ok snúizt til Skota konúngs. En Hákon konúngr vildi því ekki trúa, fyrr en hann reyndi, *b. B.* 6) or Rögnvaldsvegi yfir á, *B.* 7) *frá* [ hann hafði þá spurt, at þeir voru þá komnir í Eyjarnar, Jón drottníng ok Kolbeinn Ásláksson, ok þau skip er austan var von ok eptir höfðu dvalizt. Hákon konúngr sigldi öllum herinum til hafnar þeirrar er heitir Ásleifarvík, ok þaðan til Ljóðhúsa ok svâ, *B.* 8) ok lá, *b. B.*

Magnús konúngr or Mön, ok þeir mágar Erlíngr Ívarsson ok Andres Nicholásson ok Hallvarðr[1]. Hákon konúngr sigldi þaðan í Mylarsund, en þaðan undir Kjarbarey, ok kom þar allr saman herinn, bæði Duggall konúngr ok Suðreyíngar. Hákon konúngr hafði þá á öðru hundraði skipa, ok flest stór ok[2] vel skiput[3].

*Hákon konúngr sendi til Satíris[4].*

320. Þá er Hákon konúngr lá í Kjarbarey, skipti hann herinum, ok sendi hann suðr til [Satírismúla[5] fimtigi skipa, at herja þar. Þessi voru þar höfðíngjar fyrir: Duggall konúngr, Magnús konúngr af Mön, Brynjólfr Jónsson, Rögnvaldr urka[6], Andres pottr, Ögmundr krækidanz, Vígleikr prestsson. Þá gerði hann V[7] skip til Bótar; þessir voru þar fyrir: Erlendr rauðr, Andres Nicholásson, Sýmon stuttr, Ívarr úngi[8]. Síðan sigldi Hákon konúngr suðr fyrir Satíri, ok lá þar sem Guðey heitir; þar kom til hans Jón konúngr, ok fór hann á skip Þorgísl[9] biskups; bað konúngr hann fylgja sèr sem hann var skyldr til. En Jón konúngr taldist undan því, sagði at hann hafði svarið eið Skotakonúngi, ok hèlt af honum meira ríki en Noregs konúngi; bað Há-

[1]) ok Nichulás tartr. Þeir sigldu allir saman ok Jón drottning, ok skildust í hafi; Nichulás hafði hvergi við komit fyrr en í Ljóðhúsum, síðan hann sigldi af Noregi. Þann dag er Hákon konúngr sigldi or Skiðsundi, kom Duggall konúngr til hans á lèttiskútu ok bað Hákon konúng skynda sem mest eptir, *b. B.* [2]) öll, *b. B.* [3]) bæði at mönnum ok vopnum, *b. B.* [4]) *b. B.* [5]) Satíris eiðs, *B.* [6]) orka *B.* [7]) XV, *B.* [8]) Eyfari ok Guttormr Suðreyíngr, á sinu skipi hverr, *b. B.* [9]) Þorgils, *B.*

kon konúng gera ráð fyri því[1], er hann hafði fengit honum[2]. Þar kom til Hákonar konúngs ábóti einn af grámúnka klaustri, ok bað [fyri stað sinn ok heilagri[3] kirkju, ok konúngr veitti honum þat, [ok gaf fyri brèf sitt[4]. Þá komu ok til konúngs menn Duggals konúngs, ok sögðu at höfðíngjar, þeir er rèðu fyri Satíri, Myrgaðr[5] ok Engus, [höfðu eyna Il, ok vildu gánga á vald Hákonar konúngs; en konúngr sagði at hann mundi eigi herja nesit[6], ef þeir kvæmi á vald hans um daginn eptir fyri hádegi: ella læt ek mína menn herja; fóru sendimenn aptr. Um morguninn eptir komu Myrgaðr ok Engus til Hákonar konúngs, ok lögðu allt sitt mál á hans vald, [ok sóru honum eiða ok fengu gísla[7]. Hákon konúngr lagði gjald á [nesit X hundrut[8] nauta. Gáfu þeir Engus eyna Il í konúngs vald, en konúngr skipaði eyna Il Engus, [sem aðrir Suðreyíngar höfðu af honum[9], sem segir í Hrafns málum:

Hèlt inn hraðmælti
hrínga víðþíngaðr[10]
leiðir lofskeiðum
leygs í Suðreyjum[11];

---

[1]) ríki, *b. B.* [2]) Hákon konúngr hafði hann með sèr um hríð, ok ætlaði at mýkja skap hans til trúnaðar við sik; margir lögðu þúngt til hans mála, *b. B.* [3]) *frá* [ friðar stað sínum ok varnaði heilagrar, *B.* [4]) *frá* [ *v. B.* [5]) Margaðr, *B.* [6]) *frá* [ vildu gefa upp þau lönd er þeir hèldu ok veita konúngi sína fylgð, en konúngr hafði þau andsvör: at hann mundi eigi þar herja, *B.* [7]) *frá* [ en konúngr hèt at koma þeim í sætt við Skotakonúng, ef þeir sættist, *b. B.* [8]) *frá* [ ríki þeirra X. C. [9]) *frá* [ *v. B.* [10]) virðíngu, *B.* [11]) Suðreyjar, *B.*

upp gaf alkeppnum
Engus herfengna
Il fyrir itr[1] bóla
eyði dalreyðar[2].
  Stóð af storráðum
stýri gindýra
ógn of urðvegnar
jarðir vestrgarða;
[færðu[3] hjálmhirða[4]
hausa friðlausir
jöfrar ósvifrum[5]
ótta rándróttar.

Sunnan á Satíri er einn kastali; þar sat í einn ríðari, hann fór á fund Hákonar konúngs, ok gaf kastalann í hans vald; konúngr[6] skipaði kastalann Guthormi Bakkakólf[7]. [þar andaðist Sýmon bróðir, ok var lík hans flutt upp á Satíri, ok grafinn at grámúnkaklaustri, ok breiddr yfir köggurr; kalla þeir[8] hann helgan.

*Frá hernaði Hákonar konúngs*[9].

321. Nú er at segja frá þeim luta hersins, er konúngr hafði sent til Satíriseiðs at herja, [at þeir gengu þar upp, ok brendu bygðir þær, sem

---

1) *hèr byrjar 8da brot.* 2) Ok enn segir svâ, *b. B.* 3) *þannig rèttast 8da brot*; færða, *A.* 4) hjálmhirði, 8 *br.*; *frá* [ meiðir hjálmhriða, *B.* 5) ósvifrir, 8 *br.* 6) gjörði (orð) til sinna manna at taka við því sem þar var, en hann, *b.* 8 *br.* 7) ok menn með honum, *b.* 8 *br.* 8) *frá* [ bróðir Simon hafði legit sjúkr um hrið, ok er Hákon konúngr lá í Guðaey (Guðeyjum, 8 *br.*) andaðist hann (bróðirinn); var hann fluttr inn í Satiri, ok tóku grámúnkar við liki hans, ok grófu i kirkju sinni, breiddu kögr yfir leg hans, ok köllnðu, *B*, 8 *br.* 9) *b.* 8 *br.*

fyri voru, ok tóku allt fè þat er þeir fengu, drápu ok nokkura menn, en allir flýðu undan, þeir er máttu. En[1] er þeir komu í meginbygðina[2], [kom þar brèf[3] Hákonar konúngs ok fyribauð[4] þeim at herja; [fóru þeir þá[5] út undir Guðey [til móts við[6] Hákon konúng, sem hèr segir:

Gengu geðstrángir
gætis[7] veg mæta[8]
sárs um Satíri
sunnan logrunnar;
söddu svartklædda
snóka[9] dynflóka[10]
bragnar byrgegnir[11]
brands á Skotlandi.

[Hákon konúngr sendi suðr til Bótar fyri lèttiskip, því at honum byrjaði seint[12], til móts við þá er [konúngr hafði þángat sent. Var þat þar tíðinda, at þeir höfðu unnit kastalann, svâ[13] at þeir gáfu upp, er í sátu, ok tóku sèr grið af Norðmönnum. Þar var[14] einn skipstjórnarmaðr,

1) *frá* [ þeir fengu þar ánauðir miklar ok erfiða ferð, ok, 8 *br.* 2) þar sem bæði var fyri þeim menn ok fè, *b.* 8 *br.* 3) boð, *B.* 4) *frá* [ komu þar á móti þeim menn Hák. k. ok fyribuðu, 8 *br.* 5) þaðan frá, ok likaði þeim þat stórilla; fóru þeir til skipa sinna með því herfángi sem fengit var, ok sigldu þaðan, 8 *br.* 6) ok fundu þar, 8 *br.* 7) gietis, 8 *br.*; Geitis, B. 8) meita, *B.* 9) *þ.* B; sóknar, *A*, 8 *br.* 10) *þ. lika* 8 *br.*; dynkróka, *B*; dynbróka, *A.* 11) byregnis, *B.* 12) *frá* [ Hákoni konúngi byrjaði seint or Guðey; gjörði hann þá fyri lèttiskip nokkur; var þar fyrir Andres pottr. Þeir vildu fara til Bótar, 8 *br.* 13) *frá* [ þángað voru sendir. Þeir höfðu veitt atgaungu at kastalanum ok vunnit hann, með því móti, 8 *br.* 14) ok með Norðmönnum, *b. B*, 8 *br.*

er Ruðri[1] hèt, hann þóttist ættborinn til Bótar, ok fyri þat er hann fèkk eigi eyna af Skotum, gerði hann þar mikinn ófrið, ok drap margan mann, ok [fyri þat varð hann útlagi af Skotakonúngi[2]. Hann kom til Hákonar konúngs[3], ok sór honum eiða, ok gerðist hans maðr, ok bræðr hans II við honum. En þegar er þeir voru í brottu frá Norðmönnum, er upp höfðu gefit kastalann, [drap Ruðri af þeim IX menn[4], þvíat hann þóttist þeim öngum griðum hafa heitið. Síðan lagðist eyin[5] undir Hákon konúng, sem hèr segir:

Ferð[6] vann friðskerðis
fræg ok úvægin
Bót af baugnjótum
breiða guðleiðum;
hræfðist[7] hjörkleyfðum[8]
hrafn af[9] valtafni
fèllu fjandr stillis
fleygs[10] í Suðreyjum.

Norðmenn, þeir sem voru í Bót, fóru inn á Skotland, ok brendu þorp nokkut ok bæi marga. Ruðri fór ok víða[11], ok gerði þat íllt, er hann mátti, sem hèr segir:

Brunnu búmanna
bygðir údygðar

---

1) Ruði, 8 *br.* 2) sakir þess var hann útlægr af Skotlandi, *B*, 8 *br.* 3) í Suðreyjum, *b.* 8 *br.* 4) *frá* [ fór Ruði eptir þeim ok drap marga menn af þeim, 8 *br.* 5) Bót, *b. B*, 6) *þannig rèttast B*, 8 *br.*; ferðir, *A.* 7) hræyfðist (ɔ: hreyfðist), 8 *br.*; hreifðo, *B.* 8) *þannig leiðrètt*; hjörkleyfðan, *A*; hjörklyfðan, *B*; hjörkluføan, 8 *br.* 9) á, *B.* 10) fleygr, (*máskè rèttast*) 8 *br.* 11) með manndrápum ok ránum, *b.* 8 *br.*

heitr [var hafsætra[1]
hallar lífgalli[2];
fèllu fleinþollar
feigir svanteigar
suðr af[3] sæskíðum,
[sóttir herdróttum[4].

*Hákon konúngr herjaði í Suðreyjum[5].*

322. Þá er Hákon konúngr [var í Suðreyjum[6], komu orðsendíngar til hans af Írlandi, at Írar buðu sik undir hans vald, ef[7] hann kvæmi af þeim [því vandræði, er enskir menn höfðu þá undir sik brotið[8], þvíat þeir hèldu þá alla hina beztu staði með sjónum. Sendi þá konúngr til Írlands Sigurð suðreyska[9] með lèttiskipum, [ok prófa[10], með hverju Írar vildi honum þángat bjóða[11]. [Eptir þetta sigldi Hákon konúngr[12] suðr fyri Satíris múla við öllum herinum[13], [ok lagði at við Hereyjarsund[14]. [Þenna tíma komu jafnan sendimenn Skotakonúngs til Hákonar konúngs, predikarar eða berfættu bræðr, at leita[15] um sættir milli konúnga; þá lèt Hákon konúngr lausan Jón konúng, ok bað hann fara í friði, hvert er hann vildi, ok gaf honum margar

---

[1]) *þ. frá* [ 8 *br.* (eðr húsætra); í hafsætrum, *A*; í hjálmfetrum, *B.* [2]) *þ.* 8 *br.*; lífgalla, *A.* [3]) *þ. B*, 8 *br.*; á, *A.* [4]) her drótta, *B*; *frá* [ sóttu lið dróttum, 8 *br.* [5]) *b. B.* [6]) *frá* [ kom í Suðreyjar, *B.* [7]) ok þóttust mjök þurfa at, *B.* [8]) vanferli enskra manna, *B.* [9]) Suðreying, *B.* [10]) at skynja, *B.* [11]) *frá* [ *v.* 8 *br.* [12]) *frá* [ Hákon konúngr sigldi or Guðey, 8 *br.* [13]) þeim sem þá var með honum, *b.* 8 *br.* [14]) *frá* [ til Hereyja, *B.* [15]) *frá* [ þá komu skjótliga til hans menn Skotakonúngs, ok leituðu, 8 *br.*

góðar gjafir[1]. [Litlu síðarr sendi Hákon konúngr[2] menn til Skota konúngs[3], [ok tók hann þeim álitliga, ok tók líkliga á sættum[4], [fóru sendimenn aptr[5]. Hákon konúngr hafði skrá látið allar eyjar fyri vestan Skotland, þær sem hann kallaði sèr; en Skotakonúngr hafði nefnt þær sem hann vildi eigi lausar láta, var þat Bót ok Hersey, ok Kumreyjar[6]. En um aðra luti var skamt milli máls konúnga, en þó[7] gekk eigi sættin saman. [Drógu Skotar undan sættina[8], [því at þá leið á sumarit, en veðrátta tók at vesna[9]. Síðan sigldi Hákon konúngr inn undir Kumreyjar[10] öllum herinum[11]. Fýstu nú flestir at upp

---

[1]) en hann hèt at draga allt til sætta með þeim Skotakonúngi, ok finna Hákon konúng, ef hann sendi honum orð, *b. B.* [2]) *frá* [ Af þessum meðalferðum ok sætta umleitan, er sendimenn Skotakonúngs höfðu við Hákon konúng, þá sendi hann, 8 *br.* [3]) at vita um sættir, ok voru fyri biskupar II: Gillibert af Hamri ok Heinrekr biskup af Orkneyjum, Andres Nicholásson, Andress plytr (plyttr) ok Páll súr, *b. B*, 8 *br.*; þeir fundu Skotakonúng í kaupstaðnum Noar, ok er þeir fundu konúng, var talat um sættir, *b.* 8 *br.* [4]) *frá* [ *v.* 8 *br.*; ok kvaðst mundi senda menn til Hákonar konúngs með þau sættarboð, sem hann vildi vera láta, *b. B.* [5]) *frá* [ *v.* 8 *br.*; en Skotar komu litlu síðarr, *b. B.* [6]) Kinnreyjar, 8 *br.* [7]) því, *B.* [8]) *frá* [ Skutu Skotar þá meirr (málinu) í lángbakka, *b. B*, 8 *br.*; ok drógu þannig, at eigi skyldi með öllu upp segjast sættin, 8 *br.*; ok fóru með því aptr til konúngs sins, *B.* [9]) harðna, 8 *br.*; *frá* [ *v. B.* [10]) Kinnreyjar, 8 *br.* [11]) Voru þá enn meðalferðir; lètu Skotar jafnan likliga við sættum, *b.* 8 *br.*; var þá enn fundr lagðr til sætta inn á Skotlandi; sendi Hákon konúngr þángat biskupa ok lenda menn, en til móts komu við þá riddarar nokkurir ok klaustramenn; töluðu þeir mart um sættir, en mjök kom í sama niðr (kom þat allt í einn stað niðr, 8 *br.*) sem fyrri, ok er á

væri sagt friðinum, [ok væri herjat, því at herinn hafði mjök vistafátt[1].

*Frá hernaði Hákonar konúngs í Skotlandi*[2].

323. Hákon konúngr sendi [orð Skotakonúngi[3], at þeir skyldi finnast með öllum herinum, ok [tala enn um sættir[4], eðr berjast ella[5]; tók Skotakonúngr[6] ólíkliga at berjast við Hákon konúng[7]. Svâ segir í Hrafns málum:

Bauð enn böðfróði[8]
bragna sigrmagnaðr
austan orrostu
optarr spjótskoptum;
þorðut þrekstærðan[9]
þegnar úfegnir
bjórs við blikrýri
berjast útverja.

[Var nú í sundr sagt[10] öllum griðum, þá [sendi

leið daginn, söfnuðust Skotar margir af landi ofan; þóttu Norðmönnum þeir eigi trúligir, ok fóru til skipa sinna, ok fundu konúng ok sögðu honum viðtal þeirra, *b. B*, 8 *br.*

1) *frá* [ *v. B.* 2) *b.* 8 *br.* 3) *frá* [ þá til Skotakonúngs hirðmann sinn er Kolbeinn (ríki) hèt; hann fór með friðarbrèfi því er Skotakonúngr hafði sent Hákoni konúngi, en skyldi aptr hafa þat friðarbrèf er Hákon konúngr hafði sent Skotakonúngi; hèr með skyldi hann segja svâ, *B*, 8 *br.* 4) yrði þeir þá sáttir, með guðs miskun, þá væri vel, *b. B.* 5) með öllum herinum; hefði sá gagn, er guð vildi, *b. B.* 6) eigi, *b. B.* 7) en varð engi orskurðr, ok fór Kolbeinn aptr til konúngs ok þótti honum hans erendi lítit, *b. B.* 8) bókfróði, *B.* 9) þrekstirðan, *B.* 10) skyldi þeir talast við, ok hafa þar við hina beztu menn, ok mætti þeir sáttir verða, en ef þá verðr eigi auðit, bauð Hákon konúngr at þeir skyldu berjast við öllum herinum, hefði þá sá gagn er guð vildi. En er Kolbeinn flutti þetta mál fyri konúngi, tók hann því ekki ólikliga at berjast við Hákon konúng, en þó fór Kolbeinn svâ í brott

Hákon konúngr XL[1] skipa inn í Skipafjörð[2], var þar fyri Magnús konúngr af Mön ok Duggall konúngr[3], Aleinn[4], bróðir hans, Engus[5] ok Myrgaðr[6]. Ok er þeir komu í fjörðinn, tóku þeir báta sína ok drógu upp til vatns eins mikils, [er heitir Sokolofni[7]. Um vatnit utan lá [eins jarls ríki, er Lofnath[8] heitir[9]. Þar er ok mikill fjöldi eyja í því vatni [ok vel bygðar[10]. Þessar eyjar eyddu Norðmenn [við eldi[11]; þeir brendu ok alla bygðina umhverfis vatnit, ok[12] gerðu þar hit mesta hervirki[13], sem Sturla kvað:

Drógu dynsveigis
darra flugskjarrir
báta baugnjótar
breiðar strandleiðir;
eyddu úhræddir
eyjar geirrþeyjum
vegs í víðbygðu[14]
vatni her skatnar.

Aleinn, bróðir Duggals konúngs, gekk [mjök um[15] þvert Skotland, ok drap margan mann;

---

at hann fèkk aungan orskurð á þessu erendi. Tók Kolbeinn þar Hákonar konúngs brèf, en lèt eptir Skotakonúngs brèf. Fór hann þar til er hann fann Hákon konúng, ok sagði honum af sínum erendum; var þá lokit, 8 *br.*

1) *frá* [ skipti Hákon k. herinum ok sendi frá sèr LX, *B*, 8 *br.* 2) fjörð þann er Skipafjörðr heitir, 8 *br.* 3) *v.* 8 *br.* 4) Alinn, *B*, 8 *br.* 5) Æingus, 8 *br.* 6) þeir voru fyri Suðreyingum, en fyri Norðmönnum var Vígleikr prófastsson ok Ívarr hólmr, *b. B*, 8 *br.* 7) Lokulofri, *B*; *frá* [ *v.* 8 *br.* 8) Lofnarð, *B.* 9) *frá* [ jarlsríki eitt, 8 *br.* 10) *frá* [ *v. B.* 11) ok vâpnum, *b.* 8 *br.* 12) *hèr endar 8da skinnbókarbrot.* 13) *frá* [ allar, ok drógu til báta sína, *B.* 14) *leiðrètt; máskè rèttara:* viðbygða; viðbygðum, *A.* 15) yfir, *B.*

hann tók mörg hundrut nauta, ok gerði mikit hervirki, sem hèr segir:

Herðu herferðir
hryggs í stórbygðir
víða vargfæðis
virðar geðstirðir
fèkk hinn fólkrakki
felli[1] gunn spelli-
öldum úkaldan[2]
Aleinn lífdvalar.

Síðan fóru Norðmenn til skipa sinna; fengu þeir þar[3] storm mikinn, svâ at braut nokkur X skip. Þá tók Ívarr hólmr bráða sótt þá, er hann leiddi til bana.

*Frá sjáfarháska í Suðreyjum*[4].

324. [Hákon konúngr lá í Suðreyjum, sem fyrr var ritat[5]. Mikjals[6] messa var á laugardag, en mânadags nóttina eptir kom á stormr mikill með [ærslum, ok rak kugg einn[7] inn á Skotland ok lángskip. [Mánadaginn æsti storminn

1) fellu, *B.* 2) úsjaldan, *B.* 3) í Skipafirði, *B.* 4) *b. 9da brot, sem býrjar hèr.* 5) *frá* [ *v. B.* 6) Michaels, 9 *br.* 7) *frá* [ elum ok hreggi (fyri dag um nóttina, *b.* 9 *br.*); kölluðu þeir þá, er streingvörð hèldu á konúngsskipi ok sögðu at kugg einn rak framan at festum (á festarnar); lupu (hljópu) menn þá upp (skyndiliga, ok ráku af sèr tjöldin, ok klæddust, *b.* 9 *br.*), en stögin (stagit) á kugginum festi á konúngsskipinu, á höfði skipsins, ok tók af nasarnar. Síðan rak kugginn aptr með borði, til þess er akkerit tók við ok festi í strenginum (á konúngsskipum, *b.* 9 *br.*), tóku þá akkerinn at kraka. Konúngrinn bað þá höggva akkeris strenginn á kugginum, ok svâ gerðu þeir; rak hann þá út á eyna, en konúngsskipit hèlzt, ok lágu tjaldlausir til dags, en um morgininn er flæddi, flaut kuggrinn ok rak hann þá upp, *B*, 9 *br.*

svâ, at sumir hjöggu trèin, en suma rak. [Koníngsskipit rak ok inn á sundit, ok voru fyri VII akkeri ok hit átta aðalakkeri, ok[1] rak eigi því síðr[2]. Litlu síðarr festi akkerin. Svâ var þessi stormr mikill, at menn sögðu gerníngar valda, ok höfðu menn þar hit mesta vâs[3], sem hèr segir:

Mætti margfrèttinn
miklum[4] framstiklir[5]
auðar[6] óþjóða
Inga gerníngum;
leysti lá brostinn
lögr [hin skautfögru[7]
flaust [or frónlæstum[8]
festum[9] bauglestis[10].

[1]) *frá fyrra* [ vindrinn tók at vaxa, svâ at eins neyttu menn þá grunnfæra þeirra er til höfðu; þá var fellt it fimta akkeri á konúngsskipi, en konúngrinn fór í bát, ok rèri út til eyjarinnar, ok lèt sýngja sèr messu, en skipin rak inn á sund, var þá tekit aðalakkerit ok sett fyrir, en skipit, *B.* [2]) nokkur V skip rak inn at landi; þá hrifu við akkerin á konúngsskipinu; voru þá VIII fyrir með því er þeir höfðu átt á kugginum, *b. B.* [3]) *frá síðara* [ . . . . akkerin á öllum skipunum, ok svâ á konúngsskipinu; voru þá fyri því VII akkeri ok hit VIII þat er fast var í strenginum, er þeir höfðu átt á kugginum. Svâ mæltu flestir menn at gjörníngar mundu ráða stormi þessum; hrífu þá við akkerin á öllum skipunum, þeim er inn voru rekin, en III voru með öllu á land rekin, ok höfðu þeir ina mestu vâsbúð, 9 *br.* [4]) miklu, *B.* [5]) *þ.* 9 *br.* (*í einu orði*); fram stiklir, *A*; framstikla, *B.* [6]) *þ.* 9 *br.*; æði, *B*; óðrar, *A.* [7]) *þ. rèttast* 9 *br.*; en skaut fögru, *A*; — fögrum, *B.* [8]) *þ. rèttast* 9 *br.*; or frónlestum, *A*; af farnestum, *B.* [9]) *þ. rèttast* 9 *br.*; flestum, *A, B.* [10]) *þ. B,* 9 *br.*; baugestis (*málleysa*), *A*; Ok enn, *b. B,* 9 *br.*

Blès of böðfúsa[1]
bragna fjölmagnat[2]
hregg á herbygðum[3]
hríðar brimskíðum;
upp rak alkepna
öld með herskjöldu
grundar gjálfr undit
grand at Skotlandi.

*Frá Skotum ok Hákoni konúngi[4].*

325. Þá er Skotar sá, at skipin rak at landi, sömnuðust þeir saman ok fóru ofan at Norðmönnum[5], ok skutu at þeim, en þeir vörðust, [ok lètu kugginn gæta sín. Skotar sóttu at stundum, en jafnan frá; fèllu þar fáir menn, en margir urðu sárir[6]. Þá sendi Hákon konúngr inn lið á bátum nokkurum, [þvíat þá lægði heldr veðrit[7], sem hèr segir:

Sendi snarlynda
sverða blikskerðir
sveit hinn sigrmæti
síð til brynhríðar;
[drap hina dulgreypu[8]
drengja lofþengils
drótt sá er dalgauta
dæmði hersæmða[9].

---

1) böðfúsum, 9 *br.* (*það sem eptir er vísunnar er af því klippt*). 2) *þ. rèttara B*; fjöld magnat, *A*. 3) herdyggva, *B*; (*máskè rèttast* herdyggum). 4) *b. B.* 5) Austmönnum, *B*. 6) *frá* [ vel, *B*. 7) *frá* [ at hjálpa þeim er á landi voru, *B*. 8) *þ. leiðrètt*; dulmiklu, *A*; *frá* [ drápi dulgreipa, *B*, (*hèr er sá hluti 9 brots afklipptr, er vísa þessi ætti á at standa*). 9) sæmði, *B*; Síðan fór konúngr út á kertisveina skútu með Þorlaugi bósa, *b. B.*

[þegar sem konúngsmenn komu á land, flýðu Skotar. Um morgininn eptir[1] kom Hákon konúngr á land, ok[2] mart fólk með honum, lèt hann þá ryðja kugginn, ok[3] flytja út til skipa.

*Bardagi á Skotlandi*[4].

326. Litlu síðarr sá þeir her Skota, ok ætluðu menn[5] [at þat mundi vera Skotakonúngr sjálfr, þvíat herinn var mikill[6]. Ögmundr krækidans var á haugi nokkurum, ok sveit manna við honum, ok sóttu Skotar at þeim, þeir sem fyrstir fóru. Norðmenn báðu Hákon konúng fara út til skipa, ok vildu hann eigi hafa í hættu, en hann bauð at vera á landi, en þeir vildu þat eigi, ok fór hann á báti út undir eyna til liðs síns. Þessir voru lendir menn á landi: herra[7] Andres Nicholásson, Ögmundr krækidans, Erlíngr Álfsson, Andres pottr, Erlendr rauðr, Rögnvaldr urka, Þorlaugr bósi, Páll súri[8]; voru alls manna á landi VIII hundrut [eða níu[9], voru CC manna uppá hauginum hjá Ögmundi, en annat liðit stóð niðri á mölinni. Þá dróst at Skota her, [var nær V hundrut ríðara með brynjuð-

[1]) en Norðmenn voru á landi um nóttina, en Skotar fóru at kugginum um nóttina ok tóku í burtu fè sem þeir máttu, *B*; . . voru Norðmenn á landi, um kveldit ok um nóttina, til þess er dró at degi; þá fóru allir Norðmenn í búzuna. Þegar sem dagr var, klæddust menn á konúngsskipinu ok vâpnuðust, ok svâ á öðrum skipum, ok röru til lands; höfðu Skotar komit at kugginum ok tekit slíkt af fee (fèi) sem þeir máttu með komast. Litlu síðarr, 9 *br.* [2]) ok nokkurir lendir menn, ok, *b.* 9 *br.* [3]) bera í báta, ok, *b.* 9 *br.* [4]) *b.* 9 *br.* [5]) allir, 9 *br.* (*af hvörju hèr aptr er klippt*). [6]) *frá* [ *v. B.* [7]) *v. B.* [8]) súrr; Andres plyttr, *B.* [9]) *v. B.*

um hestum ok mörgum spænskum essum öllum fordyktum. Skotar höfðu mikinn her fótgángandi manna vel búna at vâpnum; mest höfðu þeir boga ok spörður[1]. [Norðmenn, þeir sem á hauginum voru, dreifðust ofan at sjánum, ok vildu eigi at Skotar kríngði um þá[2]. Andres Nicholásson kom þá upp á hauginn, ok bað þá Ögmund leita ofan til fjörunnar, [ok flökta eigi sem flóttamenn[3]. Skotar sóttu at fast, ok grýttu; var þá mikill vâpnaburðr at Norðmönnum, en þeir fóru undan á hæli, ok hlífðu sèr. En [er þeir komu ofan á melinn, fóru þeir harðara en þeir vildu; hugðu þeir, sem í fjörunni voru, at hinir vildu[4] flýja, ok hljópu [þeir sumir[5] til bátanna, ok komust[6] með því frá landi. [Andres pottr hljóp yfir II bátana ok í hinn þriðja, ok fór svâ frá landi. Margir[7] bátar sukku niðr, ok týndust nokkurir menn[8]. [Sumir Norðmenn óku undan á hæli ofan at sjánum[9]. Þar fèll [hirð-

---

1) *frá* [ at þeim, mjök margr ok vel búinn at hestum ok vâpnum; þat var ávarp manna at vera mundu V C riddara, en fjöldi fótgaunguliðs, *B.* 2) þeir Ögmundr fóru þá ofan af hauginum til kumpána sinna, *B.* 3) *frá* [ ef honum þætti eigi ráðligra at fara ofan á mölina, til þess liðsins er þar var, ok þat var ráðs tekit, 9 *br.* (*í byrjum þess síðasta kafla*). 4) *frá* [ svâ sem Norðmenn komu fram á brekkuna (neðstu brekku, *B*), þá fór hverr öðrum harðara; en er þetta sá þeir er niðri voru á mölinni, hugðu þeir at Norðmenn vildi, 9 *br.* 5) þá margir, 9 *br.*; *v. B.* 6) sumir, *b.* 9 *br.* 7) flestir, *B.* 8) sumir lupu í kugginn; hinir kölluðu at þeir skyldi aptr snúa; sneru þá aptr nokkurir menn, ok þó fáir, *b. B.* 9) *frá* [ *v. B;* ok út til skipa, en flestir bátar sukku niðr, ok týndust þar nokkurir menn. Margir Norðmenn hlupu upp undir kugginn, en, 9 *br.*, *sem endar hèr til fulls ok alls.*

maðr Hákonar konúngs[1] Hákon af Steini[2]. [þá hrukku Norðmenn suðr frá kugginum[3]; þessir voru þar fyrir[4]: [Andres Nicholásson[5], Ögmundr krækidanz, þorlaugr bosi, [Páll súri[6]; var þar harðr bardagi, ok þó mjök ójafnligr, þvíat X Skotar voru um einn Norðmann. [Einn úngr ríðari af Skotum, er Ferus hèt, ok ríkr mjök bæði at ættum ok ríki, hann hafði hjálm allan gullroðinn, ok settr dýrum steinum, þar eptir var önnur harneskja; hann reið djarfligar á Norðmenn en engi annara; hann reið í gögnum fylkíng Norðmanna ok aptr til sinna manna. þá var kominn í fylkíng Skota Andres Nicholásson, hann mætti þeim hinum ágæta ríðara, ok hjó til hans með sverði á lærit, svâ at í sundr tók brynjuna, ok nam í söðlinum staðar; tóku Norðmenn þar af honum ágætt balteum. þá var hinn harðasti bardagi; fèllu menn af hvárumtveggjum, ok fleiri af Skotum[7], sem Sturla kvað:

Hlóðu hugprúðir
hríngs at brynþíngi
varir[8] vegstórum[9]
virðar baugnirði[10];
fyldust fjörseldum[11]
frammi val gammar
hverr man hríngþverris
hefna auðstefni.

---

1) *frá* [ *v. B.* 2) ok II menn aðrir, *b. B.* 3) *frá* [ *v. B.* 4) formenn, *B.* 5) *frá* [ Andresar II, *B.* 6) *v. B.* 7) *frá* [ þar fèll einn riddari skotskr, er Perus hèt, ok enn fleiri, *B.* 8) vorir, *B.* 9) *þ. B;* vegstórir, *A.* 10) *þ. B;* baugnirðir, *A.* 11) *þ. B;* fjölseldum, *A.*

[Eilífr or Naustdal reyri á báti inn til bardagans, ok fór[1] alldjarfliga[2], tók Norðmönnum at samnast liðit, lèttu Skotar þá undan uppá hauginn; var þá glettu atsókn[3] um hríð með skotum ok grjóti; en er [á leið[4] daginn, veittu Norðmenn Skotum atgaungu uppá hauginn djarfliga[5], sem [hèr segir[6]:

Kvöddu kappstudda
kæris Norðmæra
hölða [hervaldir[7]
hersar gunnversum;
gekk [hin gunnrakka[8]
gætis hásæta
hirð af hjörstærðum
hjaldri járnfaldin.
Beit at brynmóti[9]
brún í rauðtúnum
egg of ódyggvar
aldar[10] gunntjalda,
áðr en egghríðar
undan[11] víglundum
skyndu skýþundar[12]
skozkir alþroskins.

---

1) *frá* [ Meðan bardaginn var, þá var svâ mikill stormr at Hákon konúngr sá eigi efni á, at koma herinum á land. En Rögnvaldr ok Eylifr komu til bardagans við nokkura menn, ok fóru, *B.* 2) ok þeir Norðmenn er á bátana höfðu gengit, en Rögnvaldr hrökk út aptr til skipsins, en Eylifr fór allkarlmannliga, *b. B.* 3) sókn milli þeirra, *B.* 4) á tók at liða, *B.* 5) ok sóttu þá hið djarfligasta, *B.* 6) segir í Rafnsmálum, *B.* 7) herfaldir, *B.* 8) hinn geðrakki, *B.* 9) *þ. B*; brynnjóti, *A.* 10) aldir, *B.* 11) *þ. B*; undu, *A.* 12) skýðundar, *B.*

Skotar flýðu þá af hauginum, hverr sem mátti[1], í brott, fóru Norðmenn þá í bátana, ok reyru út til liðsins[2]. En um morgininn fóru þeir á land eptir líkum þeirra manna, sem fallit höfðu. þessir fèllu þar: Hákon af Steini, þorgils gloppa, hirðmenn Hákonar konúngs, [3]Karlshöfuð ok Hallkell[4], ok III kertisveinar[5]. Úgerla máttu Norðmenn vita, hvat fèll af Skotum, þvíat þeir tóku hvern er fèll, ok fluttu til skógar. Hákon konúngr lèt flytja lík sinna manna til kirkju. [Litlu síðarr[6] sigldi konúngr undan Kumrey út til Melaseyjar[7]; þar komu til hans þeir menn sem hann hafði sent til Írlands, ok sögðu honum, at Írar buðu at halda her hans allan[8] til þess at hann frelsaði þá undan valdi enskra manna. Hákon konúngr var mjök [á því[9] at sigla til Írlands, en [allr herinn latti þess. Lýsti konúngr því þá, at hann mundi [10]sigla til Suðreyja, þvíat herinn hafði vista fátt[11]. Eptir þat

---

[1]) í fjöll, b. B. [2]) skipa ok komust nauðugliga fyrir stormi, B. [3]) þar fèll góðr bóndi or þrándheimi, er hèt, b. B. [4]) annarr bóndi or Fjörðum, er Åskell hèt, B. [5]) þorsteinn bátr, Jón ballhöfuð, Hallvarðr búnjarðr, b. B. [6]) *frá* [ fimta daginn lèt konúngr taka upp akkerin ok flytja skip sitt út undir eyna, ok þann dag kom sá herr til hans er inn hafði farit í Skipafjörð. En föstudaginn eptir var veðr gott; sendi konúngr þá gesti at brenna skip þau er upp höfðu rekit, ok þann sama dag, B. [7]) Melanzeyjar, ok lá þar nokkurar nætr, B. [8]) um vetrinn, b. B. [9]) snúinn á þat, B. [10]) *frá* [ alþýðunni var þat mjök í móti skapi, ok með því at eigi byrjaði út þángat, þá átti konúngr þing við lið sitt, ok lýsti því, at hann mundi gefa öllum orlof at, B. [11]) þá lèt Hákon konúngr flytja lík Ivars hólms inn til Bótar, ok var hann þar jarðaðr, b. B.

sigldi konúngr[1] undir Guðey, ok þaðan út í Ilarsund, ok lá þar tvær nætr; hann lagði gjald á eyna CCC nauta[2]. þaðan sigldi Hákon konúngr sunnudaginn [hinn fyrsta í vetri[3], ok fèkk svâ mikinn storm við myrkri, at fá ein skip hèldu seglum sínum; þá tók konúngr höfn í Bjarkarey[4], ok fóru menn milli þeirra Jóns konúngs, en þó varð ekki af fundi þeirra. þá spurði konúngr at hans menn höfðu höggit strandhögg mikit í Myl, ok drepit nokkura menn af Mylverjum[5]. þaðan sigldi konúngr til Mylarkálfs[6], þar skildist frá Duggall konúngr ok Aleinn, bróðir hans, ok skipaði honum[7] þat ríki, er Jón konúngr hafði[8] haft[9]; Rúðra skipaði hann Bót, en Myrgaði[10] Hersey; Duggali gaf hann kastala þann[11], er Guthormr bakka-kólfr hafði setið í [um sumarit[12]. Í þessari ferð hafði Hákon konúngr aptr unnit ríki þau öll, er Magnús konúngr berfættr[13] hafði eignazt ok unnit af Skotlandi ok suðr[14], sem hèr segir:

Öll vann Egðastillir
aptr geirbrúar krapta[15]
skjótt af skozkum dróttum
skattlönd megin gränduðs;

1) undan Melanzey, ok lá um nóttina undir Hersey, ok þaðan undir Sandey, ok svâ til Satírismúla, ok kom um nóttina norðr, *b. B.* 2) þat skyldi gjalda sumt í mjöli ok osti, *b. B.* 3) *frá* [ í vetrnáttum, *b. B.* 4) Kjarbarey, *B.* 5) ok enn II eðr III af Norðmönnum, *b. B.* 6) ok lá þar nokkurar nætr, *b. B.* 7) þeim, *B.* 8) áðr, *b. B.* 9) en Magnús konúngr ok aðrir Suðreyíngar höfðu fyrr frá skilizt, *b. B.* 10) Margaði, *B.* 11) á Satíri, *b. B.* 12) ok unnit af Skotlandi, *B.* 13) berbeinn, *B.* 14) Suðreyjum, *B.* 15) hafta, *B.*

reisti öngr við ýngva,
úlest fyrir haf vestan
rógsækis varð ríki,
[rönd veðrboði göndlar[1].

*Drepnir hirðmenn Hákonar konúngs*[2].

327. Hákon konúngr sigldi or [Hrauneyjum, ok stefndi norðr, en[3] veðr gekk á móti honum, ok sigldi hann í Vestrafjörð á Skíði, ok[4] tók vistagjald af eyjunni. Þaðan sigldi hann fyrir Hvarf, en er hann kom fyri Dýrnes, fèll veðrit í logn, [lèt konúngr þá flytja skipin í Góafjörð[5]. Þat var tveggja postula messu[6], Sýmonis ok Jude[7]. Sá atburðr varð um daginn, at IX menn af skipi Andres bjúza[8] fóru á land á báti[9]; litlu síðarr var heyrt óp til þeirra á land upp, reyru menn þá til af skipum, ok voru II teknir af sundi mjök sárir, en VII[10] voru drepnir á landi, ok höfðu Skotar komit at þeim[11]. En þegar er Skotar sá þetta[12], ljópu þeir til skógar, en Norð-

---

[1]) *frá* [ *þ. rètiast B*; randveðrs boði grundar, *A.* [2]) Frá Hákoni konúngi, *B.* [3]) *frá* [ Mýlarkálfi til Rauneyjar; þar lá fyrir honum Balti bóndi, af Hjaltlandi, ok þeir menn er hann hafði sent til Orkneyja, ok þeir er hann hafði gefit orlof til Noregs, *b. B.* [4]) lá þar nokkura hríð, ok, *b. B.* [5]) *frá* [ lagði hann þá inn í Gjáfjörð, *B.* [6]) aptan, *b. B.* [7]) En messudagrinn var á drottinsdag; konúngrinn lá þar um nóttina, en messudaginn, er súngin var messa, komu til skips nokkurir skotskir menn, er Norðmenn höfðu tekit. Hákon konúngr gaf þeim grið, ok sendi þá upp í bygðina, ok hètu þeir at koma ofan með nautum til konúngs, en einn var eptir í gisling, *b. B.* [8]) kuzla, *B.* [9]) at taka sèr vatn, *b. B.* [10]) IX, *B.* [11]) en þeir höfðu laupit til bátsins, ok var hann uppi fjaraðr, en þeir voru allir vâpnlausir, ok varð af því engi vörnin, *b. B.* [12]) at til var róit, *B.*

menn höfðu líkin með sèr. Mánadag sigldi Hákon konúngr til[1] Orkneyja[2] í Rögnvaldsvâg, ok [mestr luti hersins[3]. Ok er þeir sigldu yfir Pentlandsfjörð, var uppi röst mikil á firðinum, ok týndist þar í eitt skip or Rygjafylki ok allir menn þeir sem á voru. Jón í Hestbæ[4] rak austr eptir firði, ok lagði nær at hann mundi reka í svelginn, en með guðs miskunn rak skipit austr á haf, ok[5] sigldi hann til Noregs.

*Hákon konúngr fór til Kirkjuvâgs[6].*

328. [En er Hákon konúngr lá í Orkneyjum[7], var þá sigldr mestr luti hersins til Noregs, sumir við orlof[8] konúngs, [en margir gáfu sèr sjálfir orlof[9]. Ok með því at [seint byrjaði[10], tók konúngr þat ráð at sitja í Orkneyjum um vetrinn. Nefndi hann til XX skip at vera eptir, en gaf öðrum orlof[11], en eptir voru allir lendir menn[12]. Gerði konúngr þá brèf til Noregs um [þá luti, sem nauðsyn bar til[13]. Eptir allra heilagra messu lèt konúngr sigla skipi sínu[14] til

[1]) or Góafirði, ok lèt flytja á land inn skotska mann ok gaf honum grið. Konúngr kom öndverða nótt, *b. B.* [2]) ok lá í sundi nokkuru norðr frá Ásmundarvâgi; þaðan sigldi hann í, *b. B.* [3]) *frá* [ kom þar saman mestr luti hersins er fyri hafði siglt, *B.* [4]) Hestbý, *B.* [5]) er hann misti eyjanna, *b. B.* [6]) Hernaðr Hákonar, *B.* [7]) Hákon k. kom í Rögnvaldsvog, *B.* [8]) lofi, *B.* [9]) *frá* [ leyfi. Hákon konúngr hafði þat orð á, fyrst er hann kom í eyjarnar, at hann mundi sigla til Noregs, *B.* [10]) *frá* [ veðrátta tók at harðna en eigi vildi byrja, *B.* [11]) heim at sigla, *b. B.* [12]) utan Eylifr af Nausdal; hann var austr sigldr, en flestir hinir beztu menn í landinu voru með konúnginum, *b. B.* [13]) *frá* [ skipan ríkisins í Noregi, *B.* [14]) út, *b. B.*

Meðallandshafnar, [ok voru þar uppsett skipin. Síðan fór hann til Kirkjuvâgs; var hann þá kránkr mjök; hann fór í biskups garð við sínum mönnum, þeim[1] sem hann hèlt borð; hèldu þeir báðir, konúngr ok biskup, borð í höllinni[2], hvârr sínum mönnum, en konúngr mataðist[3] uppi í herbergjum[4]. Hann lèt skrá lendum mönnum ok sveitar höfðíngjum eyris lönd til vistatöku[5]. Andres plytr [var dróttseti konúngs[6]. þessir voru lendir menn í Kirkjuvâgi: Brynjólfr Jónsson, Erlíngr Álfsson, Rögnvaldr urka[7], Erlíngr í Bjarkey, Jón drottníng, Erlendr rauðr[8], en aðrir lendir menn[9] voru í hèraði[10].

*Hákon konúngr sjúkr mjök*[11].

329. Hákon konúngr hafði[12] um sumarit vök-

---

[1]) *frá* [ en hann dvaldist um daginn í Rögnvaldsey, ok fór þaðan inn til Kirkjuvogs; eptir þat sá hverr skipstjórnarmaðr fyri skipi sínu; voru sum upp sett í Meðallandshöfn en sum inn við Skálpeið. Hákon konúngr reið út til Meðallandshafnar laugardag fyrir Marteinsmessu; þat var messuaptaninn er hann var kránkr mjök, var hann um nóttina á skipi en um morgininn lèt hann syngja sèr messu á landi. Síðan gerði hann ráð fyrir skipi sínu, hvar upp skyldi setja, ok bað menn góða stund á leggja at *sjá* fyrir skipunum. Síðan fór hann inn til Skálpeiðs, ok reið svâ til Kirkjuvâgs, ok fór hann í boð biskups með öllum sínum sveitúngum, *B.* [2]) hallinni (*hèr ok optar*), *B.* [3]) var, *B.* [4]) ok mataðist þar jafnan, *b. B.* [5]) at halda þær sveitir sem með þeim voru, ok svâ af hverjum eyris löndum, *b. B.* [6]) *frá* [ skyldi halda sjálft konúngsborð ok út gefa hirðinni, gestum ok kertisveinum, ok öllum hans sveitúngum, þeim eigi ok siðr sem hann hèlt. Þá er menn höfðu sèt fyrir skipunum, fóru hverir þannig sem skipat var, *B.* [7]) orka, *B.* [8]) ok margir aðrir skipstjórnarmenn ok sveitarhöfðingar, *b. B.* [9]) ok skipstjórnarmenn, *b. B.* [10]) á þeim eyrislöndum sem þeim voru skipuð, *b. B.* [11]) Sótt Hákonar konúngs, *B.* [12]) haft, *b. B.*

ur miklar ok áhyggjur, [ok þegar hann kom í Kirkjuvâg[1], lagðist hann brátt í rekkju af sótt[2], en er hann hafði legit [nokkurar nætr[3], lèttist honum heldr, ok var hann á fótum III daga. Þá[4] lèt hann gera sèr kerbað, ok fór í ok lèt raka sik; þá sömu nótt eptir [þýngðist honum[5], ok lagðist hann þá enn[6] í rekkju[7]. Í sóttinni lèt hann [sèr lesa bifliam. Síðan lèt hann [lesa norrænu bækr nætr ok daga[8]. Hákon konúngr þóttist finna, at erfiðaði[9] sóttarfar hans, gerði hann þá ráð fyri málagjöfum við hirð sína, ok kvað á, at gefa skyldi mörk brenda hverjum hirðmanni, en hálfa mörk gestum ok kertisveinum[10]. Hann lèt ok vega allan borðbúnað sinn [ógylldan, ok bað þar af gefa, ef annat þryti[11].

---

1) *frá* [ var hann opt kallaðr af sínum mönnum, ok hafði litit frelsi. En er hann kom utan or Meðallandshöfn frá skipi sinu sem áðr var sagt, þá, *B.* 2) ok fór sóttin þá ekki mjök ákaft í fyrstu, *b. B.* 3) III víkur, *rángt, B.* 4) gekk hann hinn fyrsta dag um herbergit innan, en annan í kapellu biskups, ok hlýddi þar messu, en þriðja dag gekk hann til Magnússkirkju, ok um skrín hins heilaga Magnúss jarls, þann dag, *B.* 5) tók at þýngjast mjök hans sóttarfar, *B.* 6) annat sinn, *B.* 7) ok þótti mönnum hans sóttarfar mjök þýngjast, *b. B.* 8) *frá* [ sèr fyrst lesa latinubækr; en þá þótti honum sèr mikil mæða í, at hugsa hversu þat þýddi; lèt hann þá lesa fyrir sèr norrænar bækr, nætr ok daga, fyrst heilagra manna sögur, ok er þær þraut, lèt hann lesa sèr konúngatal frá Hálfdáni svarta, ok síðan frá öllum Noregs konúngum, hverjum eptir annan, þá er, *B.* 9) mjök þýngðist, *B.* 10) skutilsveinum ok öðrum sinum þjónustumönnum, *b. B.* 11) þann er eigi var gylldr ok mælti svâ fyrir, at þar sem þryti skírt silfr, þá skyldi borðbúnaðinn gefa, svâ at allir hefði góð skil, *B.*

þá voru ok rituð brèf[1] til Magnúss konúngs [um landskipan ok aðra luti þá sem Hákon konúngr vildi mönnum liðsinna[2]. Hákon konúngr var oleaðr einni nótt fyri Lúcíumessu; var þar at þorgísl biskup af Stafángri, Gillibert biskup af Hamri, Henrekr biskup af Orkneyjum, þorleifr ábóti ok margir aðrir lærðir menn. Ok áðr hann væri smurðr minntust menn [til hans[3], þeir sem við voru; var hann þá enn málhress. [þá frèttu trúnaðarmenn hans, ef hann átti nokkurn son eptir annan en Magnús konúng[4], en hann tók mikinn af því, at [þat væri eigi[5].

*Andlát Hákonar konúngs.*

330. Messudagr Lúcíu meyjar var á þórsdag[6], en laugardaginn eptir síð um kveldit, þraungði svo sóttarfari konúngsins, at hann misti málsins; ok[7] at miðri nótt liðinni kallaði almáttigr guð Hákon konúng af þessa heims lífi; var þat öllum mönnum, þeim sem við voru, enn mesti harmr, ok mörgum þeim sem síðarr frèttu.

---

1) þau er hann vildi senda, *b. B.* 2) *frá* [ með allri þeirri skipan sem honum þótti mestu varða, *B.* 3) við hann, *B.* 4) *frá* [ Hann var eptir frèttr í sóttinni af trúnaðarmönnum sínum, ef svâ erfiðliga yrði at hans misti við eðr Magnúss konúngs, hvârt hann ætti engan son eptir, eðr hvârt nokkut væri í annan stað til at gánga, þar sem hans afkvæmi væri, *B.* 5) *frá* [ hann ætti engan son eptir sik nema Magnús konúng, ok eigi dóttur, þá er menn viti eigi áðr. Þá er lesið var konúngatal framan til Sverris, þá lèt hann taka til at lesa Sverrissögu; var hún þá lesin nætr ok daga jafnan er hann vakti, *B.* 6) fimta dag, *B.* 7) nær miðri nátt var úti at lesa Sverrissögu, en heldr, *B.*

[1]Eptir andlát konúngsins [voru súngnar[2] sálutíðir. Síðan gengu menn brott or herberginu, allir menn, nema Þorgísl biskup ok Brynjólfr Jónsson ok II menn aðrir; þeir þógu líkinu, ok[3] veittu alla þjónustu, þá er samði svâ ágætum herra ok höfðíngja, sem Hákon konúngr var. Sunnudaginn var lík konúngs borit upp í lopthöllina, [ok sett á barar[4]. Líkit var klætt tignarklæðum ok sett garland á höfuð honum, ok búit at öllu um, sem [vera átti um[5] kórónaðan konúng[6]. [Stóðu kertisveinar með[7] kertum, (ok) var ljóst of[8] alla höllina. Þá [gekk til fólkit, at sjá líkit, ok sýndist mönnum bjart ok þekkiligt, ok fagr roði í andlitinu sem á lifanda manni; [9]vakti hirðin yfir líkinu um nóttina[10]. Týrsdaginn[11] var lík konúngs lagit í kistu[12], ok var hann jarðaðr í Magnúskirkju í kórinum[13], ok breiddr

1) Þessir lendir menn voru við andlát konúngsins: Brynjólfr Jónsson, Erlingr Álfsson, Jón drottning, Rögnvaldr orka, ok nokkurir þjónustumenn, þeir sem næst höfðu gengit konúnginum í sóttinni. Þegar, *b. B.* 2) *frá* [ var sent eptir biskupum ok lærðum mönnum, ok þegar er þeir komu, súngu þeir, *B.* 3) ok rökuþu, ok, *b. B.* 4) *frá* [ voru þar búnar barar með ágætum búnaði, *B.* 5) býðr um svâ ágætan höfðíngja ok, *B.* 6) Líkit var á barar lagt; gengu þángat þá biskupar allir ok kennimenn, þeir sem voru í bænum, ok allir handgengnir menn, *b. B.* 7) *frá* [ þá hèldu kertisveinar, *B.* 8) um, *B.* 9) var mönnum þat mikil huggan af þeim mikla harmi er þá höfðu menn fengit, at sjá svâ fagran líkama framfarins manns ok síns herra. Síðan voru súngnar sálutíðir hátíðliga, *b. B.* 10) Mánadaginn var lík Hákonar konúngs borit til Magnússkirkju, ok náttsett þar aðra nótt, *b. B.* 11) þriðja daginn, *B.* 12) með slíkum umbúnaði sem siðr er til eptir kórónaðan konúng, *b. B.* 13) *fremst er nokkut útskafið* . . . á graðunum fyrir skríni ens heilaga Magnúss jarls. Síðan var aptr luktr steinninn, sem áðr, yfir uppi, *b. B.*

yfir kögurr. Þá var[1] gert ráð fyrir, at allan vetrinn skyldi halda höfuðvörð yfir legi[2] konúngsins. Um jólin veitti[3] Andres plytr, sem konúngr hafði ráð fyri gert, ok var öllum mönnum gefinn góðr máli.

*Lík Hákonar konúngs fært í Björgyn*[4].

331. Hákon konúngr hafði til þess skipat[5], at lík hans skyldi flytja austr til Noregs, ok vildi hann vera grafinn[6] hjá feðr sínum[7]. Ok er af leið hávetri[8], var fram sett hit mikla skip, þat er Hákon konúngr hafði vestr haft, ok búit skjótt[9]. Gekk þá hirðin við líkinu út um Skálpeið[10] til skipsins; voru þar mest fyri skipi Þorgisl biskup[11] ok Andres plytr[12]. Lètu þeir í haf[13] laugardag hinn fyrsta í föstu, ok fengu hörð veðr ok þver, ok tóku land suðr í Silavâgi. Sendu þeir þá brèf Magnúsi konúngi, ok sögðu honum [þessi tíðindi[14]. Síðan fóru þeir norðr til Björgynjar sem[15] gaf, komu þeir í Laxavâg[16] fyri Benedictus messu; messudaginn reyri Magnús konúngr [móti líkinu, var þá lagit skipit[17] við konúngs garð, ok borit líkit upp í sumar-

[1]) átt hirðstefna ok, *b. B.* [2]) leiði, *B.* [3]) biskup ok, *b. B.* [4]) Líkferð Hákonar konúngs, *B.* [5]) í sótt sinni, *b. B.* [6]) í Björgyn, *b. B.* [7]) ok öðrum frændum, *b. B.* [8]) hávetrið ok sjór tók at hægjast, *B.* [9]) sem skjótligast. Öskudag var lík Hákonar konúngs tekit or jörðu; þat var hinn III nonas Martií mánaðar, *B.* [10]) ok var líkit flutt í báti út, *b. B.* [11]) Erlingr Álfsson, *b. B.* [12]) þar var á hirð konúngsins sú er vestr hafði farit, ok er þeir voru búnir, *b. B.* [13]) þeir sigldu út, *b. B.* [14]) þau miklu tíðindi er í ferð þeirra höfðu gerzt, *B.* [15]) þegar leiði, *B.* [16]) um daginn, *b. B.* [17]) *frá* [ í mót þeim ok Pètr biskup, var þá skipinu lagt til bæjarins, *B.*

höllina. Um morgininn eptir var líkit borit til Kristskirkju út; gekk þar með Magnús konúngr ok drottníngar báðar [ok hirðin ok bæjar fólk[1]. Eptir þat var líkit jarðat í kórinum í Kristkirkju, ok þakkaði Magnús konúngr líkferð með mörgum fögrum orðum[2]. Þar stóð allr lýðr yfir með hryggu hugskoti, sem Sturla kvað:

Þrim náttum[3] kom þróttar
þínghlynr til Björgynjar,
áðr en allvald prúðan
ófs dyn viðir grófu;
margr stóð málmafergir[4],
mikit stríð var þat, síðan
lýða grams yfir leiði
lítt kátr með brá váta.

Hákon konúngr var jarðaðr III nóttum fyri Maríumessu; þá var liðit frá burð[5] vârs herra Jesú Kristí [MCC ára ok LX ok III ár[6].

*Sagt frá yfirlitum konúngs*[7].

332. Hákon konúngr hafði verit ekki hár meðalmaðr, ok vel vaxinn, herðibreiðr ok miðmjór, heldr hár í sessi[8], hærðr vel, eygðr mjök ok þó vel; [öllum var hann hugþekkr, ok á þann hátt mjök sem verit hafði Sverrir konúngr[9], mikilleitr í andliti ok litgóðr. [Hann var blíðr[10],

[1]) *frá* [ báðir biskupar, lærðir menn, handgengnir menn ok allr bæjarlýðr; voru þá súngnar sálumessur, *B.* [2]) ok talaði snjallt erendi yfir greftrinum, *b. B.* [3]) *þ. B;* nóttum, *A.* [4]) málmaskerðir, (*líklega rángt*) *B.* [5]) ok holdgan, *b. B.* [6]) *frá* [ þúsund. CC. LX ok III ár ok þrim náttum minnr, *B.* [7]) Af yfirlitum ok limavexti Hákonar konúngs, *B.* [8]) ekki fótlángr, nokkut útskeifr, vaxinn mjök á þann hátt, sem verit hafði Sverrir konúngr, *b. B.* [9]) *frá* [ *v. hèr B.* [10]) *frá* [ Öllum var hann hugþekkr, *B.*

þá er honum var gott í skapi, en grimligr þá er hann var reiðr; hverjum manni kátari ok lèttari[1] ok vakrari; blíðr var hann við fátæka menn jafnan[2]; hann var látgóðr[3] er hann sat með höfðíngjum[4], snjallr í máli ok vel talaðr á þíngum, manna vitrastr bæði til laga ok ráðagerðar. Þat mæltu þeir menn vitrir, er sendir voru til hans af öðrum höfðíngjum, at þeir hefði öngan höfðíngja sèt, þann er þeim þætti heldr vera bæði fèlagi ok konúngr ok herra. Hann lèt mjök[5] bæta lög ok landsrètt í Noregi; hann lèt þat[6] setja í[7] bókina, sem nú eru köllut hin nýju lög, hann tók af öll manndráp ok fóthögg ok handhögg innanlands; engi skyldi sá þrífast í landi, er tæki annars manns eignarkonu; ættvíg öll lèt hann aftaka, svâ at engi skyldi gjalda annars tilverka, nema bæta at þeim luta, sem lög segði á hann.

*Talðar landsbætr ok lagaskipan*[8].

333. Hákon konúngr lagði meira hug á at styrkja guðs kristni í Noregi, en engi konúngr annarr fyrir honum, síðan var hinn heilagi Ólafr konúngr. Hann lèt gera kirkju í Truns[9], ok kristnaði þá kirkjusókn. Til hans komu ok margir Bjarmar, er flýit höfðu austan fyri ófriði Tattara, ok kristnaði hann þá, ok gaf þeim einn fjörð, er Malángr heitir. Hann lèt ok kirkju gera í

[1]) á sèr, *b. B.* [2]) ok þurftuga, þvíat aldrei var hann í svâ þúngu skapi, at eigi svaraði hann þeim bliðliga, *B.* [3]) ok tigugligr, *b. B.* [4]) hugarlátr ok veglátr, *b. B.* [5]) í mörgu, *B.* [6]) *v. B.* [7]) *v. B.* [8]) Velgjörðir Hákonar konúngs, *B.* [9]) Truns, *B.*

Úfóta[1], ok virki við Agðanes [ok bryggju ker[2]; hann lèt gera trèhöllina í konúngsgarði í Niðarósi ok [kapellu upp af konúngs herbergjum[3]; hann lèt gera kirkju í Guley norðr frá Björgyn, ok [færði þángat Gulaþíng[4]; hann lèt gera Postula kirkju í konúngsgarði í Björgyn af steini, ok Ólafskirkju ok klaustrið með[5]; hann lèt ok húsa konúngsgarð í Björgyn [með góðum II steinhöllum[6], ok steinmúr um konúngsgarð, ok kastala yfir báðum hliðunum; hann lèt gera Katrínarkirkju við Sandbrú ok spitalann, ok gaf til CC mánaðar matarbol; hann lèt alhúsa borgina í Björgyn[7] ok gera múrinn [ok Allraheilagrakirkju[8] í Vagsbotni[9], ok gaf hann þar til C mánaðar matarból í sótt sinni; hann lèt kirkju[10] gera á Ögvaldsnesi, er hin fjórða er mest hèraðskirkja í Noregi; hann lèt gera steinmúr um Túnsberg ok kastala yfir portunum, ok Gautakastala yfir Danakleif; hann lèt húsa allt Bergit ok konúngsgarð við Lafranzkirkju; hann lèt ok gjöra spítal fyrir sunnan Ólafskirkju, ok gaf til XXX[11] marka ból; hann lèt grafa út djúp við Skeljastein, svâ at nú má fara kuggum, en áðr [mátti varla smá ferjum[12]; hann lèt gera Berfættubræðrakirkju í Túnsbergi, ok var hún síðan færð suðr í Drags-

---

1) í Ofótafirði, *B.* 2) *frá* [ *v. B.* 3) *frá* [ öll en beztu hús, *B.* 4) *frá* [ offraði þar til gullring, *B.* 5) af sínum kostnaði, *b. B.* 6) *frá* [ *v. B.* 7) eptir þat er brunnit hafði, *b. B.* 8) *frá* [ at tveim lutum, ok vígskarða ok gera útborgina; þá var ok reist af grunnvelli allraheilagrakirkja, *B.* 9) með ráði konúngs, *b. B.* 10) steinkirkju, *B.* 11) CCC, *B.* 12) skriðu varla smáferjur, *B.*

mörk[1], ok lèt hann þar gera Maríukirkju[2], ok steinkirkju, ok gaf til [V tigi[3] markaból; hann lèt gera borg á Valkabjörgum[4], ok færa þángat[5] Nicholáskirkju í Oslu; hann lèt gera[6] konúngsgarð út á eyrum í bænum, [ok húsa Valdishólma[7] ok gera borg í Konúngahellu í Ragnhildarhólma; hann lèt ok byggja Gulleyna, ok húsa ok ryðja Ekreyjar ok gera þar trèkirkju; hann lèt byggja Málstrandir[8] ok margar aðrar eyðieyjar í Víkinni; hann lèt gera steinborg[9] í Mjörs í[10] hólmanum við Ríngisakr ok húsa[11] veizluhöll á [Viðheimi í Eyjabúi; hann lèt gera veizluhöll á[12] Steig[13] ok bú á Hofi í Breiðin, ok veizluhöll, ok lagði eignir til[14]; hann lèt gera kapellu í þoptyu[15] ok veizluhöll. [Hákon konúngr keypti Ló í Uppdali, ok lèt gera bú á ok veizluhöll ok kapellu[16]; hann lèt ok gera múr um Sverrisborg á Steinbjörgum ok húsa, síðan Baglar höfðu brotið. [Jesús Kristr, faðir ok sonr ok heilagr andi, gæti ok geymi, sæmi ok signi slíks herra sál, er svâ marga nytsamliga luti hefir eptir sik leifða, sem þessi hinn signaði herra Hákon konúngr. Lýkr hèr sögunni[17].

---

1) Dragsvik, *B.* 2) Mariuklaustr, (*líklega rèttara*) *B.* 3) L, *B.* 4) Vackabjörgum, *B.* 5) síðan til, *B.* 6) húsa, *B.* 7) *frá* [ *v. B.* 8) Mástrandir, *B.* 9) steinhús, *B.* 10) ok, *B.* 11) hann lèt gera, *b. B.* 12) *frá* [ *v. B hèr.* 13) ok endrbæta kirkjuna, þviat áðr var mjök at falli komin, *b. B.* 14) Hann lèt gera veizluhöll í Húsabæ í Skaun á Heiðmörk, ok aðra á Ríngisakri; hann lèt gera bú á Viðheimi í eyju, *b. B.* 15) er engi var áðr, *b. B.* 16) *frá* [ *v. B.* 17) *frá* [ *v. B.*

# SÖGUBROT MAGNÚSS KONÚNGS HÁKONARSONAR.

*Fyrra blað.*

. . . inn herr, sá er vestr hafði farit með Hákoni konúngi, ok sögðu þeir heldr ófriðvænt í Vestrlöndunum. Þetta sumar fór Birgir ábóti af Tautru út til pávagarðs, ok höfðu kórsbræðr af Niðarósi valit hann til erchibiskups efnis eptir Einar erchibiskup, er þá hafði andazt um haustit. En þeir máttu því eigi kjósa hann, at hann var prestsson ok klaustramaðr. Fann hann Magnús konúng í Björgyn, ok áttust þeir fátt við; var ábóti í pávagarði um vetrinn.

*Orðsendíngar.*

Eptir andlát Hákonar konúngs um vârit sendu barónar ok umboðsmenn, þeir sem voru í Orkneyjum, Heinrik biskup ok síra Askatin kanceler uppá Skotland, á fund Alexandrí konúngs, at forvitnast um friðgjörð milli landanna; en því var þúngliga tekit, ok heitaðust Skotar at drepa Norðmenn þá, sem þar voru komnir, eðr kasta þeim inn; kærðu Skotar at Norðmenn hefðu brent ok herjat meirr en þriðjúng af Skotlandi, ok fengu þeir ekki örindi. Fór þá síra Askatin austr til Noregs, ok á fund Magnúss konúngs, ok sagði honum um ferð sína, ok hversu þúng-

liga hans örindum var tekit á Skotlandi. Magnús konúngr görði þat ráð, at hann sendi Ögmund krækidanz til Orkneyja, ok fèkk honum þar vald yfir til landvarnar, en Eirík Dufgalsson sendi hann til Suðreyja; hafði hann XVIIIsessu, skipaða hirðmönnum ok gestum ok kertisveinum. Með honum skyldu fara af Orkneyjum Jóan þjóri ok Eiríkr bósi, ok hafa sitt skip hvâr þeirra. En er Ögmundr kom í Orkneyjar, spurði hann at Skota konúngr hafði sent her á Katanes, ok tóku þeir fè mikit af Katnesíngum fyrir þat er Hákon konúngr hafði lagt gjald á Katnesínga; var þá mikit orð á, at herjat mundi vera í Orkneyjar, ok því vildi Ögmundr eigi at liðit færi or Orkneyjum; voru þeir Eiríkr þar um vetrinn. Síra Askatin kom til Noregs, sem fyrr er ritat, ok voru þeir Ögmundr þá brott farnir, en þá bjóst Höskuldr Oddsson vestr til Orkneyja; lèt Magnús konúngr þá fara með honum bróður Mauricíum, ok annan berfættan bróður, er Sigurðr hèt, ok enn Heinrek skot til þjónustu við þá, ok fleiri sveina. Fóru þeir sem skjótast uppá Skotland, ok fundu Skotakonúng, ok tók hann þeim nokkru líkligar en þeim biskupi var tekit; bað Skotakonúngr þá fara aptr til Noregs, ok segja svâ Magnúsi konúngi, at hann sendi um sumarit eptir góða sendiboða til Skotlands, ef honum væri hugr á at göra frið millum landanna; fóru þeir þat sama haust aptr til Noregs.

*Frá Magnúsi konúngi.*

Magnús konúngr sat í Björgyn um sumarit. Þetta sumar kom af Íslandi Hallvarðr gullskórr,

hann sagði þau tíðindi, at allir Íslendíngar höfðu þá vikizt undir hlýðni við Magnús konúng, ok þá var spurt andlát Hákonar konúngs á Íslandi, er hann fór utan. Þar var þá með honum Þorvarðr Þórarinsson, ok gekk hann á vald Magnúss konúngs, ok gaf allt sitt ríki í hans vald fyrir þá hluti, er hann hafði brotit við konúngdóminn, í aftöku Þorgils skarða ok Bergs, hirðmanna Hákonar konúngs. Hafa síðan Íslendíngar aldrigi í móti mælt at hlýða boði ok banni Magnúss konúngs; gengu þeir ok með meiri blíðu undir hann en Hákon konúng föður hans. Magnús konúngr bjóst um haustit norðr til Þrándheims, ok varð síðbúinn. Hann lá allraheilagramessu í Leirgola, ok fór þaðan til Sílldar; þaðan fór hann til Selju, ok svâ norðr um Eið; en Margrèt drottníng fór hit ytra með skipum, ok fundust þau í Steinavâgi. Þá er Magnús konúngr lá í Steinavâgi, sá menn eld brenna til hafs; konúngr sagði at bærinn brann í Gizka, ok hèt á menn, at til skyldi fara, ok kvað þat eigi standa, at menn lægi svâ ok færi eigi at bjarga bænum eðr mönnum, ef þyrfti. Jón tvískafinn var fèhirðir í skipinu, ok fór hann til ok II menn or flestum hálfrýmum, ok höfðu vânt leiði. Þeir fengu borgit hinum nýja bænum, er Nicholás hafði göra látit, en hinn forni brann. Þeir Jón fóru þá aptr, ok höfðu at miklu liði komit þeim Gizkamönnum. Fór Magnús konúngr þá norðr til Þrándheims, ok gekk á kertisveina skútu; hann fór til Reins, ok Margrèt drottníng með honum, en konúngskipit fór

inn undir Hólm, ok höfðu þar allharða búð um náttina. Magnús konúngr sigldi utan um morgininn, ok mátti eigi leggja at Hólminum, hèlt hann þá inn at árósinum út frá Bakka, ok lesti þar skipit, en menn fóru á land, ok hèldu þeir fè öllu. Þetta haust andaðist Nicholás í Gizka, ok þraut þar þá lángfeðgaætt Gizka manna, þeirra er frá Árna Ármóðssyni voru komnir, en þó átti Nicholás eptir dóttur er Margrèta hèt, ok var hennar móðir . . .[1] þótti sá kostr vera þann tíma einn beztr í landinu, bæði fyrir ættar sakir, ríkdóms ok fríðleika. Magnús konúngr sat þann vetr í Þrándheimi, ok var þessi annar vetr ríkis hans. Um vetrinn eptir jól kom í Þrándheim bróðir Mauricíus, ok þeir sem farit höfðu til Skotlands með honum, ok sögðu Magnúsi konúngi sín örindi, slík sem orðin voru.

*Frá Magnúsi konúngi er hann fór til Björgynjar.*

Magnús konúngr fór um vârit suðr til Björgynjar, ok kom þar eptir páska. Þá sendi hann til Skotlands Gillibeart biskup ok síra Askatin, eptir því sem Skotakonúngr hafði beitt. Þeir fóru fyrst til Englands, suðr í Linn. Þá varð stríð mikit í Englandi. Þat sumar var felldr Símon misfort. Fóru þeir biskup þá norðr í Jork, ok voru þar um hríð. Um haustit þat er þeir Ögmundr krækidanz komu til Orkneyja, ok Skotar höfðu farit at taka gjöld af Katnesíngum, kom at þeim herra Dufgall, þá er þeir fóru aptr, ok drap af þeim mart fólk, en tók stórfè, þat er þeir fóru

[1]) *Nafn hennar stendr eigi í skinnbókarbrotinu, en eyða fyri því (frá öndverðu).*

með; hann drap þar lögmann Skota. Þat sumar fóru Skotar útí Suðreyjar með her, ok gekk þá undir Skota Engus í Il, ok margir þeir sem Hákoni konúngi höfðu fylgt, þá er hann var í Suðreyjum. Þeir fóru allt suðr í Mön, ok kúgaðu Magnús, herra þeirra, til eiða við sik, en herra Dufgall gætti sín á skipum, ok fengu þeir ekki fáng á honum. En um vârit eptir kom hann til Orkneyja, ok bað liðs, fór þá með honum Eiríkr, son hans, ok Eiríkr bósi, ok Jón þjóri. Þeir höfðu III skip, fóru þeir þá . . .

*Síðara blað.*

. . . vetrinn eptir jól. Þenna vetr í jólum setti Magnús konúngr prófast at postula kirkju, ok kórsbræðr í Björgyn með ráði Askatin biskups, ok lagði þar til próvendur ok mikit fè. Magnús konúngr varð sjúkr eptir jólin svâ mjök, at hann lèt olea sik; á þessu sama ári var vígðr Gregoríus pávi; á þessu ári anduðust margir ágætir höfðíngjar: Heinrekr Englakonúngr, ok Rikarðr konúngr, bróðir hans, af Alimanníu, ok hertogi Eiríkr fyrir sunnan á. Um sumarit eptir bjó Magnús konúngr ferð sína or Björgyn austr til Elfar, ok ætlaði at finna Valdimar Svíakonúng, sem þeir höfðu mælt. Hann kom í Konúngahellu nærr Maríumessu hinni síðarri[1], ok dvaldist þar fram um Mattheusmessu[2], en Valdimar konúngr kom ekki til móts við hann, ok fór hann at leik sínum uppi í Svíaveldi. Magnús konúngr nenti þá eigi at bíða hans; fór hann þá norðr til Túnsbergs,

[1]) *þann 15da Agústi.* [2]) *skammstafað; Mattheusmessa var 21ta September, en Matthiasmessa 24ða Febrúari.*

ok efnaði þar til vetrsetu. Í þenna tíma þurru mjök vinsældir Valdimars konúngs í Svíaríki or því sem voru meðan Birgir jarl lifði; voru þeir þá IIII bræðr á lífi skilgetnir: Valdimar konúngr ok hertogi Magnús, júnkherra Eiríkr ok Benedict, ok var hann klerkr; var þat tjáð fyrir honum at hann skyldi verða erchibiskup, en júnkherra Eiríkr þóttist ekki hafa, ok kallaði sik Eirík allsekki; hann hafði farit út í Danmörk, ok dvalizt þar um hríð með Danakonúngi, en í þenna tíma var hann aptr kominn, ok hafði konúngrinn, bróðir hans, á honum nökkurn grun. Valdimar konúngr hafði þá ok taka látit Jón Philippusson í kirkju, ok hafði hann í geymslu. Valdimar konúngr sendi þá orð norðr til Túnsbergs Magnúsi konúngi, ok vildi fyrir hvern mun hitta hann, þar sem Magnúsi konúngi líkaði at koma til móts við hann; en Magnús konúngr vildi eigi fara lengra en í Borg, ok þar var fundrinn lagðr. Þat var einn dag, áðr Valdimar konúngr fór til fundarins, at júnkherra Eiríkr bað at hann skyldi leyfa honum at ríða út ok skemta sèr, en er konúngrinn leyfði þat, þá reið hann norðr í Noreg, ok fáir sveinar með honum. Hann fann Magnús konúng austr á Vörnu, þá er hann fór til fundarins í Borg. Magnús konúngr tók vel við honum, ok fylgði júnkherra Eiríkr honum til fundarins; átti þá Magnús konúngr hlut at, at sætta þá bræðr, ok svâ görði hann Jón Philippusson sáttan við Valdimar konúng; þeir skyldu finnast í Skörum, ok skyldu XII menn sverja eiða at sættum þeim; þá var ok tekinn í frið

Bói galinn, er þá hafði verit með Magnúsi konúngi um hríð. Magnús konúngr tók við Valdimar konúngi með hinni mestu blíðu, ok sendi Árna biskup af Skálaholti móti honum, ok fleiri góða menn; var Valdimar konúngr með Magnúsi konúngi alla þá stund, er þeir voru ásamt, ok var þar hin ágætasta veizla; fóru allir hlutir sem blíðligast með þeim, ok voru þar margir merkiligir hlutir talaðir, þeir er vèr ritum eigi. Magnús konúngr gaf Valdimari konúngi ágætar gjafir, er þeir skildu, ok sendi Ólaf af Steini ok fleiri góða menn með Valdimar konúngi austr í Skarir, at sjá eiða þá, sem þar skyldu framm koma um sætt þeirra[1] bræðra ok Jóns Philippussonar, er Magnús konúngr hafði þá tekit til handa þeim at vilja Valdimars konúngs. En eiðar þeirra fluttust ekki svâ sem þeim líkaði, er sjá skyldu, ok dró þá enn til sundrþykkju með þeim Svíum. Magnús konúngr fór af fundinum or Borg til Túnsbergs, ok sat þar þat er eptir var vetrarnis. þessi var hinn tíundi vetr einvalds hans. Þenna vetr var ófriðr mikill í Danmörk með Eiríki Danakonúngi ok þýðverzkum mönnum. Görði Danakonúngr þá sendiboða til Magnúss konúngs, at leita mjök eptir vináttu ok trúskap við hann, en hann tók því vel, ok görði sendiboða í môti; fóru allir hlutir vel í orðsendíngum konúnganna. Eiríkr Danakonúngr fèkk þá hærra hlut or skiptum við þýðverzka menn á þeim

[1]) *það sem eptir er kapitulans er nú, að miklu leiti, ólæsilegt.*

vetri. Konúngr fór um vârit or Túnsbergi, þá er hann hafði lokit ör*indum sínum ... nor .. argir menn* ...... Líðandisnes, kom eptir honum Jón Philippusson með nokkurri sveit, ok sagði svâ, at Valdimar konúngr hafði þá flæmdan hann út, ok þat hèlzt ekki er hann hafði heitit Magnúsi konúngi í Borg; fór hann þá til Björgynjar með konúnginum.

*Magnús* . . .

Magnús konúngr sat um sumarit í Björgyn, ok lèt hann fylla þá ráðagjörð, sem hann hafði haft í Túnsbergi áðr um vetrinn; þá hafði hann stefnt til sín öllum sýslumönnum í Víkinni at Pálsmessu, ok hafði samtal við þá; skipaði hann þá, hvat hverr þeirra skyldi fá af hverri sýslu, þann tíma er hann *vildi eigi vera til þy* . . .[1] ok it sama þeir menn sem hèldu lèn hans. Þá var kominn til Björgynjar Jón erchibiskup, ok allir lýðbiskupar, þeir sem í voru landinu. Þar voru ok barónar ok lendir menn flestir allir. Tveim nóttum eptir Pètrsmessu hafði Magnús konúngr hirðstefnu í sumarhöllinni, ok görði þá bert um þá ráðagörð, er hann vildi vera láta um höfðíngjanöfn sona sinna. Skírði hann þá ok sínum mönnum um þá siðsemð, sem hann vildi at þeir hefðu, um vâpnaburð ok aðra hluti. Um morgininn eptir var kanúka[2] messudagr Jesú ok

[1]) *hèr eru 2 eða 3 orð ólæsileg.* [2]) *Eginlegast þannig skammstafað:* knk; *má vera að bindingarmerkin sèu afmáð. Kanúkar eðr kórsbræðr hèldu hátíða- og sunnudagamessur að tèðri dómkirkju í Björgyn. Þenna dag bar það ár* (1274) *á 5ta sunnudag eptir heilagrar þrenningar hátíð; guðspjallið hljóðar um kenníng Jesú af skipinu, en kollektan, sem líka*

guði at postulakirkju, ok hafði Magnús konúngr þar tíðir snimma um morgininn ok messu, en júnkherrarnir útmessu at Kristskirkju de spiritu sancto. En eptir þat var þíng sett í Kristskirkjugarði, ok svâ skipat sem konúngrinn sagði fyrir á fundinum . . .[1] ok fagnaði konúnginum; síðan talaði Vígleikr stallari af hendi hirðarinnar; eptir þat talaði erchibiskupinn, ok hóf hann af þeim hryggleik er allir Noregs menn báru eptir andlát júnkherra Ólafs, sonar (Magnúss) konúngs, ok lýsti hvern fagnað almáttigr guð hafði nú veitt öllu Noregs fólki, ok . . .[2] eign þeirri sem hann hafði erft . . . . gi[3] ok talaði þar um lángt örindi ok snjallt. Eptir þat talaði konúngrinn fagra tölu; ok lauk með því at hann gaf Eiríki syni sínum konúngs nafn, en Hákoni hertoganafn. Gengu þeir þá at skríni hinnar heilagu Sunnifu, ok lögðu sínar hendr . . . .

---

*tilheyrði þeirri fornu (enn pápisku) messu gjörð, hljóðar fyrst um Jesú, son lifanda guðs, og síðast um heilagan anda.* (*I stað orðanna* kanúka . . . . guði *hefir fyrr lesið verið:* krossmessudagr Jesú gerðr).

1) *hèr er meir en ein lina máð ok ólæsileg.* 2) *hèr er eitt orð ólæsilegt.* 3) *hèr eru tvö orð ólæsileg.*

## HÈR HEFR UPP ÞÁTT HÁLFDÁNAR SVARTA.

HÁLFDÁN svarti tók konúngdóm átján vetra eptir Guðröð hinn sterka veiðikonúng, föður sinn, á Upplöndum; hann var snemmendis mikill ok sterkr; hann herjaði á hin[1] næstu ríki, ok vann þau; hann herjaði upp á Raumaríki, ok átti bardaga við Sigtrygg konúng hinn sterka, ok laukst með því, at Sigtryggr konúngr fèll, en Hálfdán eignaðist Raumaríki. Síðan átti hann bardaga við Eysteinn konúng á Heiðmörk, ok hafði sigr, en Eysteinn konúngr flýði á Haðaland á fund Guðbrands hersis, ok eflðist þaðan at liði; fóru ofan á Heiðmörk vetrinn, ok hittu Hálfdán svarta í eyunni stóru[2], ok átti þar mikla orrostu, ok fèll mikill fjöldi af hvârum tveggja; þar fèll Guthormr, son Guðbrands hersis, er vænastr þótti til höfðíngja á Upplöndum. Þá flýði Eysteinn konúngr, en um vorit sendi Eysteinn konúngr Hálfdáni skatt; síðan veitti Hálfdán Eysteini hálfa Heiðmörk sakir frændsemi. Síðan lagði Hálfdán undir sik Þotn ok Haðaland, en hann gaf Vestfold Ólafi Geirstaðaálfi, bróður sínum.

---

[1]) *leiðrètt fyrir* hinu. [2]) *fyrst ritað* sterku, *en sýnist leiðrètt til* stóru; *í Heimkringlu* miklu.

Síðan kvæntist Hálfdán svarti ok fèkk Ragnhildar, dóttur Haralds gullskeggs, konúngs or Sogni, ok átti við henni son er Haraldr hèt; hann fæddist upp í Sogni með Haraldi, móðurföður sínum, þartil er hann var X vetra; þá gaf Haraldr gullskeggr honum ríkit ok konúngsnafn; litlu síðar andast Haraldr gullskeggr; þann sama vetr fór at deyja Ragnhildr drottníng. Um vorit eptir varð sóttdauðr Haraldr konúngr í Sogni, en þegar at þat spurði Hálfdán svarti, býr hann ferð sína með miklu liði norðr í Sogn, var þar vel við honum tekit; hann kallaðist eiga at taka ríki eptir son sinn, ok varð þar engi viðstaða í móti honum, ok lagði Hálfdán undir sik þat ríki. Þá kom til hans Atli af Gaulum, hann var mikill vinr Hálfdánar; þá setti Hálfdán konúngr Atla jarl yfir Sygnafylki, at dæma þar lög ok heimta skatta af hendi konúngs; fór þá Hálfdán konúngr á Upplönd í ríki sitt.

*Hálfdán konúngr vann Víngulmörk.*

2. Um haustit eptir var Hálfdán konúngr staddr á Víngulmörk at búum sínum; ok á einni nótt um miðnætti kom til hans sá maðr er haldit hafði hestvörð, ok segir honum at herr var kominn nær honum, ok stóð hann þegar upp ok bað hirðina vopna sik, ok gengu út í garðinn þegar. Þvínæst koma þar Hýsíngr ok Haki, ok höfðu lið mikit; var þar mikil orrosta, en fyrir því at Hálfdán konúngr var ofrliði borinn, þá flýði hann til skógar, ok lèt marga menn. Þat spurði Ölver hinn spaki, fóstrfaðir hans, ok safnaði liði miklu, ok fór til móts við Hálfdán konúng; fór hann

þá þegar til móts við Gandálfs sonu, ok hitti þá á Eyði við eyna, ok berjast þar; fèll þar Hýsíngr ok Helsíngr, en Haki komst undan á flótta, en eptir þat lagði Hálfdán (konúngr) undir sik alla Víngulmörk, ok tók skatta af. Einum vetri síðar fór hann uppá Heiðmörk, ok þann sama vetr fèkk Hálfdán Ragnhildar, dóttur Sigurðar hjartar, ok þá eignaðist hann Raumaríki ok Haðaland. Þegar Hálfdán svarti var brott farinn af Víngulmörk, fara þeir Gandálfr ok Haki, son hans, á Víngulmörk, ok leggja undir sik mart fólk ok herjaði víða; eptir þat stóð mikil deila milli Hálfdánar konúngs ok Gandálfs konúngs lánga hríð. Hálfdán konúngr ok Ragnhildr áttu son er Haraldr hèt. Með Hálfdán er kynligr hlutr einn: hann dreymdi aldregi, en þann hlut bar hann fyrir þann mann er Þorleifr spaki hèt, ok leitaði ráða, hvat at því mátti gera, ok hann sagði hvat hann gerði, at þá er hann vildi forvitnast nokkura hluti, at hann fór í svínabæli at sofa, ok brást honum aldri draumr.

*Draumr Hálfdánar konúngs.*

3. Hálfdán konúngr gerði nú svâ, fór í svínabæli, ok sofnaði brátt, birtist honum draumr einn merkiligr: honum sýndist at hann væri manna bezt hærðr, ok væri hár hans í lokkum, ok svâ síðir, at sumir tæki til jarðar, en á lokkum hans var hverskyns litr[1], en einn lokkr sigraði alla með fegurð ok ljósleik; lokkar hans sýndust missíðir mjök, sumir voru síðir til jarðar, sumir í miðjan legg eðr á knè eðr á miðja síðu, sumir

[1]) *leiðrètt fyrir* lutir — *eptir Hkr.*, *Æ ok T.*

á nefit; hún færði Hauk or klæðunum, ok þreifaði um hann, ok mælti: þú ert þrekligr ok hamíngjusamligr; hún bað hann kyssa sik, ok svâ gerði hann. Þá biðr hún Vígharð fara af klæðum, hann var lengi fyrir; Haukr biðr hann til, ok þat verðr; hún mælti: mikill maðr ok siðligr ok furðu sterkr; hún biðr hann kyssa sik, hann biðr öll tröll kyssa hana; hún svarar: meir mun þèr gefit vænleikr, ok segir honum muni meira mein at verða en sèr. Hún selr Hauki mýla tvo: ok ef þeir Beörn ok Salgarðr leggja at skipum ykkrum, þá fleyg fyrir borð á skipi þínu. Þeir sigla nú norðr til Bjarmalands, ok eitt kveld sjá þeir renna skip undan eyjum fram, ok ætla nú mennina at hitta ok spyrja tíðenda hvorir aðra; kennir Haukr nú at þetta eru þeir Beörn ok Salgarðr; verðr fátt um kveðjur þeirra utan þeir leggja skip saman ok berjast. Nú sjá þeir at dreki liggr undir eyjunni, ok fljúga örvar af, ok varð maðr fyrir hverri; ekki komu Hauki í hug mýlarnar kellíngar. Nú falla menn allt með borðunum á hvorutveggjum skipunum; þeir gánga nú á annat skip sitt báðir, Haukr ok Vígharðr, þvíat hroðit var Vígharðs skip; hann gengr þá í framstafn, ok hleypr á skip þeirra Bearnar ok Salgarðs, ok þeir Haukr báðir, ok komast framan at siglu, koma þeir Beörn þar í móti ok Salgarðr, ok slær þar með þeim í bardaga, lèttir eigi fyrr en allir eru sárir, þeir er uppi standa; gengr Beörn or lyptíngunni at Hauki; nú berjast þeir fjórir, lýkr svâ at Beörn fellr. Vígharðr sækir þá at Salgarði, ok er minnst var von kemr ör af drekanum ok

í brjóst á Vígharði, ok fellr hann dauðr niðr. Hauki koma þá í hug mýlarnar, ok kastar þeim fyrir borð með reiði, ok kemr niðr heá drekanum ok lystr þar upp loga stafna á millum. Haukr drepr þá Salgarð, en hann misti auga sitt; ekki var þá ok fært til liðs hans manna; berr hann þá vopn sín á bát einn ok klæði sín, ok lèttir eigi fyrr eń hann kemr aptr til Heiðar kellíngar, ok segir henni tíðendin; hún lætr vel yfir at hann er aptr kominn; græðir hún hann, ok fara þau, ok fylgir hún honum þar til er kaupmenn eru, kemr honum þar í skip með þeim mönnum er fara ætluðu suðr með landi; hverfr hún þar aptr, en hann lèttir eigi sinni ferð fyrr en hann finnr Harald konúng, ok segir honum alla sögu. Konúngr lèt vel yfir at hann var aptr kominn. En frá Lyti er þat at segja at hann kom aptr ok fann Eirek konúng, ok sagðist honum aldri mega at liði verða þaðan af, sakir örkumbla þeirra er hann kvezt fengit hafa af hinu mikla trölli í Noregi.

*Frá yfirlitum Haralds konúngs ok vexti.*

5. Eirekr var konúngr yfir Svíþjóð XL ok VII vetr. Haraldr konúngr var allra manna fríðastr sýnum ok tíguligastr; hann hafði hár svâ fagrt sem silki eðr barit gull, ok liðaðist í stórum lokkum, ok var svâ sítt at hann mátti drepa undir belti sitt; hann var ok allra manna sterkastr ok mestr, svâ sem enn sjá má hæð hans í Haugasundi[1]; þar liggr hella sú fyrir vestan kirkjuna er var yfir legi hans, ok er hún hálfs

[1]) *þannig rèttast, eptir sögu Har. hárf.* 45 *kap.; skammstafað* Hugasundi *í Fl.*

fjórtánda fótar löng; standa þar ok (í) kirkjugarðinum II steinar er annar stóð at höfðum, en annar at fótum, þar lá hellan í milli steinanna yfir legi konúngs er haugrinn var brotinn, ok mun steinninn vera svâ þykkr er inn hefir vitat í legit at taka mun manni í mitt lær. Ok þá er þessi miklu tíðendi voru orðin, er Haraldr konúngr beið bana, þá hafði hann áttatígi vetra ok III vetr; hann varð sóttdauðr á Rogalandi, ok er heygðr á Haugum við Karmsund[1]; var Haraldr konúngr af hverjum manni mjök harmaðr, ok töluðu allir eitt um at hans líki mundi eigi verit hafa at vitsku ok allri atgervi, örleik ok yfirlæti, er hann veitti sínum mönnum; gat hann ok varast alla fjölkýngi ok forneskju, síðan hann gat skilit blekkíng Svasa, dvergs[2] þess er til hans kom einn jóla aptan, ok sneri hug hans til einnar finnskrar konu er Snjófríðr hèt, með svâ heitri ást, at hann gekk at eiga hana ok unni henni yfir allt fram, þvíat honum sýndist hún hverri konu vænni sakir atkvæða Svasa; átti hann sonu við henni, sem fyrr segir, ok at endöðum þeirra álögum andaðist Snjófríðr, ok var breidd yfir hana blæan Svasanautr, er svâ mikill galdr var í fólginn, at Haraldi konúngi leizt hennar líkami svâ bjartr ok inniligr at hann vildi hana eigi jarða láta, ok sat seálfr yfir henni III vetr, ok gáði einkis síns geðs fyrir ofrást við hana andaða; kvað Haraldr konúngr þá um hana drápu,

---

1) Karmtsund, *Hkr.* 2) *Svasi nefuist* Finnr *i sögu Har. hárf.* 25 *kap.*, *en* Jötun *i yfirskrift hins sama.*

er síðan er köllut Snjófríðar drápa, ok er þetta upphaf at:

Hneggi ber ek æ ugg
ótta hlíðin[1] mèr drótt
dána vek ek dular mey
drauga á kerlaug;
drápu let ek or Dvalins greip
dynjâ meðan fram hrynr,
rekkum býð ek Regins drykk
rèttan, á bragar stètt.

Síðan lagði til einn vitr maðr er var með Haraldi konúngi, ok Egill ullserkr[2] hèt, at af skyldi taka blæuna líkinu, ok svâ var gjört; var þá líkaminn rotinn eptir líkendúm ok illa þefaðr, ok síðan greptraðr at fornum sið. Eptir þetta varð Haraldr konúngr svâ reiðr göldrum ok gerníngum ok allri forneskju, at hann lèt öngvan mann þann þrífast í sínu ríki, svâ at éigi væri annathvârt drepinn eðr landflótta. Síðan var þetta kveðit:

Ekki var þat forðum farald,
Finnan gat þá ærðan Harald,
honum sýndist sólbjört sú;
slíks dæmi verðr mörgu(m) nú.

Lýkr svâ hèr frá Haraldi konúngi.

---

[1]) *máske rèttara* hlýði. [2]) *Hkr. nefnir þann mann* Þorleif spaka.

## HÈR ER
## ÞÁTTR ÓLAFS GEIRSTADA ÁLFS.

Drengr góðr ok höfðíngi mikill, Ólafr Guðröðarson veiðikonúngs, (var) bróðir Hálfdánar svarta. Móðir Ólafs var Ólöf[1], dóttir Álfarins or Álfheimum; en þegar er Ólafr var fulltíða at aldri, tók hann konúngdóm eptir föður sinn á Grænlandi[2], hann var allra manna fríðastr sýnum ok mestr vexti; hann hafði atsetu á þeim bæ er á Geirstöðum heitir, því var hann kallaðr Geirstaðaálfr. Hann hafði forræði fyrir þeim tveim fylkjum er annat var kallat á Upsa, en annat á Vestmari, at auk föðurleifðar sinnar, sem segir Þjóðúlfr hinn hvinverski:

Rèð Ólafr
Upsa[3] forðum,
[víða frægr[4],
ok[5] Vestmari,
[goðum líkr,
ok Grænlands fylki[6],
unz fótverkr
við foldar þröm
[vígs frömustum

[1]) Álfhildr, *Hkr.* [2]) Vestfold, *Hkr.* [3]) ofsa, *Hkr.*, *S. Ól. h.* (*í Fornm. S.*) [4]) *frá* [ viðri grund, *Hkr.* [5]) of, *Hkr.* [6]) *frá* [ *v. Hkr.*, *S. Ól. h.*

varð at grandi[1];
nú liggr gunndjarfr
á Geirstöðum
herkonúngr seá[2]
haugi orpinn[3].

Eptir fall Guðröðar konúngs, föður Ólafs, tók Álfarinn konúngr, er Álfgeir hèt öðru nafni, undir sik Víngulmörk alla, ok setti þar yfir Álf, son sinn, er kallaðr var Gandálfr. Eysteinn[4] konúngr, son Högna Eysteinssonar hins illa[5], lagði undir sik alla Heiðmörk ok Sóleyjar[6], en Ólafr Geirstaðaálfr hèlt öllu sínu ríki fyrir þeim Álfi ok Eysteini ok öllum öðrum, allt til dauðadags. Hans son var Rögnvaldr heiðum hærri, er konúngr var eptir föður sinn; um hann orti Þjóðúlfr hinn hvinverski Ýnglíngatal.

*Draumr Ólafs.*

2. Ólaf Geirstaðaálf dreymdi draum, ok fannst mikit um, ok vildi eigi segja, er hann var spurðr; síðan lèt hann þíngs kveðja um allt sitt ríki; þíngit var sett á Geirstöðum. Konúngr bað alþýðu fyrst lúka málum sínum, en hann kveðst síðan eptir mundu lúka upp fyrir alþýðu, hví hann hefði þíngs kvatt, ok lèt mörgum mundu þikja litla sök til þess vera; ek vil hèr segja draum minn, segir hann, mèr þótti sem uxi mikill svartr ok illiligr gengi austan á landit; hann fór um allt land mitt ok ríki; mèr þótti falla fyrir honum ok hans áblæstri fjöldi manns, svâ

[1]) *frá* [ vigmiðlúng of viða skyldi, *Hkr.*; virða vin um viða náði, *S. Ól. h.* [2]) *v. Hkr.*, *S. Ól. h.* [3]) ausinn, *Hkr.* [4]) Högni, *Hkr.* [5]) ríka, *Hkr.* [6]) Þotn ok Haðaland, *Hkr.*

at mèr þótti þat eigi færra en þat sem eptir var; síðast sýndist mèr hann drepa hirð mína. Hann bað menn þá ráða draum þenna: þvíat ek veit at hann hefir nokkut at merkja; þeir sögðu at hann mundi seálfr næst geta, hvat hann þýddi. Konúngr talaði þá: friðr hefir lengi góðr verit í ríki þessu, ok árferð, ok fjölmenni meira mikiu en land þetta megi bera, en uxi sá er mik dreymdi mun vera fyrir sótt þeirri er fara mun austan á land þetta, ok mun fylgja manndauðr mikill; hirð mín mun síðast fyrir því verða, ok þat er líkast at ek fara þar á eptir seálfr, þvíat ek mun eigi heldr en annarr komast yfir mitt skapadægr. Nú er draumr seá ráðinn eptir því sem hann mun eptir gánga, en nú vil ek leggja ráð þau fyrir alþýðu, at fjölmenni þat allt, er nú er hèr komit, verpi haug mikinn hèr fram í nesinu, ok girði um þvert nesit fyrir ofan, svâ at engi fènaðr gángi þángat; þángat í hauginn færi hverr maðr, þeirra er nokkr virðíng er á, hálfeyrir silfurs með sèr til graftrar. Þat mun verða, áðr sótt lètti, at ek mun í haug færðr eptir andlát mitt; við þat vara ek menn alla, at eigi taki þau ráð sem sumir menn, þeir er blóta þá menn andaða, er þeim þótti sèr traust at meðan lifði, fyrir því at ek ætla dauða menn ekki mega til gagns; svâ kann ok verða, at af stundu eru þeir trylldir, er áðr voru blótaðir, ætla ek hinar sömu illar vættir stundum sýnast gagn gera í því, en stundum mein; mjök uggi ek at hallæri komi á land eptir er vèr erum heygðir, en þó munum vèr þvínæst blótaðir ok síðan trylldir, en vèr munum þó

hvorigu valda. Þat gekk allt eptir sem Ólafr konúngr sagði, ok hann hafði drauminn til ráðit; var þat vonum bráðara, at sótt kom mikil, ok dó fólk mart, ok voru allir þeir menn í haug færðir, er nokkur tilkvæmd þótti til vera, þvíat Ólafr konúngr lèt menn til fara þegar af þínginu at gera haug forkunnar mikinn, en lands fólkit gekk at girðíngu þeirri sem hann hafði ráð fyrir gert; fór þat ok svâ til at hirðin dó síðast, ok var haugfærð síðast Ólafr konúngr, ok var hann fljótliga í lagiðr heá sínum mönnum með miklu fè, ok eptir þat haugrinn aptr byrgðr, þá tók ok at lètta manndauðnum; síðan gerði úáran mikit ok hallæri, var þá þat ráð tekit, at þeir blótuðu Ólaf konúng til árs sèr ok kölluðu hann Geirstaða-álf.

*Hèr segir frá Hrana draum.*

3. Á fyrsta ári ríkis virðuligs herra Ólafs konúngs Tryggvasonar bjó sá maðr skamt frá Geirstöðum er Hrani hèt, ok fyrr var nefndr[1], fóstbróðir Haralds grænska; Ólöf hèt móðir Hrana. Hann dreymdi eina nátt, at kæmi at honum Ólafr Geirstaðaálfr, ok þótti hann fyrst segja sèr skyndiliga æfi sína alla, ok um haugsgerð, þá um reimleik, ok er þat var úti, þá sagði hann honum, at Sveinn, son Hákonar jarls, ætlaði or landi at fara, ok lægi þaðan skamt, þvíat hann fær eigi haldit sik fyrir ríki Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok er fèvâni mjök: skaltu segja honum

[1]) *í þætti Haralds grænska í Flateyarbók, samhljóða æfi hans í sögu Ólafs helga (ok þessum Fornmanna Sögum), nema í fáu, en fánýtu, líklegast síðar viðbættu.*

til haugs míns ok fèvonar þeirrar er á Geirstöðum er, ok fylgja honum til, ok kveðr á, hvaðan brjóta skyldi hauginn; ok um nátt skulu þèr brjóta hauginn, segir hann; engi þeirra liðsmanna Sveins mun fús til í hauginn at gánga sakir þess at fnýkr ok fýla ok illr hræfadaun mun or hauginum gánga; þá skaltu Hrani, segir hann, at síðastunni bjóðast til í hauginn at gánga, þá er engi verðr til annar, enda mun þèr einum duga, ok mæla til at hafa af úskiptu III gripi þá er þú kýs, ok þat með at Sveinn seálfr haldi festi, þvíat hann einn mun dreingskap til hafa at bíða þess er þú kemr or haugi; þú skalt fyrst bera lausafè allt til festar, þat er áðr liggr í einni hrúgu á haugsgólfi miðju, ok láta þat upp draga; síðan skaltu taka gullhríng af þeim manni er á stóli sitr í miðjum haugi, kníf ok belti er hann hefir um sik; síðan skaltu eptir þat taka sverð þat er hann bendir um knè sèr, ok bregða því, ok höggva af honum höfut, ok mun þèr þar mikit við liggja ok gæfu skipti í, hversu til þess tekst, þvíat þar liggr á at þú setir óhallt höfuðit aptr á bolinn. Þat þiki mèr ok von, at þá muni heldr þysmikit í haugi eptir er þú hefir þetta gert, þvíat hvorki mun þèr þikja þá hljótt nè kyrt; slokna munu þá ok ljós öll, þá munu ok á burt leggja flestir allir menn af haugi, nema Sveinn, ok nokkurir menn með honum. Varla dugir þèr til hauggaungu at ráða, nema þú sèr óskelfr maðr, en þó er þat líkast at þèr verði ekki um sök, ef þú ferr mínum ráðum fram. Ekki skaltu segja til gripa þeirra, er þú hefir með þèr or

haugi, máttu svâ hafa þá undir yfirhöfn þinni at Sveinn seái þá ekki. Um daginn eptir mun Sveinn bjóða þèr ok öllum öðrum til fjárskiptis; þú skalt ok koma ok hafa II hesta með þèr söðlaða; þú skalt fyrst inna til máldaga við Svein, er þið höfðut um afnáms gripi þá er þú skyldir haft hafa, síðan skaltu halda upp gripunum öllum ok sýna, ok biðja þá skipta með sèr lausafè öllu öðru, en seg at þú munir hafa gripina; vertu eigi nærr en vel megi heyra mál þitt. Þá mun Sveinn segja at hann vili at þið hittizt, ok sýnir þú honum gripina; þá skaltu ríða sem harðast á brottu; þá mun Sveinn eptir leggja, ok hans menn, ok vilja ná þèr. Þeir munu svâ nærri komast, at Sveinn mun skjóta hest undir þèr; þá skaltu hlaupa á bak öðrum hesti þínum ok hleypa í skóg; síðan skaltu fara uppá Grænland í Vík til Haralds konúngs grænska, ok munu þar döpr heimkynni, þvíat Ásta Guðbrandsdóttir kúlu drotníng mun liggja á gólfi ok verða eigi lèttari, ok hefir verit nokkra stund, ok mun mönnum þikja á þat úvænliga horfast. Þá skaltu bjóðast at fara til fundar við hana, ok telja eigi örvænt at heldr batnaði við; þú skalt beiðast at ráða fyrir nafni ef sveinbarn er alit. Síðan skaltu leggja um hana beltit, þá þiki mèr von at skjótt muni skipast um hag hennar; hún mun þá barn fæða, ok mun þat sveinn vera bæði mikill ok jóðligr; þú skalt Ólaf láta heita; honum gef ek hrínginn ok sverðit Bæsíng, er ek hefi þèr áðr til vísat. Síðan far þú norðr í Noreg á fund Ólafs Tryggvasonar, ok tak við sið þeim er hann

boðar; síðan far þú aptr í Vík, ok bizt sem mest á hendi Ólafi þeim hinum únga; þat mun þín höfutgæfa mest at fylgja honum sem lengst. Síðan vaknaði Hrani.

*Hrani gekk í hauginn Ólafs Geirstaðaálfs.*

4. Ok eptir þetta fór Hrani til fundar við Svein jarl Hákonarson, ok sagði honum til fèvonarinnar; fara þeir á land um náttina, ok brjóta hauginn, ok fá mikit fè; hefir Hrani kostgripina brott or hauginum, en vann svâ at haugbúanum, sem hann hafði seálfr ráð fyrir gert; fóru ok svá skipti þeirra Sveins jarls sem fyrr segir. Síðan fór Hrani í Vík á fund Haralds konúngs fóstbróður síns; var honum vel fagnat; lá Ásta þá á gólfi, ok var allítt haldin, sagði mönnum mjök óvænt hugr um hennar hag. Hrani gengr þá til móts við hana ok segir henni drauminn, ok þeim Haraldi konúngi; hún segist gjarna vilja at hann ráði fyrir nafni, ef þá væri nokkuru nær um hennar heilsu en áðr; lagði Hrani þá um hana beltit, þat er hann tók af Ólafi Geirstaðaálfi, ok skipaðist skjótt við.

---

# SAGA ÓLAFS KONÚNGS TRYGGVASONAR,

RITUD, Í ÖNDVERÐU, AF ODDI MÚNK.

*(Upphafið vantar.)*

... yfir oc þvílíkir lutir frá Gunnhilldi sagþir oc tiltekium hennar, oc þetta orð risi á víða í Noregi, at Ástríð ætti son, þá vissu þat þó fáir menn. Þat barsc at þat sama qvelld at sauðamaðr Biarnar fór at hitta sauðamann Þorsteins, oc spurði hann at sauðum sínum, oc síðan tóku þeir mart at tala. En Þorsteinn var scamt frá þeim oc heyrði tal þeirra. Þá spyrr húscarl Þorsteins, hvat Biörn átti gesta um qvelldit; hinn sagþi at þar voru comnir ágetir menn, Hákon jarl Sigurþarson oc þeir saman XXX manna, oc sitia þeir þar í boði: heyrða ec at jarlinn sagþi Birni örendi sín, at þat var boð Gunnhilldar drotníngar, at senda hann eptir Ástríði oc syni hennar, oc fœrði Gunhilldi, oc hèr ætlar hann á morgin at coma með sitt örende. Síþan skilia þeir rœþu sína, oc veit Þorsteinn nú allt þetta tal. En er at degi com, geck Þorsteinn í húsit, þar er þau sváfu, oc bað þau rísa upp scyndiliga oc braut fara sem scyndiligast; hann callaði ákaft, oc þau biogguz í tómi. Þorsteinn geck at með ácava, oc hafði mikinn sviga í hendi, oc lèt sem hann myndi ljósta þau oc gera miscunnarlaust, ef eigi

brygþi þau við sem skiótazt; oc síþan gengu þau út, en hann eptir þeim með reiddan sviganu; fóru þau með þessum hætti til garðz liðs at hann ógnaði þeim. Oc er þau comu út um garðinn, þá heilsaði hann Ástríði oc föruneyti hennar, oc bað hana fyrirgeva sèr öll þau orð, er hann hafþi mælt við þau: en þèr hafit með þolinmœði borit svívirðleg orð, er með öllu hafit verit saclaus; en eigi hefi ec þetta gert firir sakir háðúngar eþa harðýðgi er ec ógnaða yðr; nú vil ec biðia lícnar firir þat er ec mælta oc gerða; oc scolu þèr nú heyra, hví ec gerþa svâ; segir hann þeim síðan slíct sem húscarl Biarnar hafði sagt: en því villda ec at þèr fœrit sem skiótast brot af mínu herbergi, at eigi væri þèr hèr höndum tekin. En at skilnaði bað hann þau fara til scógar, er scamt var frá þorpinu, oc bað þau fara þaðan hulþu höfði til vaz þess er Miors heitir, oc síþan fylgia vatninu allt þar til er þau sæi hólm einn í vatninu lítinu; hann bað þau þángat vaða oc sagþi eigi meira vera diúp vazsins en taka myndi í mitt lær, oc eigi myndi lauprinn í taca er þórólfr bar sveininn í; hann bað þau þar leynaz í þeim hólmi, at þau yrði þar eigi sèn af landi: en ec man nú aptr hverva, oc þá er Hákon kömr til mín, mon ec gera mek líklegan til leitar með honum; en verþa má at því at með tilstilli mínu finniz þèr eigi, oc alla stund scal ec á leggia yðr at hiálpa; en þar scolu þèr vera í hólminum til morgins, oc bíðit þar minnar qvomo. Svâ gerir Ástríð alla luti sem hann bauð henni; en hann hvarf aptr. Oc

er hann com heim í þorpit, oc geck um garðinn, þá com Hákon jarl þar með mikla sveit manna, oc þorsteinn geck í móti þeim, oc fagnaði honum vel, oc bauð jarli til sín oc allum hans mönnum, oc sagði mál at snæða. Vel er þat boðit, segir jarl, en eigi er enn nauðsyn til at eta nè drecka svâ árla dags; man ec ríða síþan til Biarnar. þorsteinn mælti þá: hvert er örendi yþart, herra? hann svarar: mek hefir sendt Gunhilldr drottníng alz Noregs velldis, at leita eptir Ástríði oc syni hennar, oc vill hon fœþa upp sveininn ástfóstri, oc spurði ef þau hefði þar verit um nóttina. Vâru hèr, herra, nocqvorir menn fátœkir oc mèr úkunnir, oc þágu mat at mèr, oc vissa ec eigi hverìr vâru; sváfu þau, þá er ec geck út or húsinu, áðr þèr qvomuð, oc enn hygg ec at þau myni sova. Síþan gekk hann inn í húsin, oc leitaði þeirra í allum húsum, oc var inni lengi, II stundir dags eða III, oc com út síþan, oc sagþi at hann hafþi leitat þeirra um öll hús, oc þar er honum þótti líkendi á vera, oc qvaðst eigi finna þau. Jarlinn bað þá leita um þorpit oc um alla garða, oc svâ var gert, oc funduz þau eigi. þorsteinn lagþi þá þat ráð til, at leita scylldi um scóginn, er þar var nær þorpinu, oc qvað mörg leyni vera á scóginum, þau er felaz mátti í, oc vera má svâ, at þau hafi fólgit sveininn undir viðar rótum nocqvors três, en þau hafi forþat sèr, er af því nauðsyn, at vèr gefim gaum at, ef vèr heyrum nocqvor barnsgrát. Nú skipta þeir liþi síno í helmínga til leitar í scóginum, oc svâ berr þá

til at þorsteinn verþr einnsaman; hann rann þá heim scyndiliga til þorpsins, oc þó leyniliga, oc tók son einnar ambáttar, oc bar til scógar, oc lagþi undir viðar rœtr eins três; oc er liðin var ein stund dagsins, þá heyrðu þeir allir barnsgrát, oc fóru þeir þar til, oc com þorsteinn síþarstr, oc þá rœddu þeir um, hvat sveina þat myndi vera. þá mælti þorsteinn: eigi er þetta konúngs barn; oc er þetta gert til spotz oc háðs við oss, er hèr er sett barnit. Oc er þeir hafðu leitat allt til nóns oc fundu eigi, þá örventu þeir fundarins. þá bað þorsteinn þá aptr hverva, oc kvað þá mál at snæða, oc svâ gerþu þeir. Oc á þeirre samu nótt eptir com þorsteinn til þeirra, sem hann hafði heitit, oc hafþi með sèr III clyfiaða hesta af fœzlum, oc mann þann er vera scylldi leiðtogi þeirra til Svíþióðar. Oc eptir þetta bað hann þau fara í friði. þau þökkuðu honum sína velgernínga, oc skiliasc nú vinir; fara þau nú til Svíþióðar, oc koma á fund Hákonar gamla, oc tóc hann við þeim með fagnaði oc blíðu; vâru þau þar vel halldin.

*Frá Gunhilldi oc Hákoni.*

2. En á hinu næsta hausti rak Gunhilldr Hákon á brot af eignum sínum, oc sagþi hann scylldu vera útlagþan af Noregi firir sína tilgernínga, nema hann gerði slíct allt, sem hon hafði beiðz fyrr. Fór þá Hákon á brot af Noregi, oc austr til Svíþióðar, oc með honum Auðr, dóttir hans, er allra qvenna var fríþust, oc tók Eiríkr konúngr vel við honum. þá vâru skilið ráð þeirra Sigríðar stórráðu, dóttur Scoglar-Tosta.

En þat bar til at sumra manna sögn, at hon var stórráð oc þó ráðgiörn, en konúngr villdi eigi hava ofsa henuar; en sumir segia at hon villdi firir því eigi með honum vera, at þat vâro lög í landi, ef misdauði yrþi hióna, at konu scylldi setia í haug hiá honum, en hon vissi at þat lá á konúngi at hann scylldi eigi liva um X vetr, oc hèt hann því til sigrs sèr, þá er hann barðiz við Styrbiörn, at hann scylldi eigi lengr liva síþan en X vetr. Oc er Hákon com anstr til Svíþióðar, þá segia menn at Eiríkr konúngr bað dóttur hans, oc fèck henuar, oc af því virði konúngr Hákon mikils, oc var hann þar í miklum metnaði einn vetr. Oc um vetrinn eptir jól vecr Hákon jarl við Eirík konúng, at hann fái honum C manna vâpnaða, oc qvaðst hann hitta vilia Hákon gamla; oc því játar konúngr. En með konúngi var Rögnvaldr son Hákonar gamla, oc þegar er hann heyrir þetta, bióz hann í brot, oc ferr hann scyndiliga til bœar föþur síns, oc segir honum at þar mon coma Hákon Sigurþarson á hans fund; oc er hann heyrði þetta, þá lèt Hákon vâpnaz CCC manna, oc vâru þeir allir hans heimamenn, oc veitti hann þeim góða veizlu, oc með þessum hætti biðu þeir þángatcomu Hákonar með miclum viðbúnaði, oc óttuðuz ecki at sèr, oc drucku nú með gleði. Oc er sèn var för Hákonar jarls, gengr Hákon gamli í móti Hákoni, oc bauð honum til veizlu, oc bað hann velcominn, oc sýndi á sèr micla gleði oc bliðu í hans comu. Þá svarar Hákon: firir aðra sök com ec hèr á yðarn fund en eta eða drecka,

þvíat heimolt man at eta oc drecka, er vèr komum heim. þá mælti Hákon gamli: firir hveria sök comu þèr á minn fund? Hann svarar: Gunnhilldr drotníng sendi mek híngat með þeim örendum at hon vill bióða til sín syni Tryggva konúngs, er hon ventir nú hèr vera á yðru valldi; vill hon hann upp fœþa með miclum sóma til hugganar móður hans Ástríði, oc aðrum frendum hans; en hon bað mek flytia þetta mál oc fram bera, því at hon iðraz þess er faðir sveinsins var drepinn; vill hon nú svâ bœta fyrst guðunum oc síþan mönnum, oc bœta þat á syni hans, er misgert var á föþur hans, oc þyckiaz svâ mestan sóma gera mega, ef hon fœþir ástsamliga son hans oc gera sèr at œskilegum syni. Þá svarar Hákon gamli: grunar móþur sveinsins at þetta myni vera eigi satt; ætlar hon helldr at hon myni láta hann fara eptir föþur sínum, ef hon má ráða. Oc firir þá sök fór hon or Noregi, oc flýði bæði frendr sína oc fóstriörð, oc sótti á vârn fund. Nú trúi ec eigi oc eigi trúir hon Gunnhilldi, því at oss sýniz hon vera flærðafull oc pretta oc kunnig at mörgum sviksamlegum lutum; oc þat segi ec þèr, Hákon, at þessi sveinn kömr alldregi á þitt valld nè Gunnhilldar, ef ec má ráða, nema ec verþa svâ grimliga yfir cominn at mèr sè þá annars hugar en nú er. Oc fèck Hákon ecki af, oc fór ábrot við svâbúit, oc kömr heim; oc spyrr Eiríkr konúngr, hversu farið hefði með þeim nöfnum. Hákon segir sem farit hafði. Sagþa ec þèr áðr, at ávaxtalaus myndi verþa ferþin, þót þú leitaðir

eptir þínum lut við Hákon gamla, þvíat mátkari er hann oss í mörgum lutum, oc scamt er síþan, er hann bar meira lut í vârum viðskiptum, þá er við þreyttum ockur mál. Oc ær af leið iólmánaðr, oc þeir dagar er sú veizla hafði staðit, oc hverr fór til síns heimilis, þá fór Hákon enn með mikit lið, oc ætlar at hitta nafna sinn, oc fèkk konúngr honum þá CC manna, vel vâpnað lið. Oc er þeir hittaz, nafnar, tócu þeir milli sín oc gerðiz brátt rœþan þeirra með ákefð oc sundrþycki oc mikilli reiði. Sagþi Hákon at sveinninn myndi brot fara með honum, hvârt sem Hákon gamli vill eða eigi. En Hákon gamli qvað hann eigi fara myndu. þá geck at Hákoni Sigurþarsyni einn maðr, sá var bæði mikill oc sterkr, hann hèt Bursti, hann var verkmaðr Hákonar gamla oc þræll hans, oc vann þat allt er hervilegast var; hann hafði um öxl reidda mykikvísl ákafliga micla, oc scorti þar eigi mikla myki á; hann veþr at Hákoni Sigurþarsyni, oc mælti: hverr er þessi hinn útlendi maðr oc hinn drambs fulli, er þvílíkum orðum mælir við Hákon höfðíngia vârn; nú ger þú annat hvârt, dragsc íbrot scyndilega, oc mæl hèr ecki svâ ríkmannlega eða neisulega til höfþíngia vârs, eþa hèr slæ ec þek með þessi mykikvísl, svâ at þèr scal þat vera eilíft brígzli; far nú sciótt í brot af þessu þorpi, ef þú villt eigi fá hèr allmicla svívirðíng, því at hèr com aldrigi fyrr sá maðr, er svâ veri diarfr, sem þú ert. þessi maðr var callaðr akrmaðr, oc var allra manna stercastr oc verstr viðreignar.

Hákon scilði at þat myndi vera vitrliga ráðið[1], at hætta eigi til hvat siá maðr gerði, sèr at hann mon allan alldr þessa scömm hava, ef hann fær svívirþíng af honum, ef hinn versti þræll vinnr honum heisu, oc þetta veri œrit brígzsli. Oc síþan snýr hann íbrot af þorpinu, oc ríðr heim til Eiríks konúngs, ok var með honum til sumars, oc fór þaðan til Danmerkr, oc dvalþiz lengi með Haralldi konúngi Gormssyni, ok vurðu þar mörg tídenði.

*Frá Garðakonúngi oc móður hans.*

3. Í þenna tíma rèð firir Garðaríki Valldamarr konúngr með miklum veg. Svâ er sagt, at móðir hans var spákona, oc er það callat í bókum phítons andi er heiðnir menn spáðu. þat geck miök eptir er hon mælti, oc var hon þá á örvasa alldri. þat var siþr þeirra at ióla aptan hinn fyrsta scylldi bera hana á stóli firir hásæti konúngs. Oc áðr menn tœki til dryckio, þá spyrr konúngr móður sína, ef hon sæi eða vissi nocqvorn hásca eða scaða yfir gnapa sínu ríki eða nolgaz með nocqvorum úfriði eða ótta, eða aðrir ágirntiz hans eign. Hon svarar: eigi sè ec þat, son minn, er ec vita þèr horva meinsamlega eþa þínu ríki, oc eigi oc þat er skelfi þína hamíngio; en þó sè ec micla sýn oc ágetlega: nú er borinn á þessum tíðum einn konúngs son í Noregi, oc á þessu ári, sá er hèr man uppfœþaz í þessu landi, oc siá man verða ágetligr maðr oc dýrlegr höfþíngi, oc eigi man hann scaða gera þínu ríki, helldr man hann þat margfalliga auca

[1]) *leiðrètt*; ráð, *A*, *eða máske* vitrligt ráð.

yðr til handa, oc síðan man hann aptr hverva til síns lanz, þá er hann er á úngum alldri, oc mun hann þá öþlaz ríki sitt, þat er hann er til borinn, ok mun hann konúngr vera oc skína með mikilli birti, oc mörgum mun hann hiálpare vera í norðrálfu hæimsins, en scamma stund mon hans ríki standa yfir Noregs velldi; beri mek nú abrot, því at ec man nú eigi framarr segia, oc ærit sagt er nú. Þessi Valldamarr var faðir Jarizleifs konúngs.

*Frá Ólafi Tryggvasyni oc Ástríði, móður hans.*

4. En er þau Ólafr oc Ástríðr hafðu verit II vetr með Hákoni gamla, þá bió hann ferþ þeirra vegsamlega, oc fær þau í hendr kaupmönnum þeim er fara ætluðu í Garþa austr; ætlaði hann at senda þau til Sigurðar, bróður Ástríðar; hann hafði mikinn sóma af Garþa konúngi. Hákon gamli fèck þeim alla luti, þá er þau þurftu til þessar ferþar, ok skilþiz eigi fyrr við, en þau comu á skip með góðu föruneyti. Oc síþan lètu þau í haf; ok í þeirri ferð comu at þeim ránsmenn, oc tócu fèit allt, en drápu suma mennina, oc leiddu sèrhvern brott ýmsa vega, oc síþan í ánauð oc þrelkan. Oc hèr skilþiz Ólafr við móþur sína, oc var hon síþan selld land af landi. Ólafr var oc selldr mansali sem aðrir hertecnir menn, oc þriá drotna átti hann í þessi herleiðíngu. Oc sá er fyrstr keypti hann hèt Clerkon, ok siá drap fóstra hans firir augum honum. Oc litlu síðarr selldi hann Ólaf þeim manni er Clercr hèt, oc tók firir hann hafr forkunnar góþan, oc var hann í þessa manuz

valdi nocqvora hríð. En sá guð er eigi vill leynaz láta dýrð oc veg sinna vina, svâ sem eigi má ljósit leynasc í myrcrinu; svâ gerþi hann þá mikinn veg þessa hins únga mannz, oc leysti hann af þessu úfrelsi, sem forþum leysti hann Jósep. Oc þessi maðr, er nú hafði valld yfir Ólafi, selldi hann þeim manni er Eres hèt, oc tók sá firir hann dyrlect clæði, þat er vèr cöllum vesl eða slagníng á vâra túngu. Oc þessi húsbóndi, er nú hefir keyptan hann, var fœþíngi í heiðnum löndum. Kona hans hèt Rechon[1], en son þeirra hèt Reas. Hann keypti oc með honum fóstbróður hans, er Þorgils hèt, son Þórólfs; hann var ellre en Ólafr. Þeir vâru VI vetr í þessu áfelli.

*Frá Ólafi.*

5. Oc nú í þenna tíma ricþi Valdamarr yfir Garðaríki; hann átti þá drotníng, er Allogía hèt, oc var hin vitrasta cona. Sigurðr, bróþir Ástríðar, hafði svâ mikinn metnað af konúngi, at hann eignaðiz af honum miclar eignir oc mikit lèn, oc setti hann yfir at skipa konúngs málum, oc heimta saman scylldir konúngs víða af hèruðum; hans boð scylldi oc yfir standa allu konúngs ríkinu. Þá var Ólafr IX vetra gamall, er þessi atburþr gerþiz, at Sigurþr móðurbróðir Olafs com í þænna stað, er Ólafr var firir; oc var bóndinn farinn til acrs með verkmönnum. Sigurþr reið þá í þorpit með micla sveit manna oc sœmilegu föruneyti. Þá var Ólafr í leic með

[1]) eða Rethon.

aðrum sveinum; hafði hann svâ micla ást fengit af sínum herra, at hann var ecki ánauðigr eþa þræll, helldr svâ sem œskilegr son, oc lèt hann honum engra luta vannt, þeirra er hann beiddiz; skemtaði hann sèr á hveriom degi þat er honum þótti bezt. Oc Ólafr fagnar honum vel oc með mikilli list; oc Sigurðr tók vel oc blíðliga hans orðum, oc mælti svâ: sè ec þat, góðr sveinn, at ecki hefir þú þat bragþ á þèr sem hèrlendskir menn, hvârki með yfirlitum eþa máli; nú seg mèr nafn þitt oc ætt oc fóstriörð. Hann svarar: Ólafr heiti ec, en Noregr er ættiörð mín; kyn mitt er konúnglict. Sigurðr mælti þá: hvert er nafn faður þíns, eða móður? Hann svarar: Tryggvi hèt faðir minn, en Ástríðr móþir. Sigurþr mælti: hvers dóttir var móþir þín? Hann svarar: hon var dóttir Eiríks af Oprustöðum, ríks mannz. Oc er Sigurðr heyrði þetta, steig hann af hestinum, oc fagnaði honum vel, oc minntiz við hann, oc segir honum at hann er móþurbróþir hans: oc víst er þetta fagnaðardagr, er við hafum hèr fundiz. Síþan spyrr Sigurþr at ferþum Ólafs oc þángatcomu hans, eða hversu lengi hann hafði þat áfelli þolt; oc hann sagþi honum ferþir sínar, svâ sem gengit hafþi. Ok eptir þat mælti Sigurþr: villt þú nú, frendi, at ec kaupa þek at lávarði þínum, oc sèr þú eigi lengr í ánauð hans eða þiónustu. Hann svarar: vel em ec nú cominn, segir hann, hiá því sem fyrr, en giarna villda ec leystr verþa hèðan, ef fóstbróþir minn væri leystr af þrældómi, oc fari hann með mèr íbrot. Sigurþr

qvað þat giarna gera vilia oc spara enga luti til. Oc síþan com Heres bóndi heim, oc fagnaði vel Sigurþi, þvíat hann scylldi heimta landscylldir af þeim hèruðum oc af hverio húsi, oc siá yfir at þat greiddiz allt vel. Oc at lyctum vacði Siggurþr til við bóndann, ef hann vildi selia sveinana við verði: man ec nú þegar reiða verþ firir. Hann svarar: selia man ec hinn ellra sveininn, sem ocr semz, en hinn ýngri er mèr úfalr, þvíat hann er bæði vitrari oc þó fríðari, oc honum ann ec oc myclu meira, oc mikit þycki mèr at láta hann; oc ecki sel ec hann nema við miclu verþi. Oc er Sigurþr heyrði þetta, þá spyrr hann, hvar comą scylldi; oc bóndinn fór þó æ undan; en Sigurþr leitaði þó eptir því frecara. En frá lyctum er at segia þessar caupstefnu, at sveinn hinn ellri var firir mörk gullz, en hinn ýngri var fyrir IX merkr gullz; oc þótti bónda þó meira at láta hann en hinn sveininn. Eptir þat fór Sigurþr ábrot með Ólaf frænda sinn, oc heim í Garþaríki. En þat voro lög í landi því, at eigi scylldi þar upfœþa konúngs son af útlendu kyni nè fiarrlægio ríki at úvitanda siálfum konúngi. Sigurþr hafði Ólaf heim með sèr til húsa sinna, oc varðveitti hann þar meþ ląunúngu oc fárra manna vitorði, oc þó í góðu yfirlæti; fór þá svâ fram um ríð. Svâ bar til einn dag at Ólafr geck frá herbergi sínu, oc með honum fóstbróðir hans, at úvitanda Sigurði, frændà hans; þeir fóro þó leynilega, oc gengu á eitt stræti. Oc þar kendi Ólafr firir sèr sinn

P 2

úvin, þann er drepit hafði firir VI vetrum fóstra hans firir augum honum, en selldi síþan siálvan hann í ánauð oc þreldóm; oc er hann sá hann, þá gerðiz hann ásýndar sem blóð, oc þrútinn miök; oc brá honum miöc við við þessa sýn; hvarf hann þá aptr scyndilega oc heim til herbergia sinna. Oc litlu síþarr com þar Sigurþr af torgi, oc er hann sá Ólaf frenda sinn þrútinn af reiði, þá spurði hann Ólaf, hvat honum væri; hann segir, hver sök til var, oc bað hann veita sèr sinn styrk til at hefna fóstra síns: þvílícan harm sem siá maðr gerði mèr oc margfallda scömm; vil ec nú hefna fóstrföþur míns. Sigurþr segir at hann vill þetta veita honum, rísa nú up, oc gánga með micla sveit manna, oc var Ólafr leiðsögumaðr til torgsins. Oc er Ólafr sèr þenna mann, taca þeir hann oc leiða utan borgar. Oc síþan gengr fram þessi hinn úngi sveinn Ólafr, oc ætlar nú at hefna fóstra síns; var honum þá fengin í hönd mikil breið öx, at höggva þenna mann. Ólafr var þá IX vetra gamall. Síþan reiðir Ólafr öxina, oc höggr á hálsinn oc af höfuðit; oc er þetta callat micit fregþar högg svâ úngs manns. Í þenna tíma voru í Garðaríki margir spámenn, þeir er vissu firir marga luti; þeir sagþu af sínum spádómi, at comnar voru í þetta land hamíngior nocqvors göfugs mannz oc þó úngs; oc alldri fyrr höföu þeir sèt nè eins mannz fylgior biartari nè fegre, oc sannuþu þeir þat með mörgum orðum, en eigi máttu þeir vita, hvar hann var. En svâ sögþo þeir mikils háttar vera hans hamíngio, at þat liós er yfir

henni skein, at þat dreifþiz um allt Garðaríki oc víða um austrhálfu heimsins. En fyrir því, sem sagt var fyrr, at Allogía drotníng var allra kvinna vitrost, þá þyckia henni slíkir lutir mikils verþir. Biðr hon nú konúng með fögrum orðum, at hann láti stefna þíng, at menn comi þángat af allum nálægiom hèruðum; segir hon at hon mon þá til coma oc tilscipan á hava: slíca sem mèr líkar. Nú gerir konúngr svâ. Kömr þar mikill fiölði manna. Nú býðr drotníng at slá scal mannhrínga af allum múginum: oc skal hverr standa hiá aðrum, svâ at ec mega líta hvers mannz ásiónu oc yfirbragð oc einkanlega augun, oc væntir mek at ec myna skynia, hverr stýrandi er þessi hamíngio, ef ec fæ litið siálldr augna hans; oc eigi man þá leynaz mega, hverr þessar náttúru er. Konúngr lýddi nú hennar rœþu; oc er þetta hit fiölmenna þíng stóð II daga, en drotníng geck firir hvern mann, oc hyggr at hvers mannz yfirbragþi, oc finnr engan þann mann, er henni þycki líklegr til at stýra svâ mátkum lutum; oc er staðit hafði II daga þíngit, oc com hinn þriði dagr, þá var enn aukat þíngit, sóttu þá þángat allir at hans boði; en elligar lá sök á. Var nú slegit allu fólki í mannhrínga; en þessi hin ágeta cona oc hin frægia drotníng hugði at hvers mannz álitum oc yfirbragþi. Kömr hon þar, er áleið stundina, sem fyrir henni stóð einn úngr sveinn með vândum clæðum, hann var í kufli, oc lagþr höttrinn aptr á herðar honum. Hon leit augu hans, oc skilði hon þegar at hann var þessar hinnar háleitu

giptu, oc leiðir hann firir konúng, oc gerþi þá bert firir allum, at þá man sá fundinn vera, er hon hafði lengi leitað. Var nú þessi sveinn í konúnglect valld tekinn. Gerþi hann þá kunnect konúngi oc drotníngu ætt sína oc tign, at hann var eigi þræll, helldr birtiz nú at hann var prýddr konúnglegre ætt. Síþan tók konúngr oc drotníng at fóstra Ólaf ástsamlega með mikilli blíðu; gœddu þau hann mörgum farsæligum lutum sem eiginlegan sinn son. Þessi sveinn vóx up í Görðum, snimma algerr at afli oc viti, oc þróaðiz lánga ríð sem alldr vísar til, svâ at á fám vetrum var hann lánct um fram sína iafnalldra í allum lutum þeim er prýða má góðan höfþíngia. Oc þegar er hann tók at sýna sek oc sína atgervi, þá var þat aþbragðlict á marga vega, oc á scammre stundu hafði hann numit allan riddarlegan hátt oc orrostulega speki, svâ sem þeir menn er kœnstir voro oc hraustatir at fylla þá sýslu. Nú fèck hann af slíku micla sœmð oc frama, fyrst af konúngi oc drotníngu oc út í frá allum aðrum, ríkum oc úríkum; vóx hann nú þar, oc þróaðiz hvârtveggia með vizku oc vetratali, oc allzconar atgerfi, er prýða má ágetan höfðíngia. Oc Valdamar konúngr setti hann brátt höfþíngia innan hirðar, oc at stiórna hermönnum þeim er vinna scyldu sœmð konúngi, oc margscyns fræmþarverk vann hann í Garðaríki, oc víða um austrhálfu, þó at hèr sè fátt talt. En er hann var XII vetra gamall, þá spyrr hann konúnginn, ef nocqvorar borgir eða hèruð, þau er legit hafi undir hans konúngdóm, oc hafi

heiðnir menn tekit af hans ríki, oc sæti þá yfir hans eign oc sóma. Konúngr svarar oc segir, at víst vâro nocqvorar borgir oc þorp, þau er hann hafði átt, oc aðrir hafðu heriat af hans eign oc lagt nú við sitt ríki. Ólafr mælti þá: gef mèr þá nocqvot lið til forræðis oc skip, oc vita ef ec mega aptr vinna þat ríki er látit er, þvíat ec em fúss at hèria oc beriaz við þá er yðr hava hneyct; vil ec þartil nióta yðarrar giptu oc siálfs míns[1] hamíngio; oc man vera annathvârt, at ec man fá drepit þá, eða þeir mano ábrot stöckva firir mínum styrk. Konúngr tóc þessu vel, oc fèck honum lið slíct er hann beiddiz. Nú sýndiz þat er fyrr var sagt, hversu kœnn hann var við allan riddaraskap oc herscaparbúnat; kunni hann oc svâ nœfrliga fylkíngum fara, sem hann hafði í því iafnan starfat[2]; ferr hann nú með þessu liði, oc átti margar orrostur, oc vann mikinn sigr á úvinum sínum; vann hann aptr allar borgir oc castala, þá er fyrr höfðu legit undir ríki Garða konúngs; oc margar þióðir útlendar ocaði hann undir ríki Valdamars konúngs. En at hausti hvarf hann aptr með fagrligum sigri oc fríðu herfángi; hafði hann þá margscyns gersimar í gulli oc ágetlegum pellum oc steinum dýrum, er hann fœrði konúngi oc drotníngu; oc var nú hans vegr ændrnýiaðr, oc fögnuðu honum allir með hinum mesta feginleik. Slícu hèllt hann fram á hverio sumre, at hann heriaði oc vann margscyns frægþarverk; en hann var á vetrum með Valldamar konúngi. Oc er hann skein í þvílíkri

[1]) *leiðrètt*; þins, *A.* [2]) *leiðrètt*; stafat, *A.*

dýrð, þá er svâ sagt, at eptir einn mikinn sigr sneri hann heim til Garða; þeir sigldu þá með svâ miclu drambi oc kurteisi, at þeir hafðu siglin yfir skipum sínum af dýrum pellum; oc svâ vâru tiölldin þeirra oc. En af slícu má marca ríkdóm þann, er hann hafði fengit af stórvirkiom þeim er hann vann í austrlöndum.

*Frá Ólafi konúngi.*

6. Svâ segia vitrir menn oc fróðir, at Ólafr hafi alldrigi blótat scurðgoð; oc hann setti iafnan hug sinn við því. En þó var hann vanr at fylgia konúngi til hofsins optlega, en alldrigi com hann inn; stóð hann þá úti hiá durum iafnan. Oc eitt sinn rœddi konúngr við hann, oc bað hann eigi þat gera, þvíat þat kann vera at guðin reiðiz þèr, oc týnir þú blóma œscu þinnar; villda ec giarna at þú lítillættir þek við þau, því at ec em ræddr um þek, at þau casti á þek ákafre reiði, svâ mikit sem þú hefir í hættu. Hann svarar: alldrigi hræðumk ek guð, þau er hvârki hava heyrn nè sýn nè vit, oc ec má skilia at þau hava enga grein, oc af því má ec marca, herra, hverrar nátúro þau ero, at mèr sýniz þú hvert sinn með þeckilegu yfirbragþi, at aftecnum þeim stundum er þú ert þar, oc þú fœrir þeim fórnir; en þá líz mèr þú iafnan með úgiptubragþi, er þú ert þar. Oc af því skil ec at guð þessi er þú göfgar manu myrkrunum stýra. Oc þat segia menn, þá er Ólafr var í þvílíkri sœmð, at til urðu nocqvorir menn, meirr öfundfullir en gœzkufullir, oc rœgþu hann við konúnginu; oc varþ hanu firir öfund margra göfugra

manna. Oc firir þá sök fór hann í brot; ok hafði þá mikinn her; hann heriaði þá á heiðnar þióðar oc fèck iafnan sigr; fór hann víða um Austrveg, oc braut undir sek fólkit. Oc er honom lciddiz þessi iðn, þá var comit at vetri; villdi hann þá snúa heim til Garða. Oc þá com ímóti þeim veðr beði mikit oc gagnstaðlict, oc hepti þat ferþ hans þessu sinni; snýr hann þá til Vindlandz meþ liði sínu, oc lagþi skipum sínum til lœgis.

*Frá Ólafi Tryggvasyni oc frú einni.*

7. Firir Vindlandi rèð þá Burizleifr konungr, mikill höfþíngi; hann átti IIII dœtr; oc átti eina síþan Ólafr, en aðra átti Sigvaldi iarl, þriðio átti Sveinn tiúguskegg Dana konúngr. En firir þeim hèruðum, er Ólafr var við cominn, rèð ríki dóttir konúngs, er Geira hèt; hon var drotníng; hon hafði mikit ríki, oc stýrði vel. Oc scamt íbrot frá hennar hafuðstað var Ólafr við cominn með lið sitt. Hon var rík, ok hèllt vegsamlega sinn eckioscap. Hon hafði með sèr einn forstióra dyggvan oc trúan er getti hænnar sœmðar oc virþíngar; þessi maðr hèt Dixin; hann fór á einum degi með nocqvorio scylldu örendi scamt frá því er skip Ólafs lágu, oc eptir þat hvarf hann heim aptr; oc spyrr drotníng, hvaðan hans qvâma væri, eþa hvat hann kunni segia. Hann svarar: ec com af sióarströndu, frú mín! Hvat frèttir þú eða sátt? segir hon. Heyrþú, drotníng, segir hann, ec scal segia þèr þá luti, drotníng, er þek girnir at vita, er bæði ero dásamligir oc tíguligir, oc nú firir scömmu sýndir verit.

Hverir ero þeir? segir hon. Dixin mælti: hèr ero comnir í þessa höfn hiá borg vârri mörg skip ágeta vel búin með allum herscapar búníngi, þau vâro oc búin með dýrlegum clæðum oc margsconar gersimum; en siálfir menninnir ero með miclum fríðleica; oc herclæddir hinum bezta herscrúða, oc sialldan munu slíkir menn sènir verþa hèr. En þó er sá einn er lánct er um fram aðra menn, ok at vísu hygg ec at þar leyniz konúngr; þvíat þessi maðr man vera mikils háttar oc dásamlegrar náttúru; hann er hár oc vel vaxinn, oc hefir gáfuglega ásiónu oc fríðan líkama; hann hefir oc augu svâ snör oc fögr at alldri fyrr sá ec mann svâ tíguligan; oc sannliga má ec yðr þat segia, at mèr lízc þessi vera umfram mannlegan hátt oc öðli er þessi maðr hefir; með honum hygg ec vera monu vit mikit oc ágeta speki, oc undir þessi henni gáfuglegu ásiónu ætla ec leynaz tign konúnglegrar vegsemðar. Oc ef eigi mislíkar yðr, frú mín, þá villda ec at þèr geiðit sem yðarri tign sómir; gángit ímóti honum sœmilega með allum mönnum yðrum, oc bióðit honum góða costi. En ec vænte at hann taki því vel, ef hann er kurteislega laðaðr með góðvilld. Oc þat heyrða ec hans menn mæla, at þeir myndu vilia vera hèr í vetr í þessu landi; oc þat er trú mín, at nocqvot gott mynni vèr ljóta af þessa mannz comu, ef vèr kinnum til geta. Oc ef þèr leitið þess mannz, drotníng, er stýri með yðr konúnglegre tign, oc vera megi forstjóre yðars ríkdóms oc laudvarnarmaðr, oc frelsi land yþart af mótgángi úvina þinna, hvern

megu þèr finna þessum tignara, þessum fríðara; oc alldri um alldr megu þèr finna þann er þvílíkr styrkr sè eða bríóst ímóte úvinum yðrum. En með sannu segi ec af þeirre speki er mèr er gefin, at ec hygg at alldri finnit þèr þvílícan mann í yðru landi, oc at síþr í yðru landi, þó at þèr leitit um alla þá menn er undir himni fœþaz, þá munt þú þenna einn velia af allum, því at þessum fær þú engan líkan. Drotníng mælti: ef yðr sýniz svâ sóma vârri tign, þá kom þú á hans fund, oc seg honum þau mín orð, at ec býð honum híngat með allu liði sínu. Dixin mælti: ef þèr gefit mèr leyfi til þess, frú, þá vil ec fara giarna. Oc síþan fór hann til skipanna með mörgum mönnum, oc at áheyranda höfþíngianum oc allum hinum flytr hann fram með mikilli snilld örendi drotníngar. Oc er Ólafr heyrði þetta boð, oc þar með vinsamleg orð, þá gladdiz hann, oc þackaði fögrum orþum hennar stórlæti. Oc er up vâro sett skipin Ólafs, oc er þeir vâro búnir, þá geck Ólafr með allum sínum mönnum til borgarennar. En drotníng reið ímóti honum með mikilli vegsemð, oc fagnaði Ólafi, er þá mátti at rèttu konúngr callasc, oc tóc hon við honum með allre blíðu, oc spyrr hann fyrst at nafni, oc síðan at því, með hverre tign hann er. Oc er hann hafði sagt henni þessa luti, sem hon hafði spurt, þá gaf drotníng hânum ágetlega höll oc þarmeð marga þjónustumenn, bæði karla oc konur, oc hallar búnað. Geira drotníng ríkði þar er Germanía heitir til vestrhálfu, oc er þángat bæði betri landzcostr oc svâ lýðrinn. Stóð nú

ríki þeirra með miclum blóma; en Ólafr bygþi þessa höll. Oc er com at iólum, þá var þar mikill firirbúnaðr, oc stefnt þángat miclu fjölmenni. Oc er sú veizla er búin, þá gekk drotníng með micla sveit á fund Ólafs, oc bauð honum at þau drycki bæði saman í þeirre höll er hon siölf drack með sinni hirð. Oc hann tók því með allre blíðu, oc var þessi veizla allfræg. Sátu þau í einu hásæti, Ólafr oc drotníng, oc drucku af ágetlegum kerum bæþi miöð oc vín. Höfþíngi Dixin talaði við þau ymsi með miclu viti; oc sagþi henni hversu mikill styrkr oc vegr henni væri, ef hon ætti þvílícan stiórnarmann firir sínu ríki. Hann mælti oc svâ við hann, at girnilegt væri at ráða því ríki, er stóð með svâ mörgum farsæligum lutum, oc þó þat mest vert, hversu úlík hon var aðrum konum í allri sinni atferþ oc nátúru oc allre sinni atgervi; oc þó at hvârtveggia leiti at siá firir sínum costi um alla verölldina, at eigi man fá meira sóma, en hann taki hana sèr til konu, en hon hann sèr til bónda. En er hann hafði þessu orða sáði sáit í brióst þeim, þá tók þat at rœtasc oc festasc með þeim báðum, oc sýndiz þeim girnilect oc líclect til mikillar hamíngio. Var þá síþan aukuð veizlan með allum hinum beztum föngum, oc stóð marga daga, oc iók miklu á at hinn síþarra dag var veitt með meira cappi en hinn fyrra, sem ríkum konúngi sómði, með allum hinum beztum föngum er tilfenguz.

*Frá Ólafi konúngi.*

8. Þar var Ólafr nú í miclum sóma oc yndi.

Oc eitthvert sinn er hann sat á tali við drotníngu, þá mælti hann. Ero nocqvorar þær borgir eða hèruð, eða tún, er undan hafi horvit yðru ríki, ok þèr ættið at hava, oc hafi ránsmenn eða víkíngar tekit ránglega af yðr? Drotníng svarar: hærra[1], ec má nefna firir yðr þær borgir er undan hava horfit vâro ríki, oc lengi hafum vèr þollt[2] þeirra ofsa. Eptir þat bió Ólafr her sinn or landi, ok hafþi mikit lið, oc sótti þær borgir er drotníng átti. Oc er hann sat um borgirnar, þá gerþi hann þeim II costi, hvârt er þeir villdi giallda scatta eptir rèttendum, oc veita þeim þiónustu oc slíca lýðni sem þeir vâru scylldir til, eða hann man sœkia borgirnar; oc er þá mæira vân at þá sè hvârki costr griða nè fiárins. Oc þeir er borgirnar hèlldu mælto miöc ímóti, oc qvoðuz eigi myndu up gevaz, oc helldr móti standa með allu megni. Síþan sat hann um borgirnar, oc barðiz, oc lèt bera at valslöngur oc margscyns brögð, þau er hans menn eru vanir, oc svâ geck hann at með ákefð, at engi varð viðstaða, oc braut hann borgirnar, oc geck hann up með liði sínu, oc tók hann úgrynni fiár. Oc allir, þeir er ímóti stóðu, oc drembilega svöruðo, vâro nú svívirðlega yfir comnir, oc allir drepnir þeir er eigi báðu miscunnar með lítillæti, oc náþi Ólafr þvílícum yfirgáng sem hann villdi. Ferr hann nú til annarrar borgar, oc settiz þar um, oc setti þeim þvílícan marcað sem hinum fyrrum. En þeir svöruðu: spurt hafum vèr, hversu ákafr yðarr ríkdómr er, eða hversu illa þeim gegnir, er

[1]) *annars siðvanalega skrifað* herra. [2]) *annars í A* þolt.

ímóti standa yðru boði; nú viliom vèr taca vitrligra ráð en vârir nágrannar, gefum oss up í yðart valld, oc leyfum yðr upgöngu í borgina. Oc Ólafr tók því með blíðu; luku þeir þá up borgarliðum, ok geck hann inn í borgina. Oc þá sömnuðuz saman allir höfþíngiar ok ríkmenni oc allr múgr, oc eggioðuz með mikilli reiði, oc báðu engan undan gánga, hvârt sem var meira háttar eþa minna. Oc er Ólafr finnr svikræði þessi, at úvígr her kömr at þeim allum megin, þá víkr hann einshversstaþar út á borgarvegginn, oc kallar hátt á sína fèlaga, er stóðu við borgarvegginn: eitt hiálpráð sè ec nú firir oss liggia, segir hann, stíga ovan firir borgarvegginn, oc man ec fyrst til ráða, oc taca síþan við yþr, þá er þèr laupit ovan, oc man ecki til saca, því at blaut leira er undir. Oc síðan lióp hann ovan, oc reyndiz sem hann sagþi, oc eggiar þá nú eptir at laupa, þó at þeim þycki hátt. Nú gerðu þeir svâ, liópu ovan firir vegginn, oc með hans tœnaði[1] hèllduz þeir allir. Sitia nú allir saman um borgina oc veita atgöngu svâ harða, at þeir brióta á stór hlið, oc gengu síþan up allir; scorti þá eigi harðan bardaga. Oc er þá gert miscunnarlaust við þá, oc minnasc nú sárlega sinna meingerþa, oc drápu nú hvert mannz barn, en rentu allu fè, oc brutu borgina, oc at lyctum brendu þeir hana. Oc með þessum sigri ferr Ólafr aptr oc fœrði drotníngu gull oc silfr oc ágeta gripi. Þat hava menn firir satt at þessi hafi verit Jómsborg, er Ólafr sat um, oc menn

[1]) *af tjá; hèrumbil sama og* fulltingi.

villdu svíkia hann, oc var hann byrgþr í borginni með LX manna.

*Frá Ólafi konúngi.*

9. Þá er Ólafr hafði verit III vetr í Vindlandi, gerðuz þau tíþendi, at drotníng fær bráðan bana. Oc þat hagaði Ólafi til mikils harms, svâ at hann bar þat með allmiclu stríði. En eptir þessi tiðendi orðin svâ hörmulega, þá unði hann eigi því ríki. En svâ ágetlega hafði hann stýrt ríkinu, at allir landzmenn unnu honum hugástum; en þó eigi at síðr þá má hann eigi af þessu hyggia; bió hann þá lið sitt or landi; oc vænti hann at þá myndi hann skiótara af hyggia harmi þeim, er hann hafþi fengit, ætlaði hann at fara í Rúsíam. En er hann com í Danmörk, þá gengu þeir af skipum sínum, oc á land up; oc tócu strandhögg, sem siþr er til, oc tócu mikit fè, oc rácu til strandar. Landzmenn sömnuðuz saman, oc sóttu eptir þeim með miclu liði. Oc er þeir sá eptir sèr sœkia mikinn fjölða manna með miclum viðbúníngi, þá flýðu þeir til skipa sinna. En firir því at þeir hafðu sótt lánct á land up, en nú var löng leið til skipanna, en nú úvinir þeirra at comnir, svâ at ecki var ímilli þeirra; þá vâro þeir comnir í einn lítinn scóg, oc var þat lítil hulþa til þess at hiálpa sèr við. Gengu nú þángat sem hellzt mátti nocqvorn scugga yfir þá bera af scóginum. Þá mælti Ólafr: ec veit, segir hann, at sá er máttugr guð er himnunum stýrir, oc þat hefir ec heyrt, at þat sigrmarc á hann er mikill craptr er með, oc er þat callat kross. Köllum nú á hann siálvan, at hann leysi oss, oc

föllum allir til iarðar, oc lítillætum oss siálfir! Tökum nú II kvistu, oc leggiom í kross yfir oss; gerit nú svâ allir, sem þèr sèt mek gera; oc svâ gerðu þeir, lögþuz niðr, oc tócu II kvistu, oc lögþu yfir sek í mynd crossins. En úvinir þeirra comu nú at scóginum með úfriði oc calli, oc hugþuz mundu taca þá höndum, því at þeir sá þá litlu áðr. Oc nú lióþu þeir á þá, oc tráðu undir fótum sèr, oc fundu þá eigi, svâ scýldi[1] þeim crossmarkit með fulltíngi drottins Jesú cristz at þeir urðu eigi sènir af sínum úvinum, oc vâro nær comnir áðr í hendr þeim; hurfu þeir þá aptr meþ mikilli undran. Oc er Ólafr sá þat oc hans menn, þá laupa þeir up, oc ætluðu þá til skipa sinna. Oc þetta siá þá úvinir þeirra, oc sœkia nú eptir aðru sinni. Oc þá var ecki undanbragþit annat, en þeir lagþuz niðr á slèttum velli. Oc þó eigi at síþr vâro þeir hólpnir af guðligu fulltíngi, þvíat þá varð svâ dásamlegr lutr er þeir lágu á slèttum velli, þá sá þeir þá eigi, er leita fóro; oc rannsökuþu þeir, sem þeir þóttuz bezt mega, oc fundu þó eigi; fóru nú enn aptr með engum sóma nè sigri. Oc leysti svâ hinn helgi cross Ólaf frá háscanum á slèttum velli sem í þyckum scógi. Fór Ólafr síþan til skipa sinna, oc þöckuðu guði undanqvomu sína.

*Frá draum Ólafs konúngs.*

10. Eptir þetta hèllt Ólafr brot skipum sínum, oc austr í Garðavelldi. Oc tók konúngr oc drotníng við honum ágeta vel; ok dvalþiz hann

[1]) *eða* scýlldi, *A.*

þar um vetrinn. Oc eitt sinni bar þá firir hann merkilega sýn: honum sýndiz einn mikill steinn, oc þóttiz hann gánga lánct up eptir hânum, allt til þess er hann com at ovanverþum; hânum þótti þá sem hann væri uphafiðr í loptið yfir scýin; oc er hann hóf up augu sín, þá sá hann ágetliga staði fagra, oc biarta menn er bygþu í þeim stöðum; þar kendi hann oc sœtan hilm oc allz scógar fagra blóma, oc meiri dýrð þótti honum þar vera, en hann mætti hug sínum til coma frá at segia. Þá heyrði hann rödd mæla við sek: heyr þú, efni góðs mannz, því at alldrigi göfgaþir þú guðin, oc önga þiónustu veittir þú þeim; helldr svívirðir þú þau, oc firir því munu margfalldaz verk þín til góðra luta oc ávaxtsamlegra; en þó scortir þek enn mikit at þú megir vera í þessum stöðum, eða þú sèr maclegr at liva hèr at eilífu, með því er þú cannt eigi enn scapara þinn, oc þú veizt eigi hverr sannr guð er. Oc er hann hafði heyrt þessa luti, þá hræddiz hann ácafliga, oc mælti svâ: hverr ert þú, drottinn, at ec trúa á. Röddin svarar: far þú til Girclandz, oc man þèr þar cunnict gert nafns drottins, guðs þíns; oc ef þú varðveitir hans boðorð, þá mant þú hava æilíft líf oc sælu; oc þá er þú trúir rètliga, þá mant þú marga aðra snúa frá villu oc til hiálpar; því at guð hefir þek sett til at snúa honum til handa margar þióðir. Oc er hann hafði þessa luti heyrða oc sèt, þá ætlaði hann at stíga niðr af steininum; oc er hann fór ovan, þá sá hann ógorliga staði, fulla af log-

um oc qvölum, óc þar með heyrði hann aumligan grát oc margsconar ógorliga luti; oc þar þóttiz hann kenna mænn marga, þá er trúat höfþu á scurþguð, beði vini oc höfþíngia; oc þat skilþi hann at siá qvöl beið búin Valdamars konúngs oc drotníngar. Honum fèck þá mikils, svâ at þá er hann vacnaði, flaut hann allr í tárum, oc vacnaði með miclum ótta. Eptir þat bað Ólafr lið sitt búaz til brautferþar: oc vil ec nú sigla til Girklandz. Oc svâ gerir hann, oc byriar honum vel, oc com hann til Girclandz, oc hitti þar dýrlega kennimænn oc vel trúaða, er honum kendu nafn drottins Jesú cristz. Varð hann nú lærþr með þeirre trú sem fyrr var honum boðat í svefni. Síþan hitti hann ágetan byscup einn, oc bað hann veita sèr helga skírn, þá sem hann hafði lengi til girnz, oc mætti hann vera í samlagi cristinna manna; oc síþan var hann primsignaðr. Oc síþan bað hann byscup fara með sèr í Rúsíam, oc boðaði þar nafn guðs heiðnum þióðum. Byscup qvaðz heita myndu ferðinni, ef hann vildi fara siálfr, þvíat þá mun konúngr siálfr síþr ímóte standa oc aðrir stórhöfþíngiar, helldr veite hann til sinn styrk, at ávöxtr mætti at verþa oc guðs cristni magnaðiz. Síþan ferr Ólafr íbrot oc aptr í Rúsíam, oc var nú sem fyrr fagnat honum vel. Dvelsc hann nú þar um ríð; hann rœþir opt firir konúngi oc drotníngu, at þau geri eptir því sem þeim hœfir, oc miclu er fegri siþr, at trúa á sannan guð oc scapara sinn, er gerði himin oc iörð oc alla luti, er þeim fylgir. Hann segir oc, hversu illa samir þeim mönnum,

er ríkir eru, at villasc í svâ miclum myrcrum, at trúa þat guð, er enga hiálp má veita, oc leggia á þat alla stund oc starf: megn þèr oc skilia af yðarri speki, at þetta er satt er vèr bióðum. Oc alldri scal ec af láta at boða yðr sanna trú oc guðs orð, at þèr mettið ávöxt geva almátkum guði. En þó at konúngr stœþi lengi við oc mælti ímóti, at láta sið sinn oc átrúnað guðanna, þá fèck hann þó skilit með guðs miscun, at mikit skilþi siþinn, þann er hann hafþi, eþa siá er Ólafr boðaði. Var hann oc opt fagrliga áminntr, at þat var blótvilla oc hindrvitni, er þeir höfðu áðr með farit, en cristnir menn trúðu betr oc fagrlegarr. Oc með heilsamlegri rœþu drotníngar, er hon gaf til þessa lutar at fulltíngiandi guðs miscunn, þá iátti konúngr oc allir menn hans at taca heilaga skírn oc rètta trú, oc varþ þar allt fólc cristit. Oc er þetta var gört, þá bió Ólafr ferð sína brot þaðan, oc geck nú mikil frægð af Ólafi, hvar sem hann fór, eigi at eins í Garða veldi, helldr oc allt í norðrálfu heimsins. Oc þá com frægþ Ólafs allt norðr í Noregs velldi, oc ágetlegt verk er hann vann á hveriem degi.

*Frá Ólafi konúngi.*

11. Þess er getit at Ólafr heyrði sögur frá einum ágetligum manni, er var í eyio nocqvorre er Syllíngar heitir; þat er scamt frá Írlandi. Siá var prýddr gipt mikilli oc spáleiks anda almáttugs guðs. Þángat hèllt Ólafr skipum sínum til þeirrar eyiar; hann hafþi þá VI skip. En þessi maðr, er firir var í eynni, vissi af sinni speoð

þángatqvomu þeirra; hann biðr nú alla múnca, þá er þar voro, scrýðáz ágetliga, oc gánga til strandar með allum helgum dómum. Þar vâro margir múnkar oc clerkar oc guðs þiónar, oc vâru allir scrýddir dýrlegum kápum, oc var þetta snimma um morgun. Oc í þann tíma geck Ólafr á land, oc sá fara mikit lið af landi ovan, oc skein morginsólin á þau hin dýru pell. Oc er Ólafr sá at friðmenn vâru, þá gengu þeir ímóti, skipamenninir. Oc er þeir funduz, fagnaði Ólafr þeim vel. En ábóte þessi var firirmaðr eyiarinnar. Nú fagnuðu hvârir aðrum með blíðu, oc síþan mælti ábóte: firir scammu var mèr sýnt hverr þú ert, eða hvílíkr þú mant verþa; oc til þess com ec at kenna þèr rètta trú oc boða þèr nafn drottins Jesú cristz, oc skírn þá er þú mant af fá alla hiálp, oc allir þeir er rètt trúa firir þitt boð. Síþan tóc hann at boða honum guðs orð, oc sagþi frá miscunnarverkum almáttugs guðs. Oc síþan skírþe hann Ólaf oc allt föruneyti hans, oc helgaði þá alla í heilagri skírn. En síþan vâru þeir þar í þeirre eyio, til þess er þeir lögþu[1] niðr skírnarclæþin, oc styrcðusc þeir þá hvern í helgum kenníngum, oc nam Ólafr þar marga luti, oc firir hans bœnir öðlaðiz Ólafr af guði, at hann yrði lýsari margra anda. Síþan gaf Ólafr sínum mönnum leyfi at þeir fœri í kaupferþir þángat sem þeir villdi, oc kœmi þó til Ænglandz fyrr en hann fœri þaþan. Oc at gefnu þessu leyfi fóru þeir í kaupferðir; en Ólafr hèllt þá skipum sínum til Englands. Oc er hann com þar, þá

[1]) *viðbætt.*

heyrði hann sagt at jarl sá rèð firir Norðimbralandi, er Sigurðr hèt. Oc þángat hèllt Ólafr, oc er hann com af hafi, siglir hann eptir firði nocqvorum með mikilli list. Jarlinn var þá oc cominn or hernaði, oc lá í firðinum firir með III skipum, oc sá þeir nú þessi skip hin scrautligu renna forkunnar vel, oc þar á fríða menn oc búna æincar vel; oc einn mann sá þeir miclu meira oc fríðara en fyrr hefði þeir sèt; sá var í purpura clæðum, oc stýrði því skipi er fegrst var, oc sóttu þeir nú inn í landit, oc lètu renna skipin á viðum inn í höfnina, er laðit var seglunum, oc sœkia nú vascliga til hafnar; oc síþan tiallda þeir oc búaz um. Jarlinn undraðiz miök þeirra vascleik, oc spyrr þenna hinn virðilega mann, hverr hann sè, eða hvaðan hann væri cominn. Hann sagði, at hann hèt Áli hinn auðgi, oc var hann caupmaðr: en vèr erum comnir allir af Garðaríki. Oc eigi var þeirra rœþa löng, áðr en þeir gerþu fèlag sitt, oc lagþu saman skip oc lið; oc ætla nú at heria á víkínga oc ránsmenn oc vândar þióðir er víða höfþu undir sek lagt stórar eignir. Oc festu þeir þetta sín ímilli, svâ at af allu megni oc crapti scylldu þeir þá undir sek brióta.

*Frá Hákoni oc Ála.*

12. Í þann tíma er þeir Ólafr Tryggvason gerþu fèlag sitt, oc Sigurðr jarl, þá rèð firir Saxlandi oc Peitulandi[1] Otta keisari; hann er callaðr Otta hinn rauði. Jarlar hans tveir eru nefnd-

---

[1]) *líklega rángt skrifað fyri* Þýzkalandi *eðr ok* Púlslandi.

ir, oc hèt annar Urguþiótr[1], en annar Brímisskiarr[2]; þeir vâro miclir höfþíngiar. Otta keisari strengþi þess heit, at hann scylldi cristnat fá Danmörk, áðr III vetr væri liðnir. En þá rèð Haralldr konúngr Gormsson firir Danmörku. En Hákon jarl Sigurðarson var scylldr til at fara til liðs við Haralld konúng Gormsson, ef hann ætti land sitt at veria, síþan hann hafði svikit Gullharalld; oc var þat í sáttmáli. Nú býr Otta keisari her sinn til Danmerkr. Oc þetta spyrr Haralldr konúngr, oc sendir menn til Noregs til Hákonar jarls, oc biðr Hákon coma til liðs við (sek), oc Hákon bregþr við skiótt oc hefir C skipa, oc kömr til Danmerkr, oc finnaz þeir Haralldr konúngr, oc bera saman ráð sín, oc kömr þat ásamt með þeim at samna liði ímóti keisara, oc fara til mótz við hann. Oc slær þar í bardaga, oc fèll mart af hvârumtveggiom. Oc þar kömr at keisari læggr á flótta með sitt lið. Oc er hann com til skipa sinna, þá hafþi hann spiót í hendi gullrekit, alblóðuct allt; hann stíngr í sióinn oc nefndi guð í vitni oc mælti svâ: annat sinn er ec köm til Danmerkr, scal vera annathvârt at ec scal fá cristnat Danmörk eða láta hèr líf mitt. Nú fór hann heim til Saxlandz. En þeir Haralldr konúngr oc Hákon jarl lètu gera virki mikit, er callat er Danavirki; þat var gert milli Slesmunna oc Ægisdura um þvert landit; fór þá Hákon jarl til Noregs. Otta keisari samnar nú saman miclum her á þessum III

[1]) *Annars nefnist hann* Urguþrjótr. [2]) *þessi jarl kallast annarstaðar* Brimilskjarr.

vetrum; ferr hann síþan til Danmerkr, oc hefir nú miclu meira lið en fyrr; nú fara oc jarlar hans með honum. Nú spyrr Haralldr konúngr þessi tiþindi, oc sendir nú menn til Noregs til Hákonar jarls, oc biðr hann liðs. Hákon jarl skipaz við skiótt, oc þyckir nauðsyn á vera; ferr hann til Danmerkr, oc hefir nú mikit lið. Jarlinn ferr nú á fund Haralld̄s konúngs meþ XII mann, oc varð konúngr feginn; skal nú senda eptir liði þínu, segir konúngr. Jarlinn svarar: vèr scolum mælaz við orð nocqvor áðr en þetta sè atgert; mek átt þú heimilan til ráðagerþar með þèr oc fylgþar; oc þessa XII menn sem nú ero hèr meþ mèr, því at vèr hafum cómit áðr um sinn með lið, sem vèr hafum viðmællsc. Satt er þat, segir konúngr, en þess vænti ec, segir konúngr, at þú látir mèr þetta lið at gagni verþa. Hákon jarl svarar: þess em ec eigi ráðanði um menn mína, þvíat þeir þyckiaz þess scylldir at veria mek oc mitt land, en eigi þyckiaz þeir þess scylldir at veria þitt land. Hvat scal ec til vinna, segir konúngr, við þęk eþa menn þína, at þèr veitið mèr lið. Einn er lutr til þess, segir jarlinn: ef þú gefr up scattana alla af Noregi. Oc ef þú villt þat eigi, þá mun þetta allt heim fara, er nú er hèr comit, nema ec oc þessir XII menn er nú ero hèr. Þat er satt at segia, svarar konúngr, at alla menn byrgir þú inni firir vizmuna sakir oc ráðagerþar, þvíat nú eru mèr II vandræða costir gervir. Lít nú á, segir jarl, en svâ sýniz sem þèr myni scattrinn coma at öngu halldi af Noregi, ef þú ert hèr drepinn í Dan-

mörk. Skiótt scal oc kiósa, segir konúngr, þar sem nú er comit, at þú veit mèr lið, oc þigg þat er þú beiðiz. Vâru þá menn sendir eptir allu liði jarls. Eiga þeir at þessu handsöl. Fara síþan ímóti keisara með allan herinn; konúngr ferr til Ægisdura með sitt lið; en Hákon jarl með sinn her til Slesmunna. Otta keisari spyrr at Hákon jarl er cominn í Danmörk, oc ætlar at beriast í móti honum. Sendir þá keisari jarla sína Urguþiót oc Brímisskiar til Noregs; þeir hafðu XII kugga laðna af mönnum oc vâpnum, oc scylldu þeir cristna Noreg, meþan Hákon jarl væri íbrotu. Nú verþr fyrst at segia frá keisara oc her hans: þeir gánga á land up, oc siá Danavirki, oc þótti þeim eigi auðvellict at sœkia. Oc nú finnaz þeir Otta keisari oc Haralldr konúngr, slær þar þegar í bardaga; þeir beriast á skipum, oc fellr mart manna af Haralldi konúngi; oc af því helldr hann frá. Eptir þat leggr keisari að landi aðrum megin til Slesmunna, oc var þar firir Hákon jarl; tecz oc þar atlaga, oc fellr keisara þýngra, oc lætr hann þar mart lið; oc leggr hann þá frá, oc at landi einshvers staðar. Oc þá mœtir hann þar hermönnum, oc hafði þeir VI skip, oc öll stór. Keisari spurði, hverr firir þeim rèði; sá qvaðzk heita Áli. Keisari spurði, hvârt hann væri cristinn maðr eða eigi; hann lèzc cristinn vera, oc hafa cristni tekit á Írlandi. Oc síþan bauðs Ólafr til liðveizlu við keisara; en keisari qvaðzk þat giarna vilia: því at mèr lízk giptusamliga á þek. Ferr hann nú í lið með keisara; Ólafr hefir CCC manna. Keis-

ari oc Ólafr oc aðrir höfþíngiar gera nú ráð sín; því at þat vandreði com þeim at höndum, at herrinn var vistalauss, en fènaðr allr íbrot rekinn, oc fengu þeir firir því engi strandhögg. Þótti þeim þá tvenn vandræði á vera, annathvârt at fara brot við svâbúit eða drepa reiðskióta sína til vista sèr, oc þótti þeim hvârtveggi illr. Oc þó vill keisari firir öngan mun frá hverva. Er hann nú miök áhyggiofullr um sín vandqvæþi; lèt hann þá calla til sín Ála; oc er hann kömr, fagnar keisari honum vel, oc bað hann geva ráð til þess er vel gegndi um þetta mál, at þeir þyrfti eigi við svâ búit frá at hverva, oc þeir eti eigi ross sín eða annur úæti. Ali svarar: guð sè ráð firir, en þann metnuð hefi ec á ráðagerþum mínum, at ec vil at þat sè haft er ec legg til; oc er þat mitt ráð fyrst, at eta engi úæti, hvat sem við liggr. Því vil ec iáta, segir keisari, oc því aðro at þú sèr firir. Áli mælti þá: vèr scalum heita á almáttkan guð, at hann gefi oss sigr; þat ráð vil ec oc tilleggia, at allr herrinn fari í scóg í dag, oc scal hverr maþr fá sèr byrði viðar, oc bera at virkinu, oc siám þá hvat ígeriz. Nú var svâ gert, sem hann mælti firir. Díki var gert firir utan virkit, X faðma breitt oc svâ diúpt; en kastalar settir yfir hliðin. En er þeir hafþu viðinn atdregit virkinu, þá gerþu þeir brúar stórar yfir díkin; síþan tóku þeir vatnkerölld sín, oc báru í lokar spánu oc tiöru, oc síþan lögþu þeir elld í, oc lètu síþan kerölldin renna at virkinu meþ þessum umbúníngi. Sunnanvindr var á hvass oc þurt veðr; tók þá eldrinn at brenna

kerölldin oc lausa viðinn, oc síþan hióp í virkit, oc brann þá hvat af aðru, allt þartil er up var brunnit á þeirri samu nótt allt Danavirki. En er mornaði þá gerþi á regn mikit, svâ at menn mundu varla slíct vatnfall comit hava or lopti, oc af því slocnaði allr ælldrinn; máttu menn þá þegar fara þar yfir; en þar var ecki miöc líclect, ef eigi hefði regnit comit. Oc er Haralldr konúngr oc Hákon jarl vita þetta, þá slær ótta miclum í scap þeim; flýia þeir undan oc til skipa sinna. En þeir Otta keisari oc Áli fara yfir brúarnar, oc hafþu þeir þá fastat IIII dœgr til sigrs sèr; en nú fengu þeir œrnar vistir; oc þótti keisara vel geviz hava ráð Ála. Oc þá spyrr keisari, hvaþan hann væri ættaðr. Hann svarar: nú scal eigi dyliaz lengr; ec heiti Ólafr, oc em ec son Tryggva-konúngs af Noregi. Nú sóttu þeir keisari oc Ólafr eptir þeim Haralldi konúngi oc Hákoni jarli, oc áttu þeir þá III bardaga, oc varð þar mikit mannfall, oc flýðu þeir Haralldr konúngr oc Hákon jarl í hvert sinn; en þeir keisari oc Ólafr sóttu eptir um landit. Oc hvar sem þeir fóru, boðuðu þeir allum mönnum at cristnasc, oc scylldi þá allir þeirra lutir í friði. Nú kusu þat flestir sem betr gegndi, oc tócu þeir trú, en þeir er eigi villdu þat, þá vâro þeir drepnir. Vinna þeir nú mikinn sigr oc fagran. þeir hallda undan Hákon jarl oc Haralldr konúngr, oc siá nú at þeirra lutr var æ minni oc minni, svâ sem fólkit cristnaðiz. Oc hava þeir nú stefnu sín ímilli; þyckir þeim nú þröngva at sèr miök, en þeir flýðir frá

skipunum. Oc þat staðfestiz með þeim, at senda menn til keisarans, oc beiddu sèr griða, oc taca þá eigi firir at cristnaz. Nú fara sendimenn til keisara, oc bera up örendin; oc tekr keisari því vel, oc vill hann at þeir eigi þíng allir saman. Fara sendimenn aptr, oc segia þeim svâ búit. Oc nú comu þeir allir á eitt þíng, oc hefir þat fiölmennast verit í Danmörk; þá stóð up á þínginu byscup sá er var með keisara, er Poppa hèt; hann talði trú firir þeim vel oc lengi. Haralldr konúngr mælti, er hann hafði heyrða tölluna: ecki er þat at ætla, at ec muna skipaz við tölu þína æina saman, nema ec siá þat at þessi trú fylgi meire craptr, er þèr boðit, en hinni er vèr höfum áðr. Byscup mælti þá: þat scal oc eigi at scorta, at reyna scal trú vâra; nú scal taca iárn oc gera glóanda, oc man ec bera þat í lóva mèr IX fet, en ef alzvalld*andi guð*[1] lífir mèr við bruna, svâ at hönd mín sè heil, þá scal lið y*ðvart allt*[1] trú taca. Oc nú iáta þessu beði konúngr oc jarl oc allir þeirra menn. Síþan gengr byscup með iárnit, oc brann hann eigi; svâ lífði guð honum. Oc er Haralldr konúngr sèr þetta, þá tecr hann trú oc allir hans menn, því at allum þótti mikils um vert þetta tácn, oc var þá skírðr allr Dana herr. En Hákon jarl var allt tregari til trúarennar, en þótti þó harðr á annat borð, oc geck þó til um síðir, oc tók skírn. Oc þegar er þat var gert, bað jarlinn sèr orlofs til heimferþar, oc þat þá hann af keisara, oc skilði hann þat til, at jarlinn scylldi cristni

[1]) *efra horn blaðsins er hèr afrifið.*

hallda í Noregi, oc bióða aðrum trúna; ella scal hann upgeva ríkit. Nú ferr hann íbrot; oc um farinn veg kömr hann við Gauðland, oc heriar þar. En hann sendir aptr presta þá, er keisari hafði sendt með honum. Jarlinn spyrr þá til eins hofs er í vâro C guða, oc var þat helgat þór; þángat ferr jarlinn oc brýtr hofit, en tecr fèit allt. Hann rænir þá víða um landit, oc fèck mikit fè, oc fór til skipa sinna. Óttarr iarl, er þá rèð Gautlandi, bregðr skiótt við, oc ferr at iarli, oc náir honum eigi, því at jarlinn var þá íbrottu. Óttarr jarl qveþr þá þíngs, oc gerir Hákon jarl útlagþan, oc scylldi hann heita vargr í veum, er hann hafði brotit hit œzta hof í Gautlandi. Oc er þetta var tíþinda, þá spurðu *þeir* jarlarnir Urguþiótr oc Brimisskiar tiltekior Hákonar jarls, oc þóttu eigi vera fríðar; fara þeir þá brot af Noregi með skip sín öll oc annur VIII, oc vâro þau öll laðin af mönnum oc fè, oc villdu eigi bíða jarlsins. En er Hákon jarl spurði, hvat jarlarnir höfðu athafz, at þeir hafðu cristnat alla Víkina, oc varð hann þessu reiðr miöc, sendir hann þá orð um Víkina, at engum scyli lýða á þessum sið at hallda; oc er þat spurðiz, flýðu þeir undan, er eigi villdu cristninni neita; en sumir sneruz til heiðni. Jarlinn sneriz oc til heiðni; oc jarlinn lèt jafnmörg hof reisa, sem brotin höfðu verit. Oc sitr hann nú í friði, oc ræðr hann nú einn Noregi allúm, oc gelldr enga scatta Haralldi konúngi, oc í rèuan er miök þeirra vinfengi. Keisari oc Haralldr konúngr oc Ólafr fara nú allir saman til einnar veizlu.

Oc áðr þeir skilþiz, heitr Haralldr konúngr, at allir hans menn scolu trú hallda, oc þat efndi hann; oc síþan skiptuz þeir giöfum við. Oc eptir þat ferr keisari heim til ríkis síns með biörtum sigri. Oc þá bauð hann Ólafi Tryggvasyni at fara með sèr; en hann vill þá helldr fara í annan stað oc heria á heiðnar þjóðir, oc skilþuz þeir með vináttu.

*Frá Ólafi Tryggvasyni.*

13. Síþan fóru þeir Ólafr með liði sínu, oc heria bæði á Breta oc Íra oc Scota, oc herioðu á heiðnar þióþir, *en lètu*[1] cristna menn fara í friði. En sá var kaupmáli með þeim Ólafi *konúngi*[1] oc Sigurði jarli, at hverr Ólafs maðr scylldi taca II luti, en jarls menn einn; en Ólafr siálfr III luti, en jarl oc einn. Oc var firir þá sök svâ skipt, at Ólafr siálfr at uphafi oc hans menn afluðu meira *l*utskiptis firir sakir harðfengi oc allrar framgöngu. Þat barsc at, þá er þeir vâru í Írlandi, oc hafþu tekit herfáng, er þeir áttu opt at hrósa, þá ráku þeir til skipa útallegar hiarðir, bæði naut oc sauði oc geitr, oc æiluðu at búa þat til vista sèr, oc ráku þat til skipa. Þá geck at Ólafi æinn fátœkr búandkarl, oc herfilega búinn, oc bað hann geva sèr hiörð sína, þá er hann kendi sèr, oc reca aptr til húsa sinna. Ólafr svarar: eigi má ec veita þèr þat er þú biðr, því at ecki fær þú skilt hjörð þína af svâ miclum fiölþa, þvíat þú mant hvârki mega kenna nè saman samna, oc engi maðr man sá finnasc, er lyctir geri á því. Bóndi mælti þá: gerit þá misc-

[1]) *hèr vantar aptr orð á því afrifna blaðshorni.*

unn við mek, at ec fá þat af fè mínu, er skilit fær mèr til handa hundr minn. Þá mælti Ólafr: ef þú átt svâ spacan hund sem þú segir, at hann fær skilit frá sauði þína oc naut, oc merct þat frá annarre hiörð með kunnáttu sinni oc speki, þá vil ec veita þèr bœn þína, en hygg at þú, at hundr þinn geri oss enga dvöl. En at bíóðanda bónda, þá leypr fram hundrinn í útalliga flocka hiarðarennar, oc ransacaði; oc eigi á hálfri stundu dagsins hafþi hann fráskilit allt fè bóndans, oc rac ábrot frá aðru fè. Þetta undraðiz Ólafr miök oc allir hans menn, leitar hann nú eptir, hverrar náttúru eða vitrleics þessi hundr væri. Bóndinn segir at hann var lícari spökum hirðum en scynlausum hundum, því at hann hefir mannz mannvit. Ólafr gerþi sèr þá mikit um, oc þótti, sem var, ágeta gripr vera hundrinn; oc bað bóndann ef hann villdi geva honum hundinn. Oc bóndinn gaf honum hundinn þegar; en Ólafr gaf bónda digran gullríng, oc þar á ovan þat er enn var meira vert, vingan sína; oc skilðuz þeir nú vinir. Þessi hundr heitir Vígi, oc er þat allra manna mál, at eigi hafi meiri gersemi verit þescyns, en í þessum hundi.

*Frá Ólafi Tryggvasyni oc Alpin kappa.*

14. Þat er sagt þá er Ólafr com í England, at þar var kappi sá firir er Alpin hèt; hann var allra manna stercastr, hólmgöngumaþr mikill; hann átti micla eign, þó at hann hefþi rángliga fengit; hann var drambsmaðr mikill um alla luti, en fríþr sýnum. Í Englandi var ein gáfug eckia fyrst firir frænda sakir, hon var scörúngr siálfr;

hon hèt Gyða, oc átti hon mikit ríki; þessar konu bað kappinn Alpin. En hon svarar á þá lund, at hon vill þíngs láta qveþia: oc man ec þar kiósa þann er ec vil mèr til mannz velia. Oc kappi veitti þessu samþycki. Þetta spyria þeir Ólafr oc víkíngarnir, hvat drotníngin hafði um mællt við kappann; oc biogguz margir af þeim til þíngs, oc prýdduz ágetligum clæðum, oc væntu at þeir myndu kosnir vera; höfþu oc margir miök reynt sek áðr í mannhættum. Ólafr fór, oc biósc með þeim hætti at hann var í loðkápu, oc hulði hafuð sitt með síðum hætti; fór hann nú til þíngs með sínum mönnum. Drotníng com oc til þíngs, oc með henni XXX kvenna; riðu þær af borginni með scrautligri ferð, oc var hon þó allum göfuglegri. Kappinn Alpin sat á stóli virðilega búinn með hinum dýrstum pellum oc gulli oc gimsteinum, því lícast sem scurðguð væri sett á stall. Oc nú ríða firir hann þessar hinar fríðu conur, oc sáto á hestum. Oc kappinn tók þegar til orða: heyrðu, hin gövuglega frú, þat er mitt boð, at þèr stígit af hestunum, oc velit hèr sæti hiá mèr, oc kiós mek þèr til mannz oc unnasta. Oc þessi hin ríka frú var systir Ólafs Scota konúngs, er callaðr var qvaran. Oc nú leit hon mikinn flock á báþar hendr sèr oc marga ágetliga menn oc vel búna; hon sèr oc þat at Alpin er ágeta vel búinn. Hon ríðr nú um mannhrínginn, oc hyggr vandliga at allum mönnum, er þar vâro comnir, bæði at yfirbragþi oc clæþum, oc finnr eigi þann er hon leitar oc henni sómþi; oc slíct sama gerir hon

annat sinni at hon riðr oc ransacar hvers mannz ásiónu oc yfirbragþ. Oc hit þriðia sinn er hon reið, þá kömr hon þar er var maþr einn mikill í loðkápu; oc er hon leit augu hans, þá mælti hon: hèr er sá er ec vel mèr til bónda af allum þeim er hèr ero comnir. Oc er Alpin sá sek fiácosinn oc svívirðan svâ oc firrðan sek þessu hinu ynnilega ráði, en þenna mann til ráðinn, þá greniaði hann beisclega, oc segir at hann scamma ríð nióta þessa ráðs. Var nú slitið þínginu, en stofnuð rík veizla oc ágetlig; flytr nú þetta um öll hèruð; sœkir þángat fyrst jarlinn oc margir aðrir höfþíngiar, er Ólafr scal fá þessar cono. Oc er hann sat at veizlu, þá kömr þar kappinn Alpin með mikilli reiði, oc býðr nú Ólafi hólmgöngu, oc segir hann reyna sek scolu, bæði megn oc frœcnleik. Þetta var annan dag veizlo, er Ólafi var einvígit boþit. Ólafr qvaðz koma myndu. Oc þegar annan dag í dagan ferr Ólafr með tólpta mann til hólmstefnunar; oc kappinn kömr oc með IIII menn oc XX; oc genguz at síþan með bardaga; oc fèllu af kappanum II menn oc XX. Oc þá lagþi Ólafr vâpn sín, oc rann á kappann, oc tok hann höndum, oc felldi hann til iarðar; oc síþan batt hann þá alla stercliga er lifðu; oc síþan setti hann kappann á hest, oc lèt hann horva aptr til hala, oc rak hann þá svâ firir sèr heim til borgarennar. Oc er jarlinn sá þetta oc aðrir höfþíngiar, þá þótti allum þetta vera hinn fegrsti sigr, er Ólafr hafði unnit, eða hversu kappinn var hæðilega leikinn, oc neistr svívirðlega. Oc þá firirleit iarlinn þá, oc qvaðz eigi

vilia hava yfirgáng þeirra, oc bað hann á brot fara or því landi, oc svâ gerði hann. Þar var Ólafr nocqvora ríð, oc áttu þau son saman, þau Gyða, er Tryggvi hèt; sá barðiz síþan við Svein Alfífuson III nóttum firir iól.

*Frá Hákoni jarli.*

15. Þar er til at taca at í þann tíma rèð Noregi Hákon jarl Sigurþarson, er fyrr var frásagt. Sigurðr var son Hákonar Griótgarðzsonar. Þessi Hákon var ríkr oc vitr, oc með sínum ráðum oc vèlræþum vann hann yfircom*inn* Haralld Gunnhilldarson at Hálsi í Limafirði, oc annan Gullharalld er hann siálfr lagþi við iörðu at villd Danakonúngs. Oc svâ lagðuz þessi II ríki saman, Noregr oc Danmörk. Oc þá fèkk Hákon gull þat hit micla, er frendi hans hafði átt. Síþan setti Haralldr konúngr Hákon forráðsmann oc iarl yfir Noreg, en hann scylldi giallda scatta Danakonúngi á hverio ári. Oc fór svâ XIII vetr at Norðmenn vâro lýðskylldir undir Dani. Oc á XIII áre barðiz Otta keisari við Dani. Oc þá flýðu þeir Haralldr konúngr oc Hákon jarl í Limafiörð; en síþan flýði Hákon jarl til Noregs, oc gallt síþan alldri scatt Danakonúngi. En nocqvorum vetrom síþarr comu Jómsvíkíngar um miðsvetrar skeið í Noreg með LXX skipa annars hundraðs, oc börðuz þeir við Hákon jarl oc Eirík son hans á Hiörúngavâgi; oc börðuz svâ diarflega at fá dœmi ero til í Norðrlöndum, at þvílík orrosta hafi verit. Þeir börðuz allan dag; en Hákon jarl fór stundum til landz, oc fœrþi fórnir guðum sínum,

oc veitti þeim ácall mikit; oc á þeim degi var þó ávaxtalaus hans bœn. Fèllu þá margir af hans mönnum, en fátt af Jómsvíkíngum. Oc á aðrum degi þegar í sólarroð tócu þeir at beriaz, allt til þess er sól var í suðri. Oc þá fór Hákon til landz, oc heitr þá á þorgerþi Holðabrúði[1] til sigrs sèr, oc áðr en við gengiz hans bœn, gaf hann henni son sinn IX vetra gamlan. Oc þá com hon til orrostu með, oc gerþiz þá ógorleg orrosta með hagli; oc þá fèllu miök Jómsvíkíngar. Eiríkr Hákonarson veitti harðar atlögur, oc felldi marga menn. Oc þá flýði Sigvalldi jarl með XXX skipa til Danmerkr; en Búi var eptir, oc sagþi betra ráð at látaz þar með karlmennzku, en flýgia með ákafligri rælu. Oc hinn þriðia dag (börðuz þeir) með ógorlegum atgángi. En firir því at margir comu[2] til liðs við Hákon jarl, en hinir áttu lánct at sœkia liðveizlumenn, en margir fèllu, þá máttu þeir eigi viðstöðu veita. Oc er Búi sá sína menn falla, en þynnaz liðit um sek, en upgöngur tókuz, þá tóc Búi gullkistur sínar í sína hönd hvâra, oc hafði áðr barz allsnarpliga; hann bióz þá með þeim hætti, at hann crœcði handarstúfunum í kisturíngana, oc callaði síðan: firir borð, allir Búa þegnar! oc síþan steyptiz hann firir borð.

*Frá svikræðum Hákonar jarls við Ólaf Tryggvason.*

16. Nu er þar til at taca, at Hákon jarl heyrir micla fregð af mörgum orrostum oc snilldarbrögþum Ólafs Tryggvasonar, er hann vann víða. þá hugsar hann á marga vega at setia ráð við,

[1]) *eða* Holgabrúði. [2]) *orðinu* við *er hèr ofaukið.*

at eigi ræni hann hann ríkinu, eða sonu hans, með engum skiótum eða vâveiflegum brögðum. Íhugar hann á margar lundir, hvern veg hann scal ráð ímóti setia, at eigi lèti hann sitt ríki, helldr ætlar hann at setia firir hann nocqvot vèlræði, at hann metti ræna hann ættiörðum sínum eða lífinu. Hann lætr nú stefna fiölmennt þíng, coma þar margir höfþíngiar. Þórir hèt maðr clacka, vinr mikill iarlsins; hann callar hann til sín á þínginu, oc segir at hann vill senda hann í Garða austr með þeim örendum at hann scal segia andlát jarlsins, oc þat með, at landit liggi nú höfþíngialaust, oc nú sè þat allra vili, at unna Ólafi Tryggvasyni konúngdóms: en þetta örendi scolu styrkia með þèr II móþurbrœðr Ólafs Tryggvasonar, oc sanna þetta, oc segia sek af því senda[1] vera, at leiða hann svâ með sóma . . .[2] til sinnar fórstriarðar. En frendr Ólafs scolu þetta sveria með fullum trúnaði, at þeir scâlu eigi segia þetta bragþ Ólafi, fyrr en þeir stíga á Noreg fótum; þá er þat heimollt. Svâ er oc sagt, at Þórir þessi hafði verit fyrr með Ólafi, oc var svarabróþir hans; oc eigi at síðr hafði hann viðtekit þessu vèlreði, oc svâ fastliga bundit sek í sviksamlegum umsátum við Ólaf Tryggvason oc með fègiöfum iarls oc fyrirtölum heitit fastliga at fylla hans vilia. Nú sendir jarl eptir þessum II frendum Ólafs; hèt annarr Karlshöfuð, en annarr Jósteinn. Oc er þeir comu firir jarl, gerþi hann bert firir þeim þetta hit sviksamlega

[1]) *leiðrètt*; sendan, *A.* [2]) *hèr er eyða fyrir einu orði.*

ráð, er hann hafði sett. En þeir neituðu at gera þetta, oc sögþu at þeim var þetta ráð miök vanhennt at gera við frænda sinn. Jarlinn segir at þeir munu velia sèr verra cost oc úgirnilegra lut, ef þeir neitą þessum: því at þit scolut sæta skiót-um dauða, ef þit gerit eigi sem ec vil. Nú treyst-ust þeir eigi aðru en iáta því er hann mælti. Oc biogguz þeir nú til ferþar; oc stýrþi sínu skipi hverr þeirra; fóru síþan til Englandz; oc er þeir comu þar, spurðu þeir at Ólafr var þá farinn austr í Garðaríki. Oc síþan sigldu þeir austr þángat; oc er þeir comu þar, fagnaði hann þeim vel með mikillri blíðu, oc gerði frendum sínum fagra veizlu. Síþan tók Þórir at bera fram þetta hit flerðsamlega örendi sitt, oc segir Ólafi alla þessa luti, er áðr sögþum vèr. Ólafr spyrr þá móðurbrœþr sína, hvârt þetta var satt, er hann sagði. Þeir drápu niðr höfði, oc svara údiarf-liga oc með döpru yfirbragþi, oc qvoðu satt vera. Ólafr trúði nú orðum þeirra, at þetta myndi satt vera; því at þetta sannaði allt lið þeirra. En þat undraþiz Ólafr oc margir aðrir, hví þeir brœþr Karlshöfuð oc Jósteinn vâru svâ óglaðir í slíkum fagnaði sem þeir sátu. Nú vâro þeir þar um vetrinn. En er vâraði, bióz Ólafr austan með VI skipum, oc þau umfram III, er þeir hafðu austr haft. Þessi skip vâro laðin mörgum dýrligum gripum, gulli oc gimsteinum oc ágetligum pellum, oc allzscyns farmi, er fásèn var í Norðlöndum. Hann fór nú úvitandi þessar vèlar af frendum sínum, oc með öngum iva fór hann þessa ferð. Sigldu þeir nú góða byri með

glæði mikilli. Þeir tócu Noreg, þar er heitir Þiálvahellir, oc tiöllduðu yfir skipum sínum. Oc er menn vâru sofnaðir, þá gengu þeir Jósteinn brœþr á skip Ólafs; þeir fóru lióðliga oc lítillátliga, oc báðu hann gánga á land; oc hann gerir svâ, oc settuz þeir niðr scamt frá bryggiunum oc töluðuz við: oc þá mælto þeir báðir senn: við báðir erum dauða verþir af yðr, oc þar fyrir fœrum við þèr hafuð ockur, firir ockarn glœp oc svik. Nú sagþu þeir þenna atburð allan með gráti: oc í þessum stað man yþr, frendi, dauði hugaðr vera. Þá mælti Ólafr: hafit siálfir hafuð yckur, oc firirgeva vil ec ykr þenna lut; en segit nú, hvat gera scal. Þeir mæltu þá: þat vitum vèr at finnr einn á hèr bygþ í fialli þessu, oc veit hann marga luti firir; comum oc hittum hann, oc spyriom hvat vèr scolum gera, biðiom hann ráða oss nocqvor heilræði. Ólafr mælti þá: leitt er mèr oc lítit um at hitta þesskyns menn, eða þeirra traust at sœkia; en með því at yðr líki þetta, þá verði guðs vili oc vârr. Síþan gengu þeir í myrkrinu um nótt, oc var þar feniótt miök oc blautt at fara; oc þá lióp Ólafr í fen eitt báðum fótum miök, en tócu til hans oc studdu hann or feninu; þá mælti Ólafr: því bar svâ til at mèr hefndi, oc sýndiz þat at illa samir at leita sèr traustz eþa fulltíngs af finninum; oc varþ þetta af mínum verþleik. Þeir mælto þá: þat er fornt mál at býsna scal at betr verþi. Fiðrinn veit nú firir ferþ þeirra, oc lýcr up durum húss síns at þeir mætti hitta bygð hans. Oc er þeir sá þángat liós, þá hitta þeir leið sína þángat; oc finnr-

inn mæltisc innan firir, oc sagþi svâ: veit ec, Ólafr, hverr þú ert, eða hvers þú leitar, eða hverr þú mant verða; en ecki þarft þú at gánga í hús mín; ok þúnct hefir mèr verit í dag firir þèr, síþan er þú comt við land; oc eigi fara litlar fylgior firir þèr, því at í þínu föruneyti ero biört guð; en þeirra samvistu má ec eigi bera, því at ec hefi annarsconar nátúru; oc firir því scallt þú utan firir mælasc. Þá mælti Ólafr: seg nú, finnr, hvat vèr scolum at havaz, eþa hvat tíþinda verþa man um vâr viðskipti, eða hvârt man ec fá ríki þetta eða eigi. Finnrinn svarar: á mörgin árla man Þórir heimta þek á tal oc biðia þek gánga á land, oc vilia eiga við þek leyndartal, oc hann man beiða at þèr setiz niðr; hann mon oc leita at velia sèr hæra sæti en þèr; en þú scallt þat eigi vilia firir því at II menn hans eru í scógi leyniliga, oc þegar er hann gerir þeim nocqvot mark, munu þeir framlaupa oc dræpa þek; en þú lát vera II þína menn í scógi með þessum hetti; oc þegar er þú gefr þeim mark, laupi þeir fram oc drepi Þóri; oc með þessum hetti man Þórir veiddr verþa í þeirri snöru er hann ætlaði þèr, oc ferr þá sem macliet er. En litlu eptir þetta mun Hákon vera drepinn, en þú munt eignasc ríkit; oc er þetta er framcomit, er nú segi ec, at þú stýrir Noregs veldi, þá mant þú bióða nýian siþ oc úkunnan í þessu landi; oc áðr en þú lèttir, munu flestir allir þínir þegnar iáta þínu boði; oc ef þèr reyniz þetta með sannendum er ec segi, þá scallt þú ecki bióða mèr annan siþ, en nú hefi

ec, oc eigi neyða mek til þess, því at ecki má ec snúasc til annarra luta eþa annarrar nátúru en nú em ec; en eigi sè ec at ec mega vinna yðr nè einn sóma eða yðarri tign, nema beri til at hundr yþarr verði sárr, sennt þú hann til mín, oc mun ec grœþa hann. Síþan fóru þeir íbrot, oc gengu til skipa, oc fóru á skip út lióðliga, svâ at menn vöcnuþu ecki við. Oc fór þetta allt eptir því sem fiðrinn hafði sagt. Oc er þeir Ólafr oc þórir rœddu um sessinn sín ímilli, oc hvârtveggi villdi hinn hæra hava, þá brá Ólafr yfir hafuð sèr glóva sínum hinni hœgri hendi; oc þá liópu fram af scóginum IIII menn, oc vâro þeir II Jósteinn oc Karlshöfuð, oc runnu fram um hina, oc þar at sem þeir sátu, Ólafr oc þórir, oc hioggu báðir senn til þóris, oc lauk svâ hans æfi. Oc er þeir sá þetta, menn þóris, þá flýðu þeir íbrot; en þeir ær á skipum vâro, báðu sèr griða; oc þat veitti Ólafr þeim allum, er iáttu at cristnasc oc honum vildu fylgð veita; oc þat tócu þeir með þöckum. Oc er Ólafr sá sek blecðan meþ þvílícum vèlum oc þó leystan með guðs miscunn, þá gerir hann guði þackir; oc er nú hèr œrit frásagt at sinni.

*Frá Hákoni jarli hinum ríka.*

17. Nú er þat þessu næst at segia, at þá er á leið æfi Hákonar jarls, þá tók hann at harðna við lýðinn firir sakir metnaðar oc fègirni; hann var oc úeirinn um kvenna-mál, því at hann lèt sèr heimilar allar konur, þær er hann fèck, hvârt er þær vâru systr eða mœþr eða dœtr, oc vâru þær þá þvílícum stundum með honum, sem þá

sýndiz honum. Tóc hann þá at harðna-miöc við alla alþýðo; gerþiz þá fólkit honum lítt hugat, svâ at margir kölluðu Hákon hinn illa. Oc svâ er sagt, at einn íslendzkr maðr hafi ort um hann lánct qvæþi oc íllt, oc sett með mörgum lutum illum oc fáheyrðum. Hákon hafði meira átrúnað, en flestir menn aðrir, á blótum. Oc sá lutr gerþiz svâ fullcominn með honum at ástin hitnaði til saurlífis, svâ at hann hafði við hönd sèr konur manna, oc stórættaðar, oc margar meyiar, oc vâru þá með hânum viku eða mánuð, oc sendi þá heim svívirðar til feðra sinna oc mœþra. Maðr hèt Bryniólfr, er bió í Gaulardal, oc var ríkr maðr oc stórauðigr; hann átti fríða conu. Oc á einni hverri nótt sendir Hákon jarl þángat þræla sína, oc segir at hann vill at þeir flyti ábrot conu hans. Oc er þeir comu á bœinn, var Bryniólfr cominn í hvílu hiá conu sinni; oc þeir báru up örendi sín, oc segia at jarl sendi honum orð til, at hann láti fara konu sína með þeim. Bryniólfr svarar: fátt þyckir jarli þessum úfallit at mela eða gera; oc svâ ferr hann vanstilltr nú, at meire vân er at brátt beri þat til bóta, at herfilega steypi hans ríki; oc er þetta fólk sett undir mikit vandræði. Bryniólfr verðr nú reiðr ácaflega, oc recr ábrot sendimenn jarls með mikilli reiði; oc þeir comu firir jarl, oc segia honum. Síþan sendir jarl fleire menn, at hann scylldi þá láta konu sína, hvârt sem hann villdi eða eigi, eða drepa hann at aðrum costi. Oc er þeir coma til Bryniólfs, oc segia honum orð jarls, þá mælti Bryniólfr: eigi veit ec nú, hversu tilberr, hvârir

nú bera sigr af aðrum, jarlinn eða vèr; oc síþan lióp hann up; en þeir tócn húspreyio hans, oc fór hon með þeim. En Bryniólfr fór til allra bœia, er þar vâro umhverfis; oc krafði sèr liðs; hann segir, hver nauðsyn hann rekr til at eigi liggi siá íllzca lengr ýfir þeim; hann æggiar menn miök at beriaz við jarl, segir hann at eigi er hans eins nauðsyn, helldr allra þeirra. En firir því at hann var ríkr oc vinsæll oc stórættaðr, þá drósc hânom vel lið, oc meþ einum grimleik við jarl, hafþu þeir mikinn vâpna búnað oc lið harðfenct, oc fóru með mikilli styriölld oc gný. þeir fóru inn um Gaularás, oc þann veg er veit til Laða, oc hafuðbœr jarls var; þar var oc hafuðhof, þat er mest var í Noregi. Oc var einn vili allra manna, at drepa jarl eða brenna hann inni. Jarlinn var þá firir á Löðum, sem höfuðstaðr var allz ríkis hans; ok þar hafði áðr forellre hans; oc þat hit micla hof, er þar stóð, hafði hann eignat útalegum guðum. En þóat vèr segim þvílíca luti frá Hákoni jarli, er svâ þúngligir oc harþir mego þyckia, þá er þó þat frá honum sagt, at lengi stóð hans ríki með vinselld í fyrstinni; en svâ sem á leið hans æfi, þá gerðiz hann því harðare oc þýngra undir at búa. þat er oc frá honum sagt, at hann var allra manna fríðastr sýnum oc vitrastr oc mestr í mörgum lutum allra manna þeirra er þvílíct tignarnafn hafi borit; hann var oc hinn bezti bardagamaðr. þeir vâro synir hans skírbornir Sveinn oc Erlendr. Eiríkr var eigi eginconu son; hann var bæði líkr feðr sínum oc úlícr, líkr at speki, oc harðr í sócnum,

en ecki líkr yfirliz oc svâ í scaplyndi; hann var milldhugaðr oc góðráðr, oc villdi miök sætta höfðíngia oc smæri menn, oc hóglyndr, at aftecnum úvinum sínum, þeim var hann grimmr oc stirðr. Eiríkr oc Sveinn vâro þá eigi í landi, er þessi tíþinði vurðu. Þat barsc at um morgoninn snimma at gengu í herbergi jarls nocqvorir menn, oc sögþu honum at lið mikit fór at allum megin. Oc er jarlinn veit þessi tíþindi, þá þyckiz hann vita, at eigi man gott fullting at sœkia í hèruðin, því at þat lið man allt ímóti standa, er þar byggir, oc engrar hiálpar man þaðan venta mega; flýr hann nú til skipanna, er scamt vâro frá bœ jarls, oc leggr út á fjörðinn, oc með honum sun hans Ærlendr oc heimamenn hans; fá nú II skip af scyndíngu, oc leggia frá landi, oc ætla nú at hiálpa sèr á siónum, er þrotin von er á landinu. Oc er jarlinn var scamt cominn frá landi, þá sá hann at nío skip sigldu utan eptir firði oc stefndu ímóti jarli. Oc er þeir sá skipin, undraz þeir miök. Oc nú verðr þeim litit aptr um stafn, oc sá mörg skip fara innan at þeim með miclum ácava oc calli. Þeir gerþu bæþi, at þeir sigldu oc röru með mikilli ákefþ oc fullum fiandskap, oc ætla nú at láta jarlinn eigi undan comaz.

*Frá Ólafi Tryggvasyni.*

18. Eptir þat er Þórir clacka var drepinn, rèð Ólafr Tryggvason skipum þeim allum, er þeir hafþu austan haft, oc siglir síþan norðr með landi. Oc í þenna tíma siglir hann inn frá Agþanesi ímóti þeim skipum er áðr var frá sagt II,

er innan fóru eptir firðinum. Ólafr bað sína menn leggia at þessum skipum: vil ec vita, hverir þeir ero; en þessa luti mælti hann þó úvitandi, hverir ímóti þeim fœri. Oc nú er Hákon jarl sèr svâ miöc þrönct hans ráði, þá sèr hann at nú man þola verða þann dóm, er úvinir hans leggia á hann; hann mælti þá við Ærlend, son sinn: nú vil ec at þú takir lítinn bát, oc man ec stíga þará með fá menn oc láta at landi; en þú ver eptir; þvíat ec vænti at firir sakir vinsælþar þinnar, at þú halldir lívi þínu; því at margir ero þèr vel hugaðir, oc engi man þèr úfrið gera, ef ec em eigi við. Nú var svâ gert, oc lagði jarl at landi, oc lióp þegar í scóg, oc forþaþi sèr. Oc er hann com í scóg, þá varð hann varr, at allt vâru þar sátir firir; oc leitar hann nú til austr ættar með sínum mönnum, oc ferr nú þángat sem heitir Gaulardalr, at forða sèr oc firraz úvini sína. En menninir sóttu eptir með ácava, oc hitta nú þessi II skip, oc leggia allum megin at skipunum. Oc er Ærlendr sá at hans fiandmenn höfþu ráð hans í hendi, þá leypr hann firir borð með sínum mönnum sumum, oc neytir þá sundz. Oc í því bili com Ólafr Tryggvason, oc sat hann við stiórn á skipi sínu, oc sá hann þenna hinn únga mann sundz neyta, oc leggiaz frá skipunum. Ólafr spurði skipamennina, þá er firir vâro, hverr þessi hinn úngi maðr væri, er lagþiz frá skipunum; oc þá var honum sagt at þessi var son jarls, oc hèt Erlendr. Oc þegar er hann heyrði þetta, þá fleygþi hann hiálmunvelinum er hann hèllt á, oc laust hann, oc com

í hafuðit, oc fèck hann af því bana. Oc síþan spyrr Ólafr, hví styriölld siá veri oc úsetti; oc þeir segia honum slíct er til bar. Síþan spyria þeir, hverr siá sè hinn gafugligi maðr oc hinn tíguligi, er við þá talaði. Hann nefndisc Ólafr oc qvaðz vera Tryggvason. Oc er þrœndir heyrðu þetta, þá fagna þeir honum vel, oc mælto til hans með blíðu: víst scallt þú hèr velcominn til vâr, því at vèr höfum nú lengi girnz til þín, oc giarna viliom vèr þek til konúngs taca yfir oss, sem þú ert til borinn; sœkium nú allir saman eptir jarli, oc drepum hann; viliom vèr nú hava þar til yðart traust; oc eptir þat er hann er sigraðr, scallt þú eignasc allt Noregs ríki, þvíat vèr viliom þek til konúngs kiósa yfir allum Noregi. Ólafr Tryggvason varð nú glaðr við þeirra orð, oc segir at til þessa vill hann heita oc veita þeim sitt fulltíng. Síþan leggia þeir at landi allum skipunum, oc slá þá saman allu liðinu í eina fylkíng, oc fara síþan í eptirleitan at finna jarl, oc skipta nú liðinu í sveitir, at leita jarls. Oc síþan er jarl varð varr við at Ólafr Tryggvason var þar cominn, oc liðit dreif til hans, þá óttaz hann miöc hans èptirleitan, oc flýr nú undan ácafliga; oc þat lið er honum fylgþi, flýr sèr hvat; oc svâ com at engir vâru eptir hiá jarli nema Karkr þræll hans. Jarlinn reið í flóttanum, oc com at ó[1] einni mikilli, oc fór hann yfir hana. Hann hafþi silkimöttul yfir sèr, oc tecr hann hann af herþum sèr, oc castar í ána, oc síþan flýðu þeir í Gaulardal, oc

[1]) *þannig, í staðinn fyrir á.*

leituðu fylscna. Þeir comu á þann bœ er heitir Rímul; þar bió kona ein góð oc gafug; hon hittir jarl, oc fagnar honum vel. Jarlinn mælti: heyr þú, góð kona, segir hann, ec em orðinn forflótti firir úvinum mínum; fara þeir eptir mèr með miclum ácava: seg nú, ef þú sèr nocqvot leyni, svâ at ec mega forðasc; ger nú þetta afspeki þinni oc firir ockra vináttu, sem þèr sómir við höfþíngia þinn. Hon svarar þá: ef ec scyllda ríks mannz leita, hvar mynda ec síþr hans leita en í svínahúsi. Jarlinn mælti: vitrliga er þetta ráðit; bióð nú þrælum þínum at þeir búi oss hèr leynilegan stað. Oc hon gerði svâ; bað hon þá gera gröf micla, oc búa yfir með viðum, oc byrgia sem bezt, at ecki nývirki megi á siá. Síþan geck jarlinn í þat sama hús oc þrællinn, oc er þeir vâro þar comnir, þá var byrct vandliga. Síþan mokuðu þeir yfir moldu, oc síþan hulðu þeir með taði, oc ráku inn svínin, oc tráþu þau niðr taþit. En Ólafr Tryggvason ferr nú eptir, oc leitar jarls; kömr hann nú með micla sveit manna til þeirrar ár, er fyrr var frásagt. Oc nú siá þeir möttulinn rekinn í eyri eina; oc síþan var hann up tekinn, oc kendr at jarl hafði átt; tócu þá margir svâ til orðz, at jarlinn myndi þar látiz hava, oc ecki myndi þurva at leita hans. Þá mælti einn gamall maðr: nei, ecki kunni þèr brögþ jarls, ef þèr ætlit hann týnz hava í þessi á; en þetta er slœgþarprettr hans, at casta af sèr mötlinum, at þèr ætlaðit at hann myndi hèr látitz hava. Nú trúðu þeir þessu, oc hèlldu fram leitinni, oc como um síþir til Gaulardals oc á bœinn

Rímul, oc leita nú um hvert hús á þeim bœ; þæir fara nú í svínahúsit, oc fundu eigi. Oc áðr þeir fœri ábrot, þá mælti Ólafr hátt: ef nocqvorr maðr fœrir mèr hafuð jarls, þeim manni scal ec reiða mikit verkaup; oc er hann hafði svâ mælt, þá lèt hann af leitinni, oc ferr íbrot oc allir hans menn. Jarlinn heyrði orð hans, oc svâ þrellinn, oc undraz jarlinn miök þessa mannz mál, oc mælti svâ: mikilsháttar er þessi maðr Ólafr, oc mikill kraptr fylgir hans örendi, oc alldrigi fyrr tók mek jafnfast eða mitt hiarta eins mannz mál, oc hefi ec verit í mörgum stórum háscum, oc miöc em ec hugsiúkr oc íhugafullr við þessi orð. þeir hafðu hiá sèr liós oc vist oc dryck, oc snæddu þeir báðir saman. Jarlinn leit til þrælsins, oc sá ásiónu hans harðla miök döckna, oc skilþi af því at honum hvarfaði hugrinn, oc hann tvískiptiz í ætlaninni, oc grunar nú at hann myni svíkia hann, oc trúir honum eigi, ef hann sofnar. Tóc hann nú at vaca yfir sèr siálfr, oc ætlar at vaca um nóttina; en þarímóti gerþi þræll-inn, at hann svaf bæði fast oc lengi. Oc er hann vaknaði, þá sá hann at jarl vacði; þá mælti þrællinn: dreymdi mek, herra. Hvat dreymþi þek? segir jarl. Hann svarar: þat scal ec segia þèr, segir hann, en þú ráð drauminn. Jarlinn mælti: seg nú þá. Mèr þótti sem við fœrim á einu skipi, oc sæta ec við stiórn. þá mælti jarl-inn: hugsa þú svâ at þar reðr þú firir lífdögum mínum oc hvârstveggia ockars, oc ver nú trú-lyndr, at þú finnir síþarr marga daga góða. Enn sýndiz mèr annarr draumr, at mikill maðr væri

hiá húsinu, svartr oc illilegr; hann mælti: nú er Urli drepinn. Þá mælti jarl: Þar man drepinn Ærlendr, son minn. Eptir Þat sofnar Þrællinn, oc er hann vaknaði, Þá sá hann jarlinn vaka, oc Þá mælti hann: enn sá ec einn draum: mèr sýndiz maðr einn mikill, oc geck ovan frá fiallinu oc mælti: nú eru lokin sund öll. Jarlinn mælti Þá: scamt segir Þú Þá eptir lífdaga vârra. Þrællinn mælti: Þat dreymÞi mek enn, at Ólafr gefi mèr hest mikinn ácafliga. Jarlinn mælti: Þar man hann festa Þek â hinn hæsta gálga, er hann fær til; varaz Þú svâ vèlræði við mek, Þvíat scamt mant Þú Þá eiga úlivat. SíÞan sofnar Þrællinn, en jarlinn vakir. Oc er fram leið nóttinni, oc dró at degi, Þá mátti jarl eigi vaka lengr, en Þrællinn var Þá vaknaðr; oc er hann sá jarlinn sova, Þá tók hann hinn hvassasta kníf oc veitti jarlinum mikit sár neÞan á barkann, oc síÞan sneið hann af honum hafuðit; lióp Þá síÞan ábrot or húsinu, oc til Þess fór hann, er hann com á Laðir annan dag eptir snimma. Hann færði Þá Ólafi Tryggvasyni hafuð jarls. Oc er Ólafr kendi Þetta vera hafuð Hákonar jarls, Þá reiddiz hann Þrælinum, oc bað hann upfesta, oc sagÞi hann hava scylldu maclig laun firir sín drottins svik: sveik hann Hákon jarl, oc svíkia man hann mek, ef hann má; en svâ scal leiða drottins svikum.

*Frá landaskipti.*

19. Sá var konúngr forðum er Nóri hèt, er fyrst bygÞi Noreg; en suÞr frá Noregi er Danmörk, en SvíÞióð austr frá; en vestr frá er England; en norðr frá Noregi er Finnmörk. Noregr

er vaxinn með III oddum; er lengð landzins or útsuðre í norðrætt frá Gautelfi oc norðr til Veggestafs; en breiddin oc víddin or austri oc í vestr frá Eiðascógi oc til Englandz sióar. En landit er greint oc callat þessum heitum: Vík, Horðaland, Uplönd, Þrondheimr, Hálogaland, Finnmörk. Í þessum ríkiom eru mörg hèruð oc mörg fylki oc útallegar eyiar. Svâ er sagt síþan er eignaz hafði allt Noregsríki hinn ágeti konúngr Haralldr hinn hárfagri oc brotit undir sek með miclum styrk oc hèllt því til dauðadags; oc er hann heygþr á Rogalandi, oc þar andaðiz hann. Eptir hann vâro margir konúngar, er af hans ætt vâru comnir, oc vâro þeir konúngar yfir hèruðum oc ríkiom stórum eða eyiom. En þar at eins segiom vèr frá þeim er ríkt hava hit ytra með siónum, oc yfirkonúngar vâru landzins; þvíat á Uplöndum oc með fiallbygþum vâru fyllkiskonúngar, þeir er frá Haralldi vâro comnir, oc rèðu firir fylkiom, oc skilþu þau ríki fiöll oc scógar um landit víða. Af þessum konúngum vâru ágetastir oc frægstir, er comnir vâro frá Haralldi konúngi, Tryggvi konúngr, faþir Ólafs er nú er frásagt; oc svâ Ólafr Haralldsson; oc Haralldr grenski, faþir Ólafs hins helga, er síþan varð einvalldzkonúngr alls Noregs velldis.

*Frá því er Ólafr var til konúngs tekinn.*

20. Oc er þessi tíþindi spurðuz, at Hákon jarl var drepinn, oc þat flaug yfir landit, en í stað hans var cominn Ólafr Tryggvason; þá comu allir höfþíngiar oc spekíngar or Þrændalögum, oc allir þeir er nocqvora nafnbót hafðu, oc þar

með allr múgrinn, oc með einu samþycki, at allt fólk villdi hann konúng yfir sèr, oc báðu hann firir vera allu fólki. Tók hann þá við trausti Þrœnda fyrst at uphafi, oc Gauldæla; oc gerþu þeir sitt fèlag, at hann scylldi styðia þá oc styrkia ímóti Eiríki jarli oc Sveini, þvíat margir vâro vinir þeirra oc frændr, þó at margir væri úvinir. Ólafr konúngr hafþi þar ímóti at bióða annan vanda er œrinn var; faþir hans var af lífi tekinn, oc ræntr ríkino allu; Ólafr oc í útlegð verit lengi í barnœscu frá frændum sínum oc fóstriörð. Oc í annan stað höfðu bœndr konúngi at bióða mikit traust oc fiölmenni oc mikit afl konúngríkinu; en hèr ímóti hafþi konúngr at fá þeim tígulega forvistu í allum vandaráðum eða orrostum. Nú dró þetta saman þeirra samþycki. Taka þeir þá til konúngs á Eyraþíngi Ólaf Tryggvason; en hann sverr þeim ímóti lög oc landzrètt; scolu nú vera hvârir aðrum scylldir til allra góðra luta. Stiórnaði hann nú sínu ríki með frægþ oc fagnaði; geriz hann nú einvallzkonúngr yfir allum Noregi; leggr hann undir sek allt land norðan frá Finnabúi oc suðr til Danmerkr; gerþisc hann þá ríkr maðr oc gafugr. Hann hafði mikit starf oc mörg vandræþi, meþan hann rèð landinu; hann hèllt fyrstr Noregs konúnga rètta trú til guðs, oc af hans stiórn oc ríki varð Noregs ríki alcristnat, oc urþu þarum mörg tíþendi, áðr cristnin gengi yfir.

*Frá Ólafi konúngi er hann boðaði rètta trú.*

21. Svâ er sagt, at þetta hit konúngliga boð

flutti hann fram firir alla fólki, oc talþi hann mörg örendi með mikilli snilld, at þeir lèti sið er þeir hafðu áðr, er svâ var vâðvænligr sálinni, at trúa þat hiálp sína vera, er þeir fœrðu fórnir stockum eða steinum. Bað hann þá fögrum orðum, at þeir lèti þann hinn hegómlega oc hinn háðulega siþ, er þá blecði með margfölldum hásca; bað þá helldr dýrka sannan guð, er ríkir í himinríkis fagnaði, sá er sannr guð einn, oc er allt gott veitir mönnum. Hann biðr þá at hyggia, alla hina vistrostu menn í landinu, hversu gera Englismenn eða Saxar, eða Danir, er þá höfðu áþr firir scömmu við trú tekit. Biðr hann nú með fögrum orðum, at þeir láti nú blótin, oc geri eptir slícra manna dœmum, oc snúi sèr rèttleiþis, oc trúi á sannan guð á himnum; segir, hversu úiafnt er at þióna almáttigum guði eða fiandanum; hann segir oc mart frá fögnuþum dýrlegra manna oc rèttlátra, oc þarímóti hvat vândir menn eigu firir höndum oc ógnun helvítis qvala. Flutti hann þetta örendi með miclum crapti oc guðlegu fulltíngi. En höfþíngiar mælto ímóti, oc fóro íbrot af þínginu, oc heim í hèrað, hverr þar er eignir átti. Oc eigi at síþr hèllt konúngr þó mikit lið eptir, oc talði fram guðs örendi; oc þótti allum mikils um vert hans snilld, oc æigi lèt hann af, fyrr en allir, þeir er eptir vâro á þínginu, tócu helga skírn af byscupi, oc trúðu nú rètt heþan í frá á scapara sinn, oc brutu niðr scurðguð sín siálfir, oc höfnuðu allum þeirra átrúnaði, oc hèlldu í staðinn helga trú oc guðs boðorð, oc vóx nú miök guðs cristni.

*Frá Ólafi konúngi Tryggvasyni.*

22. þat finnz í frásögn Ara hins fróða, oc eru þeir fleire er þat sanna, at Ólafr Tryggvason hafi II vetr haft oc XX, þá er hann com í land, oc tók ríki, en hann rèð firir V vetr. En þó eru þeir sumir menn fróðir, er svâ vilia segia, oc því trúa, at svâ sè at hann hafi haft II vetr oc XXX vetra, er hann tók ríkit; oc þat scal nú sanna, hversu þeir telia. þat segia þeir, þá er Tryggvi konúngr faþir hans var veginn, at Ólafr var þá í móðurqviði, oc var fœddr þat (ár), oc var einn vetr með móðurfeþr sínum oc móður með leynd; oc síþan fór hann austr í Svíþióð á fund Hákonar gamla firir mótgángi Hákonar jarls oc Gunnhilldar, oc fór þá um eyðimerkr oc scóga, oc var þar II vetr með Hákoni gamla; oc er hann fór brot þaðan, þá var hann þrèvetr. Oc er hann fór skipferðum, oc hann var hertekinn, er hann ætlaði í Garða, þá tócu heiðnir menn þau, oc höfðu í sínu valldi, oc var hann í þessi ánauð VI vetr; en í Görðum austr oc austrhólfunni væri hann XI ár; en í Vinðlandi III vetr; oc þá fór hann til Danmerkr oc til Írlandz, oc tók þar helga skírn af ábóta, þeim er fullr var af helgum anda; oc í Vestrlöndum var hann IX ár. Oc eptir þat fór hann af Englandi, oc hafði þá II vetr hins fiórþa tigar. Oc eptir þat var sett vèlræði af þóri clöcku um Ólaf, oc fóru þeir þá til Noregs, sem sagt var, oc var þá þórir drepinn, eptir forspá finnzins, oc litlu síþarr Hákon jarl; oc tóc þá Ólafr Tryggvason ríkit, sem

sagt var. En þessir menn samþyckia þetta með þessum hetti Sæmundr hinn fróði oc Ari hinn fróði; er hvârstveggia sögn er trúlig, at Hákon hafi stýrt ríkinu XXXIII vetr, síþan er fèll Haralldr grâfelldr. En þat þyckir þá miöc samanbera oc þessi frásögn. þat calla menn at Ólafr Tryggvason hafi haft III tíþir á sínum dagum: var sú hin fyrsta er hann var í miclu úfrelsi oc áþián oc úvirðíng; annur tíð alldrs hans skein með birti mikilli oc farsælu; hin þriðia tíð með tign oc frægþ oc mikilli áhyggio, firir mörgum at bœta. En vera kann þat at Einarr þambarskelfir eþa Ástríð, systir Ólafs, er átti Ærlíngr á Sóla, hafi ecki hugleitt þá þessi IX ár ánauðar hans, er margir vâru í þeirre ætlan, at hann væri dauðr. En síþan er siá hinn sami maðr, er frendrnir fundu oc vinir svâ sem endrreistan af dauða; þá fögnuðu þeir þessum manne, svâ sem hann væri af dauða reistr, oc töldu því til alldrs honum VII ár oc XX. En hvârratveggia vitni sýnaz mèr athuga verþ, oc skynia þat hvat af þyckir fellt at hava þvílíkum frásögnum.

*Frá Ólafi konúngi Tryggvasyni.*

23. þat er sagt at í fyrstu er Haralldr hinn hárfagri tók ríkit, at þá var liðit frá því er hann hóf ríkit C vetra oc XL vetra oc VIII vetr, þar til er Ólafr Tryggvason fór or landi þessu sinni með V skipum, oc vestr til Englandz, þá er hann hafði einn vetr verit konúngr í Noregi; fór hann aptr um haustit til Noregs; oc var þá í för með honum Jón byscup oc margir prestar, þángbrandr prestr oc þormóðr, oc margir aðrir guðs

þiónar, er hann setti til at styrkia oc up at timbra guðs cristni, oc kenna þeim at snúaz rètleiðis, er áðr trúðu rángt, oc kendi þeim satt liós vera af almáttigum guði. Oc er Ólafr konúngr var búinn, sigldu þeir til Orkneyia. En þar rèð firir Sigurþr jarl Loðvesson, sá er ágetr var at mörgum lutum, ríkr oc vinsæll. Ólafr konúngr boðaði honum rètta trú, oc bað hann mörgum orðum fögrum til beði síð oc snemma með miclu costgefi; hann sagþi oc hans mönnum frá helvítis píslum oc eilífum elldi oc frosti, oc mörgum aðrum ógorligum qvölum; hann minnti hann á með allu costgefi, at varasc slíca luti, oc sagþi þá með öngum hætti forðaz mega þessar qvalar, nema þeir bryti scurðguð sín, oc dýrcaði almáttigan guð, scapara sinn, er stýrir allum lutum: þann byriar yðr at dýrca. Jarlinn mælti þessu miök ímóti, lèzt eigi muno láta sið sinn oc frenda sinna: kann ec mèr ecki betra sið, en mitt forellri hefir haft, eða betra hátt, en þeir er göfgastir hava verit mínir frændr. Oc er Ólafr sá at hann villdi svâ þráliga hallda sinn átrúnað, þá tók Ólafr son hans úngan, er Hvelpr hèt, er þar var upfæddr með virctum. Ólafr konúngr lagþi hann á saxit lángskipinu, oc brá sverði, oc bað þá jarlinn kiósa, hvârt hann vill helldr siá son sinn höggvinn firir augum sèr, ef hann neitar trúnni, eða vill hann gera sætt oc vingan við mek, oc taka þá son sinn í valld sitt, oc þar meþ viþ cristni: en ec segi þèr at aðrum costi sendr þitt ríki til vâða oc auþnar. Nú iátti jarlinn hvârutveggia, cristninni oc vingan konúngs.

Var þá jarl oc allt lið hans skírt. Fór þá Ólafr konúngr með liþi sínu til Noregs, oc byriaði honum vel; sigldi hann nú með gleði mikilli; mátti þar siá kappsiglíngar miclar, oc fögr skip.

*Frá Ólafi konúngi.*

24. Ok er Ólafr konúngr com vestan, þá lá hann við ey þá í Noregi er Móstr heitir, oc um nótt þá vitraðiz honum hinn helgi Martinus byscup, oc mælti við hann: þat hefir hèr verit siðr í þessu landi at geva Þór eþa Óðni eða aþrum Ásum minni at veizlum; en nú vil ec at þú skiptir hinn veg til, at mèr sè minníng ger at veizlum; en hitt falli niðr er áðr hefir verit; en ec heit þèr því ímóti, at ec scal tala með þèr á morgin oc styrkia þitt örendi, því at margir ætla nú ímóte at standa. En hinn næsta dag eptir var fiölment þíng stefnt; oc com þar ímóti konúngi útallegr lýðr, oc ætlaðu at standa ímóti hans örendi, oc völþuz til III hinir sniöllustu menn á þínginu at tala ímóti honum, oc vâro þessir ágeztir af þeim er til vâru comnir, bæði at viti oc snilld, oc hafðu þeir ráðit með sèr, ef hann boðaði guðs nafn, at mæla ímóti. Ólafr konúngr stóð á einum steini háfum, at hann mætti allum auðsær vera, oc mál hans at heyra, oc enn er sá steinn þar til minníngar. Þá tók Ólafr konúngr at tala firir fólkinu, oc boða nafn drottins, oc teygia alla til með fögrum orðum, oc hneckia þeim átrúnaði, er áðr höfðu þeir. Oc er hann hafði lengi talat sniallt örendi, þá ríss up sá er fyrst var til ætlaðr at svara honum; hann litaz um lengi,' oc lèt stollzlega, oc ætlar at tala með mikilli

snilld oc list. En at þessum manni sætr svâ mikinn hósta oc þröngþ at hann mátti öngu orði up coma; oc varð hann við þat niðr at setiaz, at hann mælti ecki ímóti. Þá stóð up annarr, oc ætlar at tala með mikilli reiði ímóti konúnginum; en siá maðr varð svâ stamr, at ecki nam, hvat hann mælti; oc sættiz hann með athlœgi niðr oc scöm, er up reis með drambi oc ofmetnaði. Oc þá reis up hinn þriði, oc ætlar at hann scal hefna sinna fèlaga með snilld sinna orða; þat barsc hânum til handa, at hann varð svâ rámr, oc qvaraði, svâ at ecki nam hvat hann mælti. Nú firir því at þeir vâro sigraðir með svâ miclum krapti, þá tócu margir við trú, oc firirlètu forna villu, oc fylgþu allir konúngs boði. Fór konúngr með liði sínu þaðan norðr um Stað, oc sigldi síþan norðr til Þrándheims. Hann hafði þá höfuðbœ sinn á Löðum, sem hinir fyrri konúngar hafðu haft.

*Frá því er Seliomenn funduz.*

25. Sá atburðr gerþiz í uphafi ríkis Ólafs konúngs, at II menn gerþuz ferþar sinnar; hèt annarr Þórðr Jórunnarson, en annarr Þórðr Ægileifarson; þeir vâru ríkir menn oc miclir höfþíngiar; þeir áttu eignir í Fiörðum, oc ætluðu at fara á fund Hákonar jarls, þvíat þeir hafðu þá eigi spurt höfþíngiaskiptit. Oc er þeir fóru um Úlvasund, oc norðr at eynni Selio, þá sá þeir fagra sýn oc ágetlict liós skína á sióinn or himnum ovan, oc ner við siálft landit oc svâ oc í eyna Selio. Þetta undraz þeir miök, oc forvitnaz, hvat er vera mun sýn þessi, eþa hvat þeim man

sýnt verða í þessum lut; oc hallda þángat skipunum. Þeir finna þar mannz hafuð, er þeir hafðu sèt liósit skína; oc þá kendu þeir sætan hilm, oc tóku nú þetta hafuð með tign, oc þó rœzlu, oc hafðu með sèr, oc ætla at fœra Hákoni jarli, oc væntu at hann man scynia oc skilia af sinni speki, hvat þetta merkir. Nú fóru þeir leið sína, oc eigi lánct áðr þeir spurðu at jarl var drepinn, oc í stað hans cominn ágetligr höfþíngi Ólafr konúngr Tryggvason. Oc þó eigi at síðr fara þeir at Ritta konúnginn, er allir sögþu mikit frá hans göfugleic oc gœzku, oc comu þeir á Laðir. Oc þegar er konúngr spyrr, at þessir menn sóttu hans fund, þá tóc hann við þeim með blíðu, oc gerþi þeim veizlu. Oc er þeir sátu í miclum fagnaði oc gleði, þá tóc konúngr þessa hina virðulegu menn at biðia með ást oc fögrum orðum, at þeir láti sið sinn, oc trúi á sannan guð: hefi ec heyrt, segir konúngr, at margir góðir lutir eru sagðir frá yðrum athöfnum, oc firir því bið ec at þèr iátit cristni. Oc þegar í fyrstu fannz þessum mönnum svâ mikit um örendi konúngs, at þeir iáttu hans boði, oc at láta sína villu. Var þá síþan til heimtr Ión byscup, er Sigurðr hèt aðru nafni, oc vâro þeir skírðir í nafni heilagrar þrenníngar, oc helgaðir almáttigum guði; oc er þeir vâro skírþir, fögnuðu allir menn þessu. Lèt konúngr þá sitia yfir siálfs síns borði í miclum veg; oc sýndiz honum þat maclict, at þeir menn er þá höfþu tekit af hans fortölum ærfð himnescrar ætleifðar, at þeir tœki oc með honum hátíðlegan fagnað oc kou-

únglect boð oc vináttu. Oc er þeir sátu oc druckn glaðir, oc skemtuðu sèr, þá sögþu þeir konúngi oc byscupi, oc allum mönnum þeim er við vâru, sýn þá hina fögru er þeir hafðu sèt, bæði liósit, oc svâ er þeir fundu hafuðit; þeir sögþu þetta með athuga oc áhyggio. Konúngr biðr þá sýna sèr hafuðit oc byscupi, oc svâ gerþu þeir. Oc er hann hafði sèt, þá mælti hann: þetta er at vísu heilags mannz hafuð. Sýnir nú síþan allum hinum beztum mönnum, oc segir með miclum fagnaði. Eptir þat fóro þessir menn heim, oc styrcþir í heilagri trú. Fóru þeir glaþir oc með sœmð, oc hèlldu vel konúngs boð síþan.

*Frá Ólafi konúngi.*

26. Svâ barsc at eitt sinn at einn bóndi, milldr oc meinlauss, com til eyiarennar Selio, oc fór síþan á fund Ólafs konúngs, oc sagþi honum atburð þann er orðit hafþi, at mærr[1] hans hvarf ábrot, oc fór hann lengi at leita: oc um síþir sá ec hvar hon stóð í þessi eyio scamt frá sundinu, oc á utanverðri oc vestr á eyna, þar vâru miclir hamrar; oc þá geck ec þángat, herra, oc sá ec þar liós mikit á þeim degi, oc í þeim stað, oc optliga síþan. Oc er konúngr heyrþi oc byscup, þá gerðu þeir ferð sína með scyndíngu til þessar eyiar, oc rannsökuðu þeir hana vandliga, oc var þessi bóndi leiðtogi. Þeir fundu vestr á eyna hamra micla, oc sá at þar hafþu verit forðum hellar miclir oc firir scömmu fallnir; leituðu nú vandliga um þenna stað, oc fundu milli steinanna mart beina með sœtum hilm. Oc

[1]) *þannig.*

nú vâru þau samansafnuð at konúngs ráði oc byscups, oc hirð vandlega í þeirre ey. Oc at bœn byscups oc konúngs ráði var þar kirkia ger, oc helguð þessum guðs mönnum er þar vâro. Oc í þeim stað veitir almáttigr guð micla miscun firir þeirra manna verþléic, er þar hvíla, allt til þessa dags. Slíct hit sama verþa oc mörg tocn í annarri eyio er Kinn heitir; ero þar oc helgir dómar þessarrar sveitar, sem í Selio. Oc veitir guð firir hvârratveggio sakir margar iartegnir firir milldi sína oc miscunn.

*Frá Sunnefu.*

27. Þat segia menn at á dögum Hákonar jarls urðu þau tíþendi, at konúngs dóttir á Írlandi hèt Sunneva; hon tóc eptir faþir[1] sinn ærfð oc eignir miclar. Oc til þess gerþisc hervíkíngr nocqvorr at heria þángat oc þröngva hennar ráðahag, oc gerði henni II costi, annathvârt at hon berðiz við hann, eþa gengi með honum elligar. En hon villdi firir engan mun gánga meþ honum, því at hann var heiðinn. Hon átti þá þíng við sína menn, oc bað menn gera svâ vel at velia sèr þann cost, at láta helldr fóstriörð sína, en hella út svâ margs mannz blóði firir hennar sakir: því at ec vil eigi liva með svâ margfölldum hásca, at liva með heiðnum víkíngi. Nú völþu margir sèr þann cost, at fylgia henni, því at hon var drotníng þeirra. Í ferð rèðz með henni bróþir hennar, er Albanus hèt, oc margir þiónustumenn, konur oc börn. Pro sustentatione racio assumunt[2]. Nú sýndi hon sek meirr treyst-

---

[1]) *þannig; réttara* föþur *eða* faður. [2]) *þannig.*

asc guði en veralldlegu fulltíngi, oc fal hon sek á hendi allzvalldanda guði. Nú hófu þau up . . . (*hèr vantar líklega 2 blöð*) . . . cǫlluðu þá allir á nafn drottins; en fiandinn þóttiz nú miök týna sinni sœmð, svâ sem aucaðiz guðs ríki.

*Frá Eiríki konúngi í Svíþióð.*

28. Í þann tíma er ríkði yfir Noregi Hákon jarl var Eiríkr konúngr í Svíþióð. Oc eptir þá hina frægia orrostu er hann hafði átt við Styrbiörn oc fèck sigr með þeim hætti, at Oddiner[1] gaf honum sigrinn, en hann hèt því til at hann gafsc Oddineri[2] til eptir hit Xda ár, oc síþan var hann callaðr Eiríkr hin sigrsæli. Þessi Styrbiörn var allra manna vascastr oc ágetastr af herscap sínum; hann hafði svâ mikinn her ímóti konúngi, þá er hann geck á land í Svíaríki, at Eiríkr konúngr óttaðiz miök hans afl. En svâ segia menn, at svâ mikill diöfuls craptr fylgþi, at II luti liðs hans felldi Eiríkr konúngr með fiölkýngi, en at lyctum fèll allt lið hans oc svâ siálfr Styrbiörn. Eiríkr konúngr átti Sigríði hina stórráðu, oc var þeirra son Ólafr svænski. Þat segia menn at konúngrinn villdi skilia við Sigríði drotníngu, oc villdi eigi hava ofsa hennar oc ofmetnað, oc setti hana drotníngu yfir Gautlandi. En konúngr átti síþan dóttur Hákonar jarls. Eptir hann tók ríki son hans Ólafr. En þá báðu Sigríðar Vissivalldr Austrvegs konúngr, oc Haralldr grenski Uplendínga konúngr. En henni þótti sèr lítilræði í því, er smákonúngar báðu hennar, en þeim dirfð í, er þeir ætluðu sèr þvílíca drotníngo; oc firir

[1]) *þannig; líklega* Óðinn; *sjá hèrum Fornm. S. I*, 250.
[2]) Óðni.

því brendi hon þá inni báða á einni nótt, oc þar lèt oc líf sitt gafugr maðr er hèt Þórir, faþir Þóris hundz, er barðiz við hinn helga Ólaf konúng á Sticlastöðum, oc eptir þetta verk var hon cölluð Sigríð hin stórráða.

*Frá Ólafi Tryggvasyni oc Sigríði drotníngu.*

29. Oc er Ólafr konúngr Tryggvason heyrði, at svâ mikit orð fór af þessi drotníngu, er rèþ firir Gautlandi, þá villdi hann fá þat ríki oc hana með drotníng; sendi hann þá göfuglega menn til Upsala í Svíþióð, því at hon var þá þar, oc bera þeir henni örendi síns herra, oc segia allan atburð sinnar ferþar. Oc er drotníng heyrði þetta, þá tók hon tal oc ráðagerþir við vini sína; en frá lyctum er at segia at hon fastnaðiz Ólafi konúngi. Fóru sendimenn aptr, oc sögþu sínum hærra sín örendi, oc varð hann glaðr við þat. Oc síþan sendi hann drotníngu ríng; sá var ásýnis sem gull, oc var þat callað festarfè. Hríngr þessi hafþi verit í hofi einu miclu, er Hákon jarl hafþi átt. Drotníng tók við ríngnum með fagnaði, oc lovaði þá miöc hans stórlyndi; oc nú girnisc hon miök at giptaz þvílíkum konúngi. Svâ berr þá til eitt sinn, at drotníng hèllt á hríngnum, oc lèc sèr at; þá sá hon í einum stað döcnaðan hrínginn, callar hon þá til sín gullsmið einn, oc bað hann reyna gullit; oc hann gerði svâ, oc var þessi ríngr af málmi gerr oc eiri, oc gylldr allr. Þá reiddiz drotníng miök, oc bað í sundr brióta hrínginn, oc senda aptr Ólafi konúngi, oc sagþi hann flærðsamlega gert

hava oc af miclu spotti við hana: oc engi ráð vil ec við hann eiga.

*Frá því er Sigvalldi tók Svein konúng.*

30. Þá er Haralldr Gormsson var andaðr, tók ríki son hans Sveinn tiúguskegg. En Burizleifr konúngr í Vindlandi var scattgilldr undir Dana konúng. Burizleifr konúngr átti III dœtr; hèt ein Ázstríð, annur Gunnhilldr, þriðia Þýri. Þá var Sigvalldi jarl í Jómsborg; hann fór til fundar við konúnginn Burizleif, oc gerði honum II costi, at hann lèsc myndu íbrot fara or borginni, nema konúngr gipti honum Ástríðe dóttur sína. Konúngr svarar: tignara manni hafða ec ætlat at gipta hana en þú ert; en þó scal þèr eigi frá vísa; þú scallt coma híngat Sveini konúngi or Danmörk með fá menn á minn fund, svâ at ec eiga valld hans. Þessu iátar Sigvalldi, oc binda þetta fastmælum með sèr. Oc á sama sumri ferr Sigvalldi með III skipum oc CCC manna; hann kömr til Siólandz, oc hefir frèttir til at Sveinn konúngr er scamt þaðan á veizlu; hann leggr skip sín við eitt nes, þar er hvergi vâro skip nær. Sveinn konúngr var við VI hundruð manna á veizlunni. Sigvalldi snýr framstafnum frá landi, oc tengir saman hvert af stafni annars, oc leggia árar allar í háreiðar. Síþan sendir hann menn til konúngs, oc bað þá segia konúngi, at hann villdi finna hann firir nauðsyn; oc þar liggi við líf hans oc ríki: en þèr segit mek siúkan oc at bana cominn. Nú fara sendimenn til konúngs oc bera up örendi sín. Oc er konúngr heyrði þetta, þá ferr hann þegar ovan til skipa

með fiölþa liðs. Sigvalldi lá á skipi því er yzt var; hann mælti við sína menn: þá er XXX manna eru comnir með konúngi á þat skip er næst er landi, þá scâlu þèr kippa bryggionni af landi, oc mæla svâ at þeir söckvi eigi skipunum undir þeim; en konúngr man gánga fyrstr; oc er XX menn ero comnir á miðskipit, þá scal kippa þeirre bryggionni; en þá er konúngr kömr á hit yzta skipit með X mann, þá scal taca af bryggiona milli skipanna. Kömr nú konúngr með lið sitt, oc spyrr at Sigvalldi jarl liggr siúkr miök á hinu yzta skipi. Gengr nú konúngr á þat skip er næst var landi, oc svâ hvert at aðru; þar til er hann com á skip Sigvallda. En menn Sigvallda fara nú svâ með, sem hann mælti. Oc er konúngr var cominn á skipit Sigvallda með X mann, þá spurði konúngr, hvârt Sigvalldi hefði mál sitt; honum var sagt at hann hafði mál sitt, oc var þó máttlítill. Konúngr gengr at honum, oc lýtr niðr miök, oc spyrr hvernig hann megi, eða hvat hann kunni segia, þat er honum liggi svâ mikit við. Sigvalldi mælti: lút þú at mèr, herra, þá mant þú nema, hvat ec mæli. Oc er konúngr lýtr at honum, þá tóc Sigvalldi báðum höndum um hann miðian, oc hèllt honum fast. Sigvalldi callar þá, oc biðr menn róa sem mest; oc svâ gera þeir, oc berr skiótt frá landi. En þessi VI hundruð manna standa á landi oc siá á brotför konúngsins. Þá mælti Sveinn konúngr til Sigvallda: hver er ætlan þín við oss, eða hvat bersc þú firir? Jarlinn svarar: ec scal segia

yðr, herra, allt efnit til þessa bragðz; jak[1] hefi beðit dóttur Burizleifs konúngs yðr til handa, hon er væn oc vel at sèr um alla luti; gerða ek þetta firir sakir vináttu við yðr, at eigi misti þèr hins bezta qvânfángs. Sveinn konúngr spyrr, hvat mærin hèt. Sigvalldi segir at hon hèt Gunnhilldr; en mèr er föstnuð, segir Sigvalldi, [annur dóttir konúngs[2]. Nú man ec fara til Burizleifs konúngs, oc vitia þessa mála firir hvârstveggia hönd. Ferr nú Sigvalldi til konúngs, oc callaz nú cominn til ráðanna við dóttur hans, oc segir at nú er Sveinn konúngr cominn til Jómsborgar, oc á þeirra valld. En hugað hefi ec ráð, segir Sigvalldi jarl, at þú scallt gipta Gunnhilldi, dóttur þína, Sveini konúngi: oc gerit hans för híngat góða oc sœmilega, en hann vinni þat til at hann gefi up allar landscylldir oc scatta. Nú geck þetta allt fram sem Sigvalldi mælti, at Sveinn konúngr gaf up alla scatta, oc geck at eiga Gunnhilldi, oc fœrir Sveinn konúngr sèr allt í nyt þat er til virþíngar mátti verþa, en þó callaz hann nú siá allt ráð oc brögð Sigvallda. Ferr nú konúngr heim með konu sína, oc hefir XXX stórskipa oc mikit lið. En hann gerði Sigvallda jarl útlagþan af ættiörð sinni firir svik sín, oc var hann brottu um hríð.

*Frá þíngi Ólafs konúngs.*

31. Á aðru ári ríkis Ólafs konúngs Tryggvasonar stefndi hann fiölmennt þíng hiá Stað á Dragseiði, oc spurðiz þetta boð konúngs víða um hèruð, oc sótti þángat útallegr lýðr, bæði

[1]) *þannig.* [2]) *viðbætt; v. A.*

konur oc karlar, úngir menn oc gamlir. Oc er menn vâro comnir svâ víþa af hèruðum, sem kraft var, þá stóð konúngr up oc mælti til fólksins: guð þacki yðr híngatcomu; en at þèr vitið hvat yþr sómir, þá man ec segia yðr stórmerki allmáttigs guðs, oc boða yðr hans heilact nafn. En þat segia menn, þá er konúngr boðaði nafn drottins, at svâ mikill kraptr fylgþi hans máli, at þeir er þángat qvomo með hörðu brjósti, oc torsveigþir vâru trúna at taca, en svâ mýkþi fagrliga hiörtu þeirra sœtleikr orþa hans oc málsnilld sú er þeir heyrðu af hans munni, oc tócu þeir þacsamliga við hans örendi; oc var svâ iafnan síþan, er hinn helgi Martínus byscup[1] hafþi vitrazk honum, oc heitið honum at hvert sinn er hann flytti fram guðs örendi, myndi hann mæla firir munn hans oc styrkia hans örendi. Oc firir því þótti allum œskilect at taca við feginsamliga því er hann mælti. En þó at vèr rœþim fátt um firir sakir úfróðleika, þá þótti allum dásamlect at lýða orðum hans. Var nú fiölþi manna skírðr, þeir er rètt trúðu, oc vâru þeir nocqvora daga með konúngi oc byscupi, oc styrcðu þeir þá í heilagri trú, oc kendu þeim cristilect lögmál, oc bað þá kirkior reisa í hverio hèraði.

*Frá sæiðmannum.*

32. Þat bauð Ólafr konúngr at allir fiölkunnigir menn oc þeir er með fornan átrúnað fóru, oc einkanliga þeir allir, hvârt er vâro konur eþa callar, er Norðmenn calla seiðmenn, þá gerþi

[1]) *hèr er cyða fyrir nokkrum orðum.*

hann alla útlagða, oc bauð at drepa þá svâ sem sekia menn eða manndrápsmenn, ef þeir yrði sannir at því. Þessa þíngs getr Sæmundr prestr hinn fróði, er ágetr var at speki, oc mælti svâ: Á aðru ári ríkis Ólafs Tryggvasonar samnaði hann saman mikit fólk, oc átti þíng á Staði á Dragseiði, oc lèt eigi af at boða mönnum rètta trú, fyrr en þeir tócu skírn. Ólafr konúngr hepti miök rán oc stulþi oc manndráp; hann gaf oc góð lög fólkinu oc góðan sið. Svâ hefir Sæmundr ritað um Ólaf konúng í sinni bók: hann safnaði saman allum þeim mönnum, er fóru með diöfulegan crapt, í Niþarnes, oc vâru þeim skip búin, oc lèt hann at þat fólc skylldi fara af landi á brot. Í þeirri sveit var sá maðr, er Eyvindr hèt; hann var af göfuglegri ætt, hann var hinn þriði maðr eða hinn fióði frá Haralldi hárfagra. Konúngr gcck á fund þeirra, oc mælti: Mikinn scaða geri þèr mèr oc mínu ríki í yðarri brautferð; oc í vârum skilnaði man mèr vera meiri missa en hiálp, at þèr farit fra mèr, með svâ miclum kröptum oc megni, er þèr hafiþ umfram aðra menn. En firir þá sök at nú hefir miök viþ gengiz vâr framflutníng oc boð í landi þessu, at cristni gángi yfir, þá sýniz oss þat nauðsyn, at þèr oc þessconar menn farit af landi; en giarna villda ec at þèr lægþit[1] eigi fiandscap til mín eða yðarr craptr ylmðiz eigi til vârrar tignar; nú vil ec bióða yðr til veizlu, er ec hefi búit með hinum beztum föngum, áðr en þèr stígit á skip. Þeir þacka konúngi þessi orð, oc tóku með

[1]) *þannig; á at lesast:* legðit.

fagnaði, oc báðu hann fylla þat með verkum er hann hèt með orðum. Þá bauð konúngr sínum mönnum búa þeim mikit hús til fagnaðar, at þeir metti þar glaðir þiggia veizlu. Oc er húsit var búit, þá biðr hann þángat fœra allzkyns krásir oc dryck, beði miöð oc mungát; oc drucku þeir nú ákaft, oc neyttu hvârstveggia með vanstilli. Oc um nóttina barsc þat at vâveifliga at þeir vöcnuðu við þat, at scálinn logaði yfir þeim, oc um allt húsit flugu logbrandar, oc varþ þar[1] gnýr mikill oc ógorlegr, gerðiz þar grátr mikill oc sýtíng bæþi qvenna oc karla. En Eyvindr, er allra þeirra, er inni vâro, kunni mesta fiölkýngi, hann comz or eldinum með þeim hetti, at hann leypr sem hinn fimasti hiörtr oc með vèlum diöfulegrar íþróttar; hann lióp á þvertrè í húsinu, oc síþan á vaglinn, oc af vaglinum oc út í glugginn, oc forþaðisc svâ einn af allum þeim er inni vâru. Flýþi hann síþan íbrot. Oc er hann geck um dag leiðar sinnar, fann hann menn Ólafs konúngs á gatu sinni, oc mælti at þeir scylldu segia konúngi qveðiu[2] hans oc vinsamlig orð: oc segit honum svâ, at ec komumk brot or elldinum[3], oc alldri scal ec verit hava marglátari í allum lutum en nú.

*Frá Hróalldi.*

33. *Svâ er sagt*, at einn blótmaðr hèt Hróalldr, hann bió í Goðey, hann var ríkr oc mikill firir sèr; hann heitr á guðin optliga oc fœrir þeim fórnir á hveriom degi, oc bað þau lítillátlega, at þau hlífþi honum, at eigi væri honum

[1]) *eða* þat. [2]) *leiðrètt*; qveðia, *A.* [3]) *leiðrètt*; elldinn, *A.*

þrönct til átrúnaðar annars, oc eigi væri hann af Ólafi konúngi brotflæmðr af föstriörðu sinni. Svâ miök var þessi maðr blecþr af fiandans teygíngu at guðin veittu honum svör firir sínar fórnir. Oc nú frèttir Ólafr konúngr til þessa mannz, oc býr þángat ferð sína, oc í hvert sinn er hann bióz til ferðar, þá gerði andviðri ímóti, svâ at hann mátti eigi fara á skipum til eyjar þeirrar, oc fór svâ nocqvorum sinnum at hvert sinn heptiz ferð þeirra, oc lá konúngr lengi til þessar ferþar. Hróalldr callaði úaflátliga á guðin, at þau stœþi vel ímóti guþi Ólafs, oc fœrði þeim fórnir. Oc er Ólafr konúngr hafði lengi vafiz í þessum ráðum, er at vísu má vel kallaz vegr Norðmanna, tóc hann þá þat ráð, sem allzvalldandi guð kendi honum, oc bað hann þá þángat leita hiálpar sem guð var, oc fœra honum fórnir, at hann gefi þeim byrleiþi ímóti þessum vindi[1], er hann sá at gerr var ímóti þeim af fiandans crapti. Hètu þeir nú, konúngr oc byscup, á guð siálvan, oc þegar com hœgr byrr, oc gerþu þeir guði þackir; sigla þeir nú fagran byr, oc þá gerir II vinda á siónum, oc svâ sem hvârr berðiz ímóti aðrum; þá tóc byscup eitt ker mikit, oc lèt í vatn, oc blezaði, oc castaði síþan á sióinn ímóti vindinum oc bylgionum, þeim er ímóti gengu, oc lægþuz þær, en skipin géngu mikit. Oc með fulltíngi almáttugs guðs, þá comuz þeir til eyiarinnar, oc lögþu í lœgi skipunum, oc gengu á land, oc tócu þenna hinn micla guðs úvin oc sinn, oc gera honum II costi,

[1]) *leiðrètt*; vindum, *A.*

hvârt hann vill láta sið sinn, oc hava líf sitt oc vingan þeirra, eða deyia. Konúngr bað hann til stundum blíðum orðum, en stundum stríðum, oc hèt honum hörðum píslum. Hann neigþiz ecki af sinni þrályndi, hvârki geck hann firir blíðyrðum nè ógnarmálum. Oc er konúngr hèt honum dauðanum, þá mælti hann: þat hœfir mèr oc sœmilegra er mèr þat at þola helldr dauþann, en láta þiónustu guða vârra. Oc er konúngr sá, hversu hann var þrályndr á sitt mál, þá bauð hann at festa hann up á hávan gálga, oc var siá dauþi hans.

*Frá Háleyiom.*

34. Norðr á Hálogalandi vâro III ættstórir menn oc auðgir, hèt einn Þórir, oc var callaðr hiörtr; annarr hèt Hárekr, þriði Eyvindr kinnriva; þessir vâro blótmenn miclir, oc villdu eigi láta sið frænda sinna. Oc er þeir vissu von Ólafs konúngs norðr þángat, þá söfnuðu þeir ímóti honum miclu liði oc mörgum skipum, oc ætluðu at banna honum at hann kœmi í þeirra ríki, oc beriast ímóti honum, er hann boðaði þeim annan sið, en þeir hefði áðr. Oc er Ólafr konúngr heyrþi þetta, þá hepti hann ferþ sína at sinni til fundar við þá. Oc fór þá fyrst austr til Ælfi, sem siþr er til at konúngar hittisc af Danmörk oc Noregi eða Englandi oc Saxlandi. Oc nú hittr Ólafr konúngr drotníng af Gautlandi Sigríþi; oc töluðu þau sín ímilli, oc fóru þar allir lutir sáttgiarnliga, oc þar com rœþan at hann veic til at hann myndi fá hennar, oc com allt ásamt með þeim at einum af tecnum, at hon vill

eigi cristnasc láta. Oc konúngr talar hèrum lengi firir henni, oc veitti hon eigi þartil sitt samþycki. Þá reiddiz konúngr, oc laust glóva sínum á kinn henni, oc mælti: hvat ætlar þú, hin gamla hrockinskinna, at ec vilia taca þic til konu mèr, ef þú trúir eigi á guðs nafn[1]. Oc af þessi sök gerþiz drotníng reið miök, svâ at margan dag síþan var hon í miclum umsátum um Ólaf konúng, oc dró at lánct ráð. Oc síþan giptiz Sigríð Sveini Danakonúngi.

*Frá Ólafi konúngi.*

35. Á þessu sumri lèt Ólafr gera skip mikit oc frítt, þat var callat Traninn, þat bar af allum skipum um vöxt oc fegrð oc skiótleik. Á þeim dögum qvomu margir menn til Ólafs konúngs; þeir er ágetir vâro at stercleik oc allu atgervi, oc gerði hann þá sína hirðmenn; oc hvar sem hann spurði sterca menn, eða spekínga at viti, eða at nocqvoru abbragðz menn, þá spanði hann alla til sín, oc gerði sèr kera. Oc svâ sem hann var firir aðrum konúngum um alla luti, svâ valþi hann með sèr þá menn, er mest vâru afbragð annarra manna um alla luti; hèllt hann þá oc miclu betr oc ríkulegarr en aþrir höfþíngiar. Einn af hans villdarmönnum hèt Aki hinn danski; hann var oc danskr at ætt; hann segir konúngi, at systir Sveins konúngs hèt Þyri, hon var hin fríðasta cona oc hin ríkasta: var ec oc varnaðarmaðr hennar um hríð, oc reyndiz mèr hon mikill scörúngr; hon á miclar eignir í Falstr. Oc firir því at Áki lovar miök, þá fèllz konúngi vel

[1]) *leiðrétt*; nafns, *A*.

í scap. Oc eru þeir menn er þat segia, at hon var gefin þeim manni er Biörn hèt, oc veri hon í Noregi um ríð, þar sem callat er þyrileif; oc ef þetta er satt, þá er þat vitað, at hon hefir eigi mær verit helldr göfugleg eckia.

*Íslendínga þáttr.*

36. þess er getið eitt haust, at skip comu af Íslandi til Noregs, oc hèldu þeir inn um Agðanes oc til Niðaróss; þar var nocqvot þorp sett oc kaupstaðr, þar var þá oc Ólafr konúngr. þar vâru þá komnir nocqvorir íslendskir menn, oc höfðo þeir at selia bæði vaðmál oc vararfelldi. þar var þórarinn Nefúlfsson, Kiartan Ólafsson oc Hallfröðr. þriú skip vâro þá firir bryggiom, oc átti eitt Hallfröðr, annat Brandr hinn örvi Vermundarson, oc þorleifr Brandzson, þeir vâro brœþrúngar; þriðia átti Kiartan oc þórarinn. þrimsinnum leituðu þeir til brautferþar, oc gaf alldrigi byr; lágu þeir nú firir bryggiom. þeir sá einn dag, er veðr var gott, at menn fóru á sund, at skemta sèr, oc lèk einn miclu bestzt. þá rœddi Kiartan um við Hallfröð, at hann scylldi reyna sund við þann er bezt lèk. Nei, segir hann, þar er sá maðr, er ec man ecki keppaz við. Hvar kömr þá kapp þitt? segir Kiartan. Svâ sem þat er, segir Hallfröðr. Ec scal þá reyna við hann, segir Kiartan, oc þá afclæddiz hann, oc leypr síþan út á ána oc til þess mannz, er bezt lèc, oc tekr fót hans oc fœrír hann í kaf, oc eru niðre um ríð, oc koma up síþan, oc mælaz ecki við, oc fara niðr aðru sinni, oc eru þá lengr niðri, koma[1] enn up, oc síþan fara þeir

[1]) *leisrètt;* komi, *A.*

niðr þriðia sinni, oc ero þá niðri miclu lengst, oc þyckir Kiartan þá mál up; oc er þá engi costr, oc kennir þá aflsmunar; þeir eru lengi niðri um þat fram er honum þótti hóflict, oc comaz up síþan, oc fara til landz. Þá spurði sá máðr er (or) bœnum com, hvat þessi maðr hèt, hann nefndiz Kiartan. Þú ert sundfœrr vel, eða ert þú at aðrum íðróttum iam vel búinn? Hann segir at miök eru aðrar þar eptir, þó eru í slícu litlar íþróttir, segir hann. En hví spyrr þú enskis ímóti, (sagði) bœiarmaðr. Ec ætla mek öngu skipta, hverr þú ert, segir Kiartan. Ec man þó segia þèr, segir hann, við konúnginn hefir þú reynt sundit. Nú spyrr konúngr at ætt hans; hann segir sem var. Eptir þat snýr Kiartan ábrot, hann var skickiolauss. Konúngr bað hann þiggia af sèr skickio: þvíat ec vil geva þèr. Hann þackaði konúngi vel; ferr hann nú síþan til skipa sinna, oc segir fèlögum sínum slíct sem í hefir gerzk. Þeim lícar þetta stór illa, oc þótti hann hava gengit á valld konúngs. Veðráttu gerir illa, svâ at sialldan mundu menn þvílíca, oc kendu þeir því mest um, er Kiartan hafði þegit skickiona af konúngi, oc guðin myndu reizk hava firir þat. Þat fannz á, at konúnginum hafði vel lícat við Kiartan, því at honum sýndiz hann merkilegr maðr. Þeir Íslendíngar vâru allir saman um vetrinn í bœnum. Veðrátta batnar, oc kömr mart manna til bœarins, oc dregr at iólum. Oc vissu menn at konúngr myndi mikit auka siðferði sitt gott um iólin; oc var mörgum mikil forvitni á. Ólafr konúngr

lèt gera kirkio í bœnum, oc jólanóttina var athœfi konúngsins oc allra cristinna manna harðla siðlict, oc lýddu tíþum scynsamliga, oc síþan gengu menn í herbergi. Ólafr konúngr sendi menn til at vita, hvat þeir Íslendíngar rœddi um atferli þeirra, eða hversu þeim hugnaði; oc nú heyrðu konúngsmenn þeirra tal; oc spurði hverr annan, en þeir rœddu misiafnt um. Þeir spyria Kiartan, hversu honum þætti; hann svarar: eigi berr þat all smám[1], hversu vel mèr sýniz þeirra athæfi; hefir mèr opt vel litiz á konúnginn fyrr, en alldri betr en nú, oc miclu þótti mèr nú mest um vert; oc þat hygg ec, at sá hafi betr er honum þiónar, oc allra hellz þeim er hann boðar. Síþan hætta þeir þessu tali; gánga þá konúngs menn brot, oc segia honum. Annan dag ióla biðr konúngr gánga eptir Kiartani, oc kœmr hann á konúngs fund, oc qveðr hann vel. Konúngr tóc því vel. Taca þeir tal; oc boðar konúngr honum rètta trú, oc skilsc Kiartani þat allt vel, oc tekr hann skírn, oc öll skipsögn hans, annan dag ióla. Oc við trú tók Hallfröþr oc hans skipsögn; oc er svâ sagt, at hann gerþi konúngi cost, at siálfr hann scylldi hallda honum undir skírn, en elligar neitaði hann. En konúngr villdi þat miclu helldr, oc (var hann) af því callaðr Hallfröðr vandræðascálld. Kiartan geck til handa konúngi, oc nocqvorir aðrir göfgir menn. Oc allum skipsögnum boðaði konúngr guðs örendi, oc minnti opt á trúna, en margir neituðu. Oc þá bannaði konúngr þeim öll kaup,

[1]) *Iannig.*

oc allum mönnum at selia þeim. Oc er þeir velcðuz þar lengi svâ halldnir, þá neyttu þeir góðs ráðs oc vitrlegs, oc tócu trú allir, áþr en lètti. En Kiartan var með Ólafi konúngi.

*Frá Ólafi konúngi oc þángbrandi presti.*

37. Nocqvoru áðr hafði Ólafr konúngr sent orð til Íslandz: prest þann er þángbrandr hèt, saxnescan at kyni; hann kendi mönnum trú á Íslandi, oc skírþi alla þá er við trú tócu. En Hallr á Síþu þorsteinsson Böðvarssonar hins hvíta af Vors, er lönd nam í Álptafirði hinum syðra, hann lèt skíraz snimmendis, oc þeir Hiallte Skeggiason or þiórsárdal, oc Gitsurr hinn hvíti Teitzson, oc margir aðrir höfþíngiar. En þó vâro þeir fleiri er ímóti mælto. En þángbrandr com skipi sínu í Álptafirði, oc var at þverá um vetrinn; oc er hann hafði hèr verit I vetr eða II, þá fór hann ábrot, oc hafði þá vegit II menn eða III, þá er ímóti höfðu mællt. Oc í þenna tíma com þángbrandr af Íslandi, oc segir konúngi sitt örendi lítið orðit, en qvað menn mikinn úþocka lýst hava við hann; lèzk hann boðit hava mönnum cristni á Íslandi: en þeir buðu mèr bardaga ímót. Konúngr varð við þetta reiðr miök, oc lèt taca íslendska menn, oc lèt suma ræna, en suma dræpa, en suma meiða. Oc þat hit sama sumar comu þeir Hiallti Skeggiason oc Gitsurr hvíti, oc fóru á konúngs fund, oc töluðu mál Íslendínga, oc sögþu at menn myndu við taca cristni á Íslandi, æf ráðum væri at farit; en qváðu þángbrand við fá menn vingaz hava á Íslandi. Ólafr konúngr mælti þá: ef þit vilit

þessa menn undan þiggia, þá scolu (þit) fara til Íslandz, oc boða þar helga trú. þessu iáta þeir. Oc lèt nú konúngr alla íslendzca menn fara í friði firir þeirra sakir, nema fióra, Kiartan Ólafsson oc Svertíng Runólfsson guða oc II aðra; segir konúngr at frendr þeirra munu ráða, hvârt þeir scolu hava allgott örendi eða eigi: þvíat þeir manu hèr vera í gíslíngu þartil er hann spyrr af Íslandi. þeir Hiallti oc Gitsurr vâru með konúngi um vetrinn; en at sumre biogguz þeir út með konúngs örendi; fær hann þeim í hendr mikit fè, at vingasc við höfþíngia; prestr sá fór með þeim er þormóðr hèt; oc qvomu þeir út í Vestmannaeyiom, er X vicur vâro af sumre. Annat sumar áðr var þat lögtekit at menn scyldu svâ coma til þíngs; en þartil höfþu menn comit vicu fyrr. Oc þeir fóru þegar inn til landz or eyionum, oc síþan til þíngs. En Hiallti var eptir í Laugardal með XII mann, því at hann hafði áðr orðit sekr fiörb*augs*maðr hit næsta sumar um guðgá; en þat varð til þess, at hann hafði qveðit qviðlíng þenna at lögbergi:

Vil ec eigi guð geyia,
grey þycki mèr Freyia,
æ man annattveggia
Óðinn grey eða Freyia.

þeir Gitsurr fóru nú til þess er þeir comu í þann stað hiá Ölvusvatni, er Vællancatla h*eitir*; þeir gerðu þá orð vinum sínum til þíngvallar, at þeir kœmi ímóti þeim, því at þeir hafðu spurt at úvinir þeirra ætluðu at veria þeim vígi þíngvöllinn. Oc áðr þeir ríði þaðan, kömr þar Hiallti

oc þeir menn er með honum vâro. Hiallti hafði út haft II crossa mikla, oc var annarr hæð Ólafs konúngs, oc hafði Hiallti þá með sèr til þíngs. Riðu þeir nú á völlinn, oc comu frendr þeirra áðr ímóti þeim oc vinir. Nú samnaz saman hinir heiðnu menn með alvæpni, oc lá við at menn myndu beriaz. En annan dag eptir gengu menn til lögbergs, oc svâ þeir Gitsurr oc Hiallti, oc lèt Hiallti þá bera crossana til lögbergs, oc bera þeir up örendi sín; oc þótti allum mikils umvert, hversu vel þeir töluðu. Safnuðuz þá saman þeir er við cristni hefðu tekit, oc í annan stað hinir heiðnu; oc þá nefnir hverr vâtta at aðrum, oc segiaz or lögum hvârir við aðra, hinir heiðnu oc hinir cristnu; oc gengu síþan hinir heiðnu frá lögbergi. Síþan báðu hinir cristnu menn Hall af Síþu, at hann sagþi up lög þau er cristninni eigu at fylgia. En hann leystiz því af, at hann keypti at Þorgeiri lögsögumanni hálfri mörk silfrs, at hann segþi up; oc hann sagþi up, oc var hann þá heiðinn. Oc síþan gengu menn til búða. Oc þá lagðisc Þorgeirr niðr, oc breiddi felld sinn á höfuð sèr, oc lá hann þann dag allan, oc nóttina eptir, svâ at hann mælti ecki orð. Um morgininn eptir gerði hann orð í búðir, at menn scyldu gánga til lögbergs; oc er menn comu þar, sagþi hann svâ, at honum þótti hag manna comit í úvænt æfni, ef menn scylldu eigi ein lög hava hèr á landi; talþi hann nú á marga vega firir mönnum, oc sagþi úsætt myndu af standa, svâ at landauðn myndi af geraz. Hann sagþi oc frá því, at konúngarnir í

Noregi oc Danmörk hafðu úfrið lánga æfi sín í milli, allt til þess er landzmenn hvârstveggia gerþu frið milli þeirra, þó at þeir villdi eigi. En eptir þat sendi hvârr þeirra aðrum giavir, oc hèlldz sá friþr, meþan þeir lifþu: þycki mèr oc þat ráð at vèr látim þá eigi ráða, er mest vilia œsa úfrið, oc miðlumk svâ mál við, at hvârirtveggio hefði nocqvot til síns máls, en hafum allir ein lög oc einn sið. Oc svâ lauc hann síni máli, at allir iáttu því, at þeir scylldu ein lög hava, þau sem hann villdi up segia, því at hinir hæiðnu menn væntu, at eptir þeirra vilia myndi gert vera, því at sá var heiðinn, er up scylldi segia; en hinir cristnu hugþu, at hann myndi gera eptir kaupmála þeirra Hallz. Þá mælti Þorgeirr: þat vil ec fyrst at allir menn sè cristnir oc taki rètta trú þeir er eigi ero áþr skírþir; en um útburð barna scolu standa hin fornu lög, oc um hrossaslátrs át; blóta scolu menn á laun ef vilia, en varþa fiörb*augsgarð*, ef vâttum kœmi við. En fám vetrum síþarr var sú heiðni aftekin. Þenna atburð sagþi Teitr Ísleifsson, er cristni com á Ísland, oc á því sumri varþ landit alcristit af tilsetníngu Ólafs konúngs Tryggvasonar; oc hava menn þær miniar hans á Íslandi, at hann hefir cristnat landit.

*Frá Ólafi konúngi.*

38. Á einni hverri tíð comu til Ólafs konúngs II norœnir menn vestan af Englandi; hèt annarr Haucr, en annarr Sigurðr. Konúngr bauð þeim at hallda rètta trú oc sið cristinna manna, oc talði firir þeim iafnan; en þeir vâro sæigir á

sitt mál, oc tióaði ecki firirtölur hans. þá bað Ólafr konúngr setia þá í bönd, oc bað þá þó blíðum orðum at leiðrèttaz. þeir vâro þó svâ harðir í sinni útrú oc alldri hneigðuz þeir af sinni villu. þá berr svâ til at liðnum III nóttum, þá vâru þeir ábrottu, svâ at engi vissi, hvar þeir vâru comnir; oc var þeirra leitað, oc funnuz þeir eigi. Oc nú dofnar yfir þessu, oc líða stundir. Oc er liðnir eru fáir mánuðr, þá er sagt at þeir hava sènir verit norðr á Hálogalandi með Háreki, oc hefði þar mikinn sóma, oc þetta spyrr Ólafr konúngr.

*Frá Ólafi konúngi.*

39. Ok nú sá úvinr allz mannkyns diöfullinn siálfr, hversu eyðaz tók hans rèttr, er iafnan er gagnstaðlegr mannlegu œþli; hann sá nú hversu miök megnaðiz oc aukaðiz guðs rèttr; tók hann nú miök at övunda þat, hann bregðr nú á sek mannligri sýn, til þess at hann mætti þá auðvelligar svíkia menn, ef hann sýndiz svâ sem einnhverr maðr. þat barsc at þá er Ólafr konúngr tók veizlu á Augvallznesi, þat var á burðartíð vârs drottins Jesú cristz; oc er mönnum var skipað í sæti um qvelldit, oc búit var til dryckio, oc menn biðu þess er konúngsborðit væri sett, þá com í höllina einn gamall maðr oc einsýnn, hann hafði á höfði hött síþan; hann var málugr miök; oc kunni mart segia; hann var leiddr firir konúnginn; oc konúngr spurþi hann tíþenda; oc hann qvaðz mart kunna segia frá fornkonúngum oc orrostum þeirra. Konúngr spyrr, ef hann vissi hverr Augvalldr veri, sá er nesit var

við kennt. Hann svarar: hann bió hèr á nesinu, oc lagþi ælscu micla á eina kú, svâ at hon scylldi fara með honum hvert sem hann fór, oc villdi hann drecka hennar miólk. Oc því mæla menn svâ, þeir er fèit ælsca, at allt scal fara saman karl oc kýr. Siá konúngr átti margar orrostur; oc þat var eitt sinn er hann barðiz við konúnginn, er rèð firir Scoruströnd, sá hèt Varinn, í þessum bardaga varð mikit mannspell, oc þar fèll Augvalldr konúngr, oc var síþan heygþr hèr á nesinu, oc man haugr hans hèr hittaz scamt frá bœnum; oc í aðrum haugi er kýrin. Nú síþan fór dryckia fram eptir siðvenio, oc allr fagnaðr sá er til var ætlaðr. Oc eptir þat fóru margir at sova. Þá lèt konúngr calla til tals við sek þenna hinn gamla mann, oc sat hann á fótscörinni firir hvílu konúngs, oc spyrr konúngr margra tíþenda, en hann leysti vel oc fróðliga. Oc er hann hafði lengi sagt, oc or mörgum lutum vel leyst, þá girntiz konúngr æ því meirr á hans rœþu, oc vakir konúngr nú lengi um nóttina, oc spurþi margra luta. Oc um síþir minnti byscup á nocqvorum orðum, at konúngr hætti at tala við hann; konúngi þótti þó annars vant, er hann hafði annat sagt. Oc er á leið nóttina, þá sofnaði konúngr, oc litlu síþarr vacnaði hann, oc spurði hvart gestrinn vecði; hann svarar öngu. Konúngr mælti þá við varðmenn at þeir leitaði hans, oc fannz hann eigi. Konúngr reis þá up, oc bað kalla til sín byrla oc steikara, oc spyrr ef nocqvor úkuðr maðr hefði comit til þeirra, þá er þeir bioggu veizlunna. Steikara höfþíngi

mælti: hærra, com til vâr maðr firir scammu, oc mælti til mín, er ec bió slátr til krása yðr: hví búi þèr þvílík slátr á konúngs borð oc hans gœþínga, er svâ eru mögr. Ec bað hann fá til hin feitari slátr oc þau er sœmilegri væri, ef hann hefði þau til. Hann mælti: gack með mèr, oc mân ec sýna þèr feit slátr oc góð, þau er vel hœva á konúngs borð. Oc þá leiddi hann mek til húss nocqvors, oc sýndi mèr tvær síður af naute allfæitar; oc þær bió ec til vista yðr, herra! Oc nú skilði konúngr at þetta vâro vèlar diöfulsins, oc mælti þá til steikarans: tak nú þessi slátr, oc casta á siá út, svâ at engi maðr hafi þar fœzlu af, oc ef nocqvorr maðr bergir því, þá man hann skiótt deyia; en hvat ætli þèr, hverr þessi diöfull man verit hava, gestrinn? Eigi vitum vèr, segia þeir, hverr hann er. Konúngr mælti: þat hygg ec at siá diöfull havi verit með ásiónu Óðins. Nú eptir konúngs boði vâro slátrin íbrot borin oc kastat á sió út. En gestrinn fannz eigi, oc var hans víða leitat um nesit at konúngs ráði.

*Frá Ólafi konúngi oc Eyvindi kelldu.*

40. Sá atburðr gerþiz á þeirre samu nótt, er konúngr oc byscup vâro at tíðum, oc messur fóro fram, þá kœmr við nesit sá maðr er fyrr var nefndr, er Eyvindr kellda hèt, sá hinn sami maðr er brot comz or elldinum, þá er sæiðmenn vâro brendir; hann hafði nú skip fim, oc var cominn af hafi, oc leggia nú í lœgi nær bœnum á Augvallznesi; hann þóttisc nú eiga mikit traust, þar sem lið hans var, oc þó þar mest sem vâro fiölkunnigir menn, því at þeir vâro margir

í hans sveit, en þó kunni hann þeirra flest. Oc nú ætlar hann at gánga at Ólafi konúngi, oc drepa hann með allu liði sínu. En nú com þat hèr fram, sem psálmascálldit segir, at illzca hans steig yfir höfuð honum, oc í þeirre snöru, sem siálfr hann hafði eygt[1], varðr hann oc siálfr veiddr í. Oc nú gânga (þeir) af skipum síaum, oc up á eyna, oc til þeirrar kirkio, er konúngr oc byscup oc allt cristit fólk var þá at staddt. Oc er Eyvindr sá heilaga kirkio, þá varð hann blindr oc allir hans menn. Gengu þeir þá aptr oc fram um eyna. Oc er konúngr hafði lýtt III messum, þá geck hann or kirkio, oc sá mennina, er fóru svâ undarliga, oc sendi síþan menn at vita, hverìr þeir væri, oc hver sök til væri þeirrar ferðar. Nú fara sendimenn oc finna þá, oc spyria, hverìr þeir sè, eða hví þeir fara svâ. Hinir segia nú með hræzlu, hverìr þeir ero, oc hvat þeir villdu, eða hverio undri þeir vâro orðnir. Oc nú var sagt konúngi; hann bauð þeim þá saman samna, oc setia í varðhalld. En annan dag eptir bað Ólafr konúngr flytia þá alla bundna af skipum sínum oc til skers þess, er liggr norðr frá nesinu, þar sem endiz Karmsund; oc þar bað hann höggva þá alla; oc var þar drepinn Eyvindr oc allir hans menn; oc eru þar síþan callat Scrattasker allt til þessa dags. En á hinum fiórða degi bað konúngr brióta hauginn hvârutveggia, oc funduz í hinum meira mannzbein, en kýr í hinum minna, oc sýndiz nú opinberliga allum at þessi hinn gamli maðr hafði suma luti sagt satt;

[1]) *þannig*; *vanalegast* egnt.

oc af því skilþu menn at hann villdi bleckia bæði konúnginn oc aðra með diöfulegri slœgþ, er hann tók svefninn frá konúnginum öndverþa nóttina, oc á þeirri tíð er fram fór guðs embætti; mætti þeir þá síðr vaka, er þeir höfðu áðr mist svefnsins; hafði hann svâ sett bragþit, at byscup scylldi eigi svâ fagrliga hallda sem siðr er til þá hina dýru hátíð; oc hafði úvinr allz mannkyns svâ fyrirbúit tálsamligar snörur vèlarinnar, at fyrst fœri hann öndunum en síþan líkomunum; en þessir lutir allir sneruz sem maclict var honum til svívirðíngar oc niðranar, oc svâ miclu meirr sem sýndiz slœgþ hans, svâ miclu meirr var hann nú niðrtroðinn oc svívirðr af allu fólki cristinna manna.

*Frá Ólafi konúngi.*

41. Á hinu þriðia ári ríkis Ólafs konúngs lèt hann gera skip mikit oc ágetlict, þvílíct sem hit fyrra, oc með þvílíkum hagleik; þetta skip var callat Ormr hinn scammi. En þat segia menn sið manna norðr á Hálogalandi, at leggia micla stund á veiðar, bæði dýraveiði oc fisca oc hvala, oc er þat mikil hiálp mörgum, bæði fátœkum mönnum oc búöndum er þat gott til fiáraflanar. Svâ er sagt, at einn hvern dag er veðr var gott at þeir Haukr oc Sigurðr rœþa við Hárek at þat væri skemtan at róa til fisca í svâ fögro logni. Hárekr tók því vel, oc settu fram róðrarscútu eina micla, oc gengu þar á með nocqvorum mönnum, oc vâro þeir fleiri fèlagar þeirra Hauks oc Sigurðar; oc er þeir comu lángt frá landi, þá

taca þeir Haukr oc Sigurþr oc þeirra menn, oc falla hart við árar, oc stefna suðr með landi, oc eigi lèttu þeir fyrr ferþinni, en þeir comu til þrondheims, oc fagnaði konúngr þeim vel; hann tóc þegar at boða Háreki helga trú; oc var þar at marga daga, því at hann sá, hversu mikit við lá um svâ ríkan mann, at hann sneri honum áleiðis; en hann skipaðiz ecki við. Konúngr bauð honum þá mikit ríki, oc þar með sína vináttu, oc sagþi at þetta var þó lítilsvert hiá því er hann scylldi taca eilífliga ímóti; hann bauð honum þá II fylki til forráða, ef hann neitaði guðum sínum, en trýði á Crist, oc taca skírn. En þat er fylki callat með Norðmönnum er gera má af XII skip alskipuð af mönnum oc vâpnum, oc á hverio skipi LX manna eþa LXX, sem þá var siþr til. Hárekr neitaði þessu skiótt. þá spyrr konúngr, ef hann vili hava valld yfir III fylkiom, en hann neitaði því; konúngr spurði, ef hann villdi IIII fylki; oc því iátti Hárekr. þá varð konúngr glaðr við, oc bað hann skírn taca, oc þá Hauk oc Sigurð oc alla þá fèlaga; mælltu þeir þá oc ecki ímóti; oc var þetta gert á hinu þriðia ári ríkis Ólafs konúngs. Fór þá Hárekr heim eptir þat. Konúngr bað hann engum manni segia norðr þar þá luti er í höfþu gerðz, oc svâ gerði hann; fórsc honum vel heim. Oc litlu síþarr tók Hárekr Eyvind kinnrivu með vèlum, oc flutti hann á fund Ólafs konúngs. Oc hann tóc þegar at boða honum úaflátliga guðs örendi, oc lagþi á allan hug at snúa honum frá blótum; en hann neitaði með mikilli þrályndi. þá bað

konúngr hann til með blíðmæli, oc bauð honum veralliga tign, oc micla sœmð, ef hann lèti villu sína. Oc þar com um síþir at konúngr bauð honum ríki yfir fim fylkiom, ef hann villdi cristnaz. En hann neitaði þrásamliga. Þá bauð konúngr honum, at setia scylldi á qvið honum munnlaug fulla af elldi. Oc er hann kendi hitans; þá spurði konúngr, ef hann villdi iáta cristninni. Eigi, sagþi hann; en þó bið ec, at þèr lýðit því, er ec segi, oc hyggit at vandliga! Konúngr mælti: seg þá luti, er þèr lícar, en vèr munum lýða. Eyvindr mælti: faðir minn oc móðir vâro saman lánga hríð með lögligum hiúscap, oc áttu ecki barn; oc er þau ellduz, þá hörmuðu þau þat miöc, ef þau dœi erfíngialauss. Fóru þau síþan til Finna með mikit fè, oc báðu þá geva sèr nocqvorn ærfíngia af fiölkýngis íþrott. Finnar cölluðu þá til höfþíngia þeirra anda, er loptit byggia, fyrir því at iafnfullt er loptit af úhreinum andum, sem iörðin. Oc siá andi sendi einn úreinan anda í þessa hina döcku myrqvastovu, er at sönnu má callaz minnar móþur qviðr; oc sá hinn sami andi em ek, oc hollguðumk ec svâ með þessum hetti, oc síþan sýndumc ec með mannlegri ásiá, oc var ec svâ borinn í heim, tóc ec oc erfð eptir föþur minn oc móður oc mikinn höfþíngscap, oc firir því má ec eigi scírasc, at ec em eigi maðr; oc er hann hafþi þetta sagt, þá dó hann. Eptir þetta bió Ólafr konúngr mikinn skipaher, oc ætlar norðr á Hálogaland, oc var þá í ferþ með honum Jón byscup oc Hárecr. Oc er þórir veit sönn tíþendi af þessu,

þá safnar hann liði ímóti konúngi, oc ætlar at beriaz við hann; oc nú finnaz þeir, oc slær þar í ákafligan bardagá, oc fèll miök liðit þóris, oc hruþuz skip hans. Oc er þórir sá marga menn sína falla, en suma flýia, þá lagþi hann at landi oc flýði; en konúngr sœkir eptir. Oc þegar er þórir com at landi, þá lèt hann skipin, oc lióp á land; oc er þat sá einn maðr konúngsins, þá scaut hann eptir honum ör, oc kom milli herþa þóri, oc gekk þar á hól, oc fèll hann, oc í því lióp fram af hans lícama einn mikill hiörtr með ákafri rás; oc er þetta sá hundr konúngs Vígi, þá lióp hann eptir hirtinum, oc sœkir hann grimlega; en er Ólafr konúngr sá þenna atburð, þá lióp hann lánct á land up eptir þeim umfram sína menn; oc hann sèr at þeir hittuz, hundrinn oc hiörtrinn, oc var þar harðr atgángr; beit hundrinn hiörtinn, en hiörtrinn stángaði hundinn, oc svâ lauk at þeir fèllu báþir; kömr konúngr þá at, oc finnr hiörtinn dauðan með mörgum sárum; hundrinn var oc miök (sár) undir bœginum. þá coma menn konúngs at, oc sýndi hann þæim hræ hiartarins, oc var þat þá þurt oc lètt ácafliga, svâ sem belgr blásinn. En hundinn höfðu þeir til skipa, oc vöfðu hann í dúki; oc síþan lèt konúngr senda hann til finnzins þess, er þeir höfðu hitt fyrr, oc bað konúngr hann grœþa hundinn. Oc svâ var at fiðrinn grœddi hundinn á fám mánuðum, oc sendi síþan til konúngs. Ólafr konúngr boðaði nú Háleyiom rètta trú, oc vâru þar margir menn skírðir, sem hann fór um Hálogaland; fal hann þessi hèruð öll á

hendi Háreki. En Ólafr konúngr fór aptr til Þrondheims með mikilli sœmð. En þó at þvílíkir lutir sè sagþir frá slícum scrimslum oc undrum, sem nú var sagt, þá má slíct víst útrúlict þyckia; en allir menn vita þat at fiandinn er iafnan gagnstaðligr almáttigum guði, oc þeir hinir aumu menn er guði hafna; en fiandinn svíkr með allzsconar vèlum oc svikræðum, oc vekr up sinn úreinan anda með hinum vestum lutum, þeim ímóti er guði þióna, oc blindar siónir þeirra oc öll vit lícamans, þá bleckir hann oc tælir með mörgum lutum. En þessa luti er vèr segiom frá slícum lutum oc dœmisögum, þá dœmum vèr þat eigi sannleik, at svâ hafi verit; helldr hyggiom vèr at svâ hafi sýnnz, því at fiandinn er fullr up flærðar oc illzku.

*Kvânfáng Burizleifs konúngs.*

42. Þat er sagt at Burizleifr konúngr af Vinðlandi bað Þyri, systur Sveins konúngs af Danmörk, oc varð honum þat mál auðsótt af konúngi firir sakir megþa oc neyþleitа þeirra, er áðr vâro þeirra ímillum, oc var konunni heitit. En Burizleifr konúngr var hæiðinn oc gamall; en Þyri var ecki við þetta ráð. Fór nú Burizleifr heim til Vinþlandz með tilgiöf Þyri; en Sveinn konúngr scylldi senda hana til Vinðlandz nocqvoru síþarr. Nú spyrr Þyri þessi tíþendi, oc mælti svâ, at betra þœtti henni bani sinn en byggia meþ heiðnum konúngi oc spilla svâ cristni sinni; oc firir því sat hon at búum sínum miök marga vetr. En er svâ fór fram, þá lícaði illa Gunhilldi, dóttur Burizleifs konúngs, þat er Þyri

sat í búum þeim er Sveinn hafði gefið til hennar, þá er hann fèck hennar, oc kerði hon opt þetta mál firir konúngi. En Burizleifr konúngr unði illa við sinn lut, oc sendi optliga orð Gunhilldi dóttur sinni, at hon beiddi Svein konúng senda systur sína þyri til Vinðlandz, sem hann hafði heitit. Oc firir sakir bœnar Gunnhilldar gerþi Sveinn konúngr þetta, oc sendir þyri menn, oc segir at hann vill finna hana; oc hon kom; en hann lèt skip búa oc fær til menn oc sendir þyri til Vinðlandz. Oc er hon com til Burizleifs konúngs, lèt hann æfna micla veizlu oc gerði brullaup til hennar. En svâ segia menn, at meðan hon var í valldi Burizleifs konúngs, at hvârki át hon nè drack, oc fór svâ fram XI daga; en á XII degi þá lèt konúngr hana brot fara. Oc segir svâ Rúphus prestr frá því er konúngr leiddi hana ábrot, oc áðr hann hvarf aptr, þá mælti hann: sè ec nú, at göfugleikr yðarr vill helldr velia sèr þann cost til handa sèr at deyia, en neyta samvelldis við mek; nú man ec láta þek brot fara, oc fá þèr menn oc skip. Fór hon þá heim í Falstr, oc var þar um hríð. Hon sendi þá menn til Noregs til Áka, fóstrföþur síns, at hann byriaði hennar mál við Ólaf konúng Tryggvason, at hann veri henni til hlífðar ímóti úvinum sínum: því at ec treystumk eigi, segir hon, at sitia hèr firir Sveini konúngi, bróþr mínum, því at hann ætlar at senda mek aðru sinni til Vinðlandz. Nú coma sendimenn til Áka, oc segia honum örendi; oc hann gengr þegar firir konúng, oc segir honum hennar vandræði, oc biðr

hann hiálpa henni með nocqvoru móti, at eigi beri svâ optarr til at hon komi í slíca mannraun: oc veit ec at helldr vill hon giptaz cristnum manni. Konúngr tóc vel þessum rœþum, oc segir at hann scal siá um hennar cost. Áki segir at hon þarf hans hiálpræða, at eigi sè hon neydd til at vera með hæiðnum konúngi. Nú heitr konúngr sinni tilqvâmu oc heyra hennar orð, eþa með hverri blíðu þá væri er þau fyndisc. Oc nú þegar í stað lætr konúngr skip búa oc miök vanda allt til þeirrar ferþar; hann velr oc til þeirrar ferþar alla þá menn er kurteisastir vâru. Oc nú ferr hann, er hann er búinn; oc er hann com þar, geck hann up með sína sveit. Var honum vel fagnat, oc drotníng siálf geck ímóti honum, oc skipaði honum í hásæti; en hon sættiz á tal við hann, oc kerir sitt mál. Oc þá spyrr konúngr, ef hon vili at hann sè hennar varnaðarmaðr, oc gezlu um alla luti, oc hvârt hon villdi iáta þeirra samvelldi, eða villdi hon fá sèr annan forstióra. Hon mælti þá: eigi næita ec svâ frægiom oc ágetum konúngi, sem þú ert. Nú rœddu þau þetta mál, þartil er þat varð at framkvemð at þyri fastnar sek siálf Ólafi konúngi með ráði Áka fóstra síns. Var þá sú veizla aukuð, oc gert brullaup þeirra með mikilli sœmð. Oc á þeim degi, er sú veizla stóð, oc konúngr sat í hásæti oc út í frá höfþíngiar oc ríkir menn, oc vâru gladdir með miði oc víni oc aðrum fagnaði mörgum, þá sendir konúngr þórarin Nefúlfsson, vitran mann, þángat sem sú veizla stóð, er konur drucku; oc er hann com fírir hana,

laut hann henni, oc mælti: haf góðan dag, frú! minn herra sendi mek híngat til yðar, oc girnez hann at vita, hvârt hann scal velia yðarri tign, oc þat er sómir vegsamligu lífi yðru, lín, fè eða beckiargiöf. Drotníng svarar svâ: minn herra ætli þat með siálfum sèr, hvârt mèr er sœmelegra, eþa hann vill mèr velia; en segia vil ec honum, at níu nætr var ec í konúnglegri reckio hiá konúngi; nú veit konúngr ef mèr væri skipat IX nætr hiá honum í konúnglegri reckio, hversu hann myndi gera. Oc er Þórarinn heyrði svör hennar, þá bað hann drotníngu hafa góðan dag, oc laut henni. Nú kömr hann til konúngs, oc segir honum svör hennar. Oc lícaði konúngi vel hennar svör, oc sendi þegar ágetlega skickio með góðum búnaði. Oc eptir þessa veizlu ferr konúngr heim í sitt ríki með mikilli gleði, oc var þá Þyri drotníng í för með honum.

*Frá guða brote.*

43. Þat hafði Ólafr konúngr fundit at þrœndir, þeir er verit hafðu með honum, hafðu átrúnuð mikinn enn á guðunum, oc mest þar er Freyr var. Oc nú lastaði konúngr miöc siðinn þeirra; en þeir mælto ímóti honum, oc var sem þeir hefði nocqvor kappmæli ámillum sín, oc hafðu cappróðr mikinn milli skipanna, hafðu þeir II skip, oc scorti eigi at til var lagz fast róðrarins. Oc kom konúngr fyrri til landz, oc þegar sneri hann til hofsins, oc braut í sundr öll goþin; oc sneri síþan aptr ímóti sínum mönnum, oc hafði konúngr þá Frey með sèr. Oc er þrœndir comu ímóti konúngi, þá brýtr konúngr Frey ísundr í

augliti þeirra í smá luti. En þeir sneru þá til sín góðu ráði, oc firirlètu fornan átrúnað, oc gerþu eptir konúngs boði, oc sættuz við hann.

*Kvânfáng Sveins Dana konúngs.*

44. En er Sveinn konúngr spyrr þetta, lícar honum stórilla, er þetta var gert at úleyfi hans; oc litlu síþarr andaðiz Gunnhilldr drotníng, er átti Sveinn konúngr, oc áttu þau tvâ sonu; hèt annarr Haralldr, en annarr Knútr. Eptir þetta fèck Sveinn konúngr Sigríðar hinnar stórráðu, er áðr hafði átt Eiríkr sigrsæli; hon var móþir Ólafs svensca; hana hafði festa sèr áðr Ólafr konúngr Tryggvason, oc lèt lausar festar, því at hon var heiðin, oc villdi eigi við trú taca. En Ólafr konúngr villdi oc eigi heiðnaz firir hennar (sakir), oc laust hann hana þá með glóva sínum.

*Frá Ólafi konúngi.*

45. Þat sýniz mönnum minníngar vert oc frásagnar, at í eyio þeirri er Brímángr heitir, þar er hátt fiall oc miök torsótlect, þat er callat Smalsarhorn af Norðmönnum. Þar hefir Ólafr konúngr gengit up í fiallit oc fest þar up sciölld sinn í ovanverþu fiallinu; en fiallit sýniz miök yfirgnapa aðrum fiöllum, oc náliga scúta yfir fram sióinn. Oc svâ er sagt at II hirðmenn konúngs hafðu micla þrætu milli sín, hvârr betr myndi gánga bergit, eða lengra comaz up í fiallit; oc um síþir veþia þeir með miclu fè, oc bundu þetta fastmælum, bigguz síþan til, oc geck annarr lánct í fiallit up, oc þar til geck hann, at hvârki þorði hann at gánga þaðan up nè ovan, oc til hvârigrar handar þorði hann at siá; hann

stóð nú með skiálvandum beinum, oc ugg oc ótta, at hann myndi falla or þeim stað með beinbroti eða bráðum bana, oc beið svâ hörmulega síns dauða, oc kallaði á konúng oc hans menn, at þeir hiálpaði honum. En annarr stóð nocqvoru neðarr, oc hafþi sá eigi loptmegin til at gánga hæra, oc skiálfraþi allr, oc fèck þó borgit sèr nauðuliga. Oc er konúngr sá at engi villdi hiálpa honum, en hann var búinn til fallz; þá lagþi hann af sèr silkimöttul, oc gyrði sek með dúki; síþan steig hann (af) skipinu, oc geck up í hamarinn, oc tóc þenna hinn vesla mann höndum, oc gerði hann hólpinn; oc hafði hann undir hendi sèr sem barn, oc bar til skips.

*Frá Ólafi konúngi.*

46. Þat hœfir oc at segia, er mikils er vert, at Ólafr konúngr var opt því vanr at svima í brynio sinni, oc fara or henni í kafi; en þá er hann barðisc undir merkiom, þá tók hann á lopti fliúgandi kesior oc örvar, svâ vinstri hendi sem hœgri, oc sendi aptr iafnt báðum höndum. Hann var hveriom manni fimari oc skiótare, oc í bardögum röscqvari oc snarpari, oc þó at eptir sè leitat um heiminn, þá mon eigi finnaz þvílíkr maðr at allri atgervi oc hreysti á allum Norðrlöndum. Oc er hann sigldi, þá var hann byrsæll; oc svâ segia menn at hann sigldi þat opt á einum degi, er aðrir sigldu II eða III, oc í mörgum lutum var hans gipt lánct umfram aðra menn.

*Frá Ólafi konúngi.*

47. Eigi hœfir þá luti um at líða, er allmátt-

igr guð veitti Ólafi konúngi micla dýrð hèr í heimi firir sitt starf oc optligar framflutníngar heilagra bœna, oc dyrcaði guð Ólaf konúng með mörgum kröptum. þat barsc at stundum, þá er Ólafr konúngr var á skipum sínum, oc margir varðmenn hèlldu vörð ýfir honum, com hann þá stundum er minnzt varði af landi ovan at þeim, oc geck á skip sín leynilega, oc ætluðu varðmenn at hann svæfi í hvílu sinni í lyptíngu, oc undroþuz þeir er þeir vurðu eigi varir við er hann geck íbrot, oc þóttuz þeir þó mikinn vörð á hallda; en eigi at síðr sá þeir göngu hans af landi ovan; oc þó at dögg væri á iörðu, þá vâru þó alldrigi fundin spor hans nè sèn, helldr steig hann á skip þurrum fótum. þat barsc at eitt sinn, at II menn göfgir forvitnuðuz um ferþ konúngs, Guðbrandr or Dalum oc þorkell dyðrill, oc setia ráð sitt, at verþa varir um ferþ hans. Oc einn morgin snimma sat þorkell á brúarsporði, oc hèllt vörð um ferþ konúngs; oc er hann varir minzt, com konúngr at honum vaveifliga, oc rekr þorkel á kaf af bryggionni, oc bað hann þat hava firir forvitni sína, oc síþan lagþiz konúngr til hans, oc tók hann af sundi, oc setti hann á bryggiona: vit þú nú þá, hvart vættiz dyðrillinn. Síðan gengu þeir út á skip báðir. En firir vináttu oc ælscu er konúngr hafði við þorkel, oc firir ákafliga bœn hans, at hann segþi honum, til hvers hann fór svâ optliga af skipunum með þvílíkri launúngu oc einnsaman; oc á einni nótt tók konúngr á fótum þorkeli, oc bað hann lióðlega gánga með sèr; þeir gengu á

land oc til eins scógar er nær var skipunum; oc er þeir comu í scóginn, mælti konúngr: statt þú nú hèr við trè þetta, oc bíð mín, en ec geng scamma leið, oc köm ec skiótt aptr; en þú hygg at því at þú gângir eigi lengra fram; konúngr geck þá fram í scóginn, þar er rióðr nocqvot var. Þá sá hann þá sýn er hann vâttaði mörgum vetrum síþarr, er hann sagþi Haralldi Sigurðarsyni, oc bar þetta vitni með sannyrðum, at Ólafr konúngr bað til guðs, oc rètti hendr sínar til himins; oc þá com yfir hann liós mikit, svâ at varla qvaðzk hann ímóti mega siá; oc þá qvaðzk hann siá II menn scrýdda dýrlegum clæðum, oc leggia hendr sínar yfir hafuð konúngi, oc qvaðzk hann guði þacka, er hann scylldi ná at siá þvílíca sýn; hann heyrði fagran söng oc kendi ágetligan hilm með þessu liósi; oc er fram liðu II stundir eða III nætrinnar, þá hvarf liósit af, kom þá konúngr til Þorkels, oc biðr þá gánga til skipanna. Konúngr bannaði honum at segia þenna atburð nè einum manni, meðan hann lifði, en hætti honum dauða, ef hann brygþi af; oc þat æfndi hann, því at hann var hinn mesti vin konúngs. Oc mörgum vetrum eptir andlát Ólafs konúngs, þá er Þorkell var gamall maðr, þá sagþi hann þenna atburð Haralldi konúngi, oc virði hann Þorkel hinn sannsöglasta mann.

*Frá Ólafi konúngi.*

48. Svâ er sagt at þat barsc at á einni hverri tíð er Ólafr konúngr geck frá messù, oc settisc í hásæti sitt, oc menn hans vâro comnir í sæti sín, at hann hvarf skiótt frá augliti þeirra, oc

spurði hverr annan, hvar hann væri; en þat vissu þeir at hann geck eigi ábrot or höllinni, oc urðu allir á þat sáttir. Oc er byscup heyrði tal þeirra, þá mælti hann: ec kann segia yðr, hvarr ec sè hann standa; hann stendr í miðri höll oc talar við þann mann er þèr meguð eigi siá; oc litlu síþarr sá þeir konúng í sæti sínu. Oc er þeir vissu þvílíca luti; þá trúðu þeir at hann væri guðs engill, sændr af himnum, oc hann væri þeim líkari en mönnum. Svâ callaði hann gafugr maðr, Guðbrandr or Dalum, at hann væri ivanligr konúngr þeim sýndr; æða á hvâru honum þóttu vera meiri líkendi, at hann væri sem iarðligir konúngar aðrir á iarðríki, eða veri hann ængill, sændr af guði, oc hulðr mannligu holldi firir mönnum, til þess at hann flytte fram firir mörgum þióðum nafn drottins Jesú cristz. En þat er sagt at Ólafr konúngr Tryggvason cristnaði fim lönd, oc þat fólk er þau bygþu. En eigi var þess at von, at fólkit myndi verþa lýðit með siþum eða fullri trú við guð, því at stundin var scömm, en fólkit hart oc styrct í útrúnni, oc villdi seint láta sið frenda sinna; kennimanna fæð var oc mikil, oc þó údiarfir þeir er vâro firir sakir úvizku oc úkunnandi, at fara með danscri túngu, þvíat þeir vâru miök firirlitnir af mönnum. En þessi eru heiti landa þeirra er hann cristnaði: Noregr, Hialtland, Orkneyiar, Færeyiar, Ísland, Grœnland. Oc var þó miök með nafni einu cristnin í mörgum stöðum, oc svâ myndi oc orðit hava, nema comit hefði annarr at styrkia hana oc undir sek at brióta

fólkit; oc var sá með sama nafni, er var Ólafr Haralldzson, er þó hafði engu minna crapta til at styrkia guðs cristni, en stundina miclu lengri. En firir því at starvit var mikit oc stundin scömm, at samna sauðum í guðs al*máttugs* sauðahús, þá var svâ sem vangert stœþi eptir guðs verk, firir því at fiallbygþir lágu eigi undir Noregs konúnga, er með siónum rícðu, því at Uplendínga konúngar, er fylkiom rèðu, þiónuðu til Svía konúngs; þá tócu þeir fáir við cristni; oc hvarvetna í fiarrlægiom bygþum oc víðum fiöllum um allan Noreg oc í afdölum eða útnesium, þá blótuðu margir leynilega scurðguð, oc treystuz þó eigi at láta þ*au* heima vera í húsum sínum, oc trúðu á scóga oc biörg, eða tiarnir. Oc þat gerðiz til tíþenda eptir fráfall Ólafs konúngs Tryggvasonar, at á hinu XV ári síþan com Ólafr konúngr Haralldzson á Uplönd, oc tóc á einu hausti V konúnga í sitt valld, oc cristnaði hann Uplönd oc lèt brióta fiölþa scurðguða. Svâ er at virþa sem Ólafr konúngr hinn fyrri æfnaði oc setti grundvöllinn cristninnar með sínu starfi, en hinn síþarri Ólafr reisti veggi, oc Ólafr Tryggvason setti um garðinn, en hinn helgi Ólafr prýddi hann oc aucaði með miclum ávexti. Oc eigi at eins gerþi Ólafr hinn helgi sína nauðsyn, helldr oc allra þeirra er hann bar áhyggio firir; en þar á ovan hellde hann út síþan sínum dreyra til hiálpar allu sínu fólki í helgu lífláti sínu; oc nú bera vitni um margar iartegnir hans at hann er í himinríkis dýrð með almáttigum guði, oc allir Norðmenn hava hann sinn foríngia, oc árn-

anda, bæði við guð oc við menn, hiálpar oc miscunnar. En þessi Ólafr Tryggvason, síþan er hann lèt ríkit í þeim hinum micla bardaga, er hann barðiz á Orminum lánga, þá er hann brot numinn frá oss, svâ at eigi *mega* þat glögt vita iarðligir menn, hvers heilagleiks hann er; oc eigi er þat sýnt með hveriom tácnum oc iartegnum hann er, en engi ivar þat at hann er af guði sendr. Gerði guð hann oc forkunnlegra aðrum konúngum oc dásamligan í allum farsæligum lutum: oc því er þat allum oss nauðsynlect at lova nafn drottins Jesú crịstz firir þenna mann, er hann gaf svâ mikinn mátt oc atgerfi, á þá leið sem vèr lofum guð af hinum helga Ólafi konúngi.

*Frá Orminum lánga.*

49. Á hinu fiórða ári ríkis Ólafs konúngs, lèt hann gera skip þat, er harðla er frægt orðit oc ágett; þat var smíðat inn frá Hlöðum í Víkinni, inn frá Laðhömrum, við fiörðinn siálvan; er þar nocqvor dælþ oc vallgróit, oc coma þar ecki stór veþr, því at bæði hlífir innan af firði oc utan; oc eru fiórar álnir hins átta tigar þat er iarðlægt var; en útalit þat er til stafna vissi. Oc er skipit var smíðat, þá bauð konúngr at þángat scylldi coma mikit fólk at siá þetta skip. Oc þá er menn sá, lofuðu allir er til comu, bæði at mikilleik oc fegrð; svâ at alldrigi myndi þvílíct skip gert hava verit í Noregi. Oc er konúngr heyrþi at allir lovaðu þetta ákaflega, þá lícaði konúngi vel. En nocqvorum dögum síþarr þá finnaz á skipinu III högg mikil; var höggvit í borðit með mikilli bolöxi; oc er

konúngr vissi þetta, þá varð hann reiðr miök; oc leitaði eptir fast, hverr þat hefði gert; en engi geck við; þá geck konúngr til, at siá höggin í borðinu, oc mælti þá af mikilli reiði: þeim manni gef ec mörk gullz, er þann mann drepr er svâ mikil meizl hefir fœrt at skipinu oc gert mèr scaþa oc svívirðíng. Oc lítlu síðarr com á fund konúngs hafuðsmiðr, sá er gert hafði skipit oc allra var hagastr; hann callar konúnginn á leyndar tal, oc mælti svâ: herra minn, hirð eigi at dœma aðrum mönnum svâ þúngligan dóm oc háscasamligan firir þenna lut; því at ec velld, er skipit er höggvit, oc scapa þú mèr firir slíct víti sem þú villt. Konúngr mælti: hví gerþir þú þat, eða firir hveria sök. Hann svarar: því at mèr sýndiz vangört at, oc vænti ec at betr man vera, ef af er tekit borðunum, því at mèr sýnduz borð skipsins helldr há; hygg ec at fegra myni þyckia, ef þau eru ger lægri; oc ef þú villt at ec gera at, þá scal ec gera þetta hit fegrsta skip oc hit sœmilegsta at allum lutum. Konúngr lèzc þat vilia. Geck þá smiðr til, oc gerþi at sem hann hèt konúngi, oc fegr*a*ði með miclum hagleic; oc er lokit var, þá segir hann konúngi at hann hafþi gert sem hann kunni, oc kom nú til, hærra, oc sè! Oc eptir bœn hans fór konúngr til oc sá, oc varð glaðr við, oc lovaði miök, oc gaf honum mikit kaup. Síþan lèt konúngr steina skipit með allzscyns litum, oc síþan gylla oc prýða með silfri, oc á framstafni skipsins var drecahafuð, oc eigi fœri árar á borð en tvær hins sètta tegar. Þá var gefit

nafn skipinu á norœna túngu oc callaðr Ormr hinn lángi; en á latínu túngu heitir hann longus draco eða serpens; oc siálfr konúngr stýrði þessu skipi, oc setr sveitir til, hverir vera scolu â honum, oc valði til menn af allu ríki sínu, þá er stercastir vâro oc bezt vâpnfœrir í allum Noregi; oc af þvílíkum lutum fèck konúngr micla frægþ, er hann lèt slíct skip gera; allir þóttuz nú oc siá at miclo var nú fegra skipit oc allt við sek meirr, oc svâ hafði smiðrinn til hœft, at eigi var of diúpt höggvit oc eigi of grunnt; svâ hafþi hann höggvit af miclum hagleik. Engi maðr scylldi búa á þessu skipi ýngri en tvítugr, oc engi ellri en LX. Eigi scylldu coma á þetta skip bleyþimenn, nè ölmusur, oc náliga var engum mannum veitt þetta skip, nema hann væri abburðarmaðr at nocqvoru, sem dœm finnaz til, þar er sagt er frá Ólafi konúngi oc hans mönnum.

*Frá yfirlitum Ólafs konúngs.*

50. Ólafr konúngr Tryggvason var mikill maðr vexti, oc allra manna kurteisastr, ullhvítr á hár, oc rètthárr, hvítbrúnn, oc lióss í yfirlitum, hveriom manni vænni, oc eygþr allra manna beztr; oc þat hava þeir menn mællt er glögt hava vitat at eigi hafi II menn verit lícari í allri atgerfi oc kurteisi en Ólafr konúngr Tryggvason oc Hákon Aðalsteinsfóstri, oc var Hákon enn afrendari maðr at afli, oc gat þó eigi Ólafs iafníngia um hans daga. Ólafr konúngr hèllt trú allra manna fyrst í Noregi; hânum geck vel ráð sitt, áðr hann tœki trúna, en síþan miclu

betr; því at hann hafði marga luti þá með sèr, er menn máttu skilia at af guðs crapti var meirr en af iarðligri tign. Oc hvar sem hann stefndi í landinu þíng, oc söfnuðuz saman ríkir menn, oc ætluðo at mæla ímóti honum, oc mátti þar heyra talat mart sniallt örendi, oc þó at bœndr talaði sniallt, þá brásc þó þat yfir iafnan er konúngr talaði, því at hann hafði sannendi at mæla; en þó varð hann þá miök at teyia til oc mart stórt til at vinna, áðr við gengiz um trúna. Ólafr konúngr hafði fylct dóttur Járnskeggia af Yriom. Á hinu fiórða ári ríkis Ólafs konúngs átti hann þíng í þrondheimi inn á Frostu, VIII fylcna þíng, com þar fiölmenni mikit oc höfþíngiar ríkir. þar var Járnskeggi af Yriom, oc Styrkárr Eindriðason af Gimsum, oc Ormr lygra af Býnesi or Gaulardal, oc frændr þeirra margir. Siá Ormr átti Guð*rúno*, dóttur Bergþórs, systur Ásgauz or Selvâgi; þeirra móðir var þuríð, systir þóroddz or Olfosi. þeir stóðu allir saman á þínginu; en Ólafr konúngr talaði firir þeim rètta trú; oc er hann hafði talat sniallt örendi, þá svarar Járnskeggi oc mælti: ef þú lætr eigi af þessum boðum, þá mant þú hava farar Hákonar jarls. Konúngr sá at hann hafði ecki liðs við þeim, brá hann þá á þat at hann myndi samþyckia þeim, oc mælti: eigi hœfir mèr at hava afla yðarn ímóti mèr, því at yðart megin er harðla mikit, oc sýniz mèr þat konúngligra at auka helldr blótin, en þverra, oc scolu vèr oc þaðan at vera. Konúngr var þá bliðr í máli, en mikill í scapi. Oc nú var slitið þínginu, oc fóru lendir menn

oc ríkir bœndr inn í þrondheim á Mærini, oc vâru saman CCC manna, þar var hafuðhof, oc scylldi þar blóta; oc þángat var von konúngsins; oc fór konúngr þó heim fyrst af þínginu, oc síþan inn aptr, oc hafþi þá Orminn lánga einn skipa; oc var þá albúinn. þeir hava þá mannblót búit, er konúngr com til þeirra, oc ætluðu at neyða konúnginn til samþyckis við sek. þar var mikit fólc. Oc er konúngr com, þá beiddiz hann at gánga inn oc siá tíþir þeirra; geck hann þá inn oc hafði micla breiðöxe í hendi; blótbyscup þeirra var í göngu með honum. Oc er þeir comu inn, segir byscup konúngi, hvar hvergi þeirra var guðanna; en þórr var í miðio húsinu, oc hafði mest yfirlát. Ólafr konúngr geck firir þórr þar er hann sat; konúngr hóf up öxina, oc rak við eyra þór, svâ at hann raut á gólfit fram. Eptir þat geck konúngr út; oc í útgöngu hans, þá var Járnskeggi drepinn úti hiá hofinu milli manna konúngsins. Óláfr mælti þá: minnumk nú, sveinar, at vèr aukim blótin, oc blótum eigi þrælum nè gamalmenni, er enskis ero verþir, takit nú konur yðrar eða göfugmenni oc gefit guðunum! Oc er Járnskeggi var drepinn, brá þeim miöc við, bóndum, sá þeir at þat[1], at þeir höfðu hvârki við honum gefu nè harðræþi. Ólafr konúngr mælti þá til þeirra: samþyckiz nú við mek, oc verit í friði oc vingan minni; trúit nú á guð þann er sól lætr skína yfir rètláta oc rángláta, oc regna lætr yfir góða oc illa; trúit nú á einn guð, föður oc son oc

[1]) *þannig.*

helgan anda. Oc er konúngr hafði svâ mælt, þá stóð sú ógn af konúngi, at engi þorði ímóti at mæla; þóttuz þeir mikit afráð golldit hava, en þótti þó líclíct at fleiri myndi fara, ef þeir gengi eigi undir konúnginn; oc firir því tócu þeir gott ráð oc iáttu nú guði oc konúngs atqvæði; en síþan skírði byscup oc kennimenn VI hundroþ manna, oc umfram conur oc börn; oc varð þeim sú svívirðíng, er þeir ætluðu konúngi, at mikilli gefu. Fóru nú allir í friði oc lofuðu einn guð. En eptir víg Járnskeggia, oc síþan er konúngr hafþi fengit þat hit göfugliga ráð, drotnínguna þyri, þá lèt hann eina Guðrúnu, dóttur Járnskeggia; þótti henni sèr oc nær höggvit vera.

*Frá Ólafi konúngi oc Hróalldi.*

51. Hróalldr hèt maðr, er bió í Molldafirði, blótmaðr mikill oc ríkr, hann vildi eigi taca við cristni, eigi oc brot fara af sínum ætjörðum; hann var miök fiölkunnigr, oc neytti diöfulegrar íþróttar. En svâ fór fram III âr at siá hinn fiölkun*ni*gi maðr vacþi up II boða micla ímóti konúngi firir sínum hèruðum; oc með svâ miclum ákafleik at konúngr oc hans menn máttu eigi comasc á fund hans, oc engi án hans leyfi comsc í þat þorp er hann bygþi. Ólafr konúngr býr ferþ sína til hans; oc er hann com þar, er þessar bárur fèllo, þá býðr hann skiótt sigla á þer, oc yfir þá hina ógorlega boða; oc þegar er skipin rendu á boðana, þá lægþuz þeir oc fèllu niðr. Oc var Hróalldr tekinn höndum, oc boðaði konúngr honum trú rètta; en hann neitaði guðs nafni; en iátaði guðum sínum, oc

eptir þat sem maclect var, bauð konúngr at drepa hann, oc týndi hann macliga lífi sínu.

*Frá Ólafi konúngi.*

52. Þat barsc at á einu þíngi, oc í sama hèraði, at konúngr boðaði trúna, oc einn maðr máttugr oc málsniallr mellti ímóti konúngi. Þá lèt konúngr taca hann, oc bauð at einn yrmlíng lèti þeir scríða í munn honum, oc svâ var gert; tócu þeir orminn, oc lucu up munn mannzins, oc blæs hann ímóti orminum, en ormrinn rœcðiz frá munninum, oc villdi allt helldr en scríða í munn honum; þá lèt konúngr taca heitt iárn, oc binda við orminn, en þá er hann kendi hitans; þá screið hann í munn honum oc hrœcðiz þegar niðr í qviþinn, oc þar út, oc þá hafþi hann í munni sèr hiartat þessa mannz; oc at þessum lut sènum, þá varð ótti mikill oc hræzla yfir allu fólki heiðinna manna.

*Frá Ólafi konúngi, er hann beitti mann hundum.*

53. Eitt sumar com sá maðr til Íslandz er Grímr hèt, mikill maðr oc sterkr, oc hafði verit um ríð stafnbúi Ólafs konúngs. Sá maðr var í Borgarfirði er hèt þorkell trefill, höfþíngi mikill. En þat barsc at á þíngi í þröng mikilli at þorkell varð undir fótum troðinn, oc kendi hann þat Grími, oc firir þessa sök fylldiz þorkell up reiði mikillar við Grím, oc callaði til sín þann mann er Sigurðr hèt, mikill oc sterkr; teygir þorkell hann til svika við Grím, at hann hefni þessar svívirðíngar. Oc um qvelldit er Grímr geck til hvílu sinnar, þá geck Sigurðr at honum með vâpnum, oc hió til hans, en hann varðiz

karlmannliga; oc þó at lyctum fèll Grímr. Oc af þessum atburði gerðu frændr Gríms Sigurð sekian scógarmann at landzlögum rèttum. Oc firir því at hann var secr, fór hann utan þat sumar, oc com til Noregs um haustit, oc gaf sèr nafn annat oc förunaut sínum. Ólafr konúngr spyrr af kaupmönnum, at stafnbúi hans var veginn á Íslandi; þá varð hann reiðr miök, oc villdi hefna þessum manni grimlega; oc eigi vâro allir svâ halldinorðir, at eigi yrði konúngr viss hins sanna; ferr þá konúngr til skips, oc leitar eptir, oc kendi skiótt þann er secr var, oc lèt setia hann í fiötur. Oc litlu síþarr stefnir hann þíng, oc býðr at mann þenna scal beita hundum; oc er mikill fiölþi manna var cominn til þíngs, þá bað konúngr fletta hann af clæðunum, oc var hann afclæddr settr í mannrínginn firir hundana. Oc þá geck at konúngi einn hirðmaðr hans, oc mælti: heyr, hærra minn, eigi byriar þat at siá maðr hafi þvílícan dauðdaga; oc betr samir at þú setir hann í stað þess er drepinn er, því at ec hygg at siá myni vera eigi úvascari maðr en hinn. Konúngr mælti: firir þetta scal leiðaz aðrum at drepa hirðmenn mína. Oc er þessi maðr sâ, at ecki tióaði orð hans við konúnginn, þá fór hann á fund byscups, oc segir honum. Byscup sendir hann þegar aptr til konúngs, oc bað hann geva þessum manni sökina. Konúngr svarar: eigi kann byscup glöggra siá mann á velli en ec, oc scál skiótt fœra hann af clæþunum. Fólkit stóð allt umhverfis. Var þá slegit lausum hundunum; en siá maðr háfði svâ

fögr augu oc snör ímóti þeim at siá, at þeir þorðu eigi á hann at ráða. Oc þá callar konúngr til sín hinn stercasta hund sinn Víga, II eða þrysvar, oc clappaði um hann, oc bað hann bíta manninn; oc þat varð umsíðir við áeggian konúngs, er hann vísaði honum hart at, at hann lióp fram eitt sinn, oc beit í qviþinn manninum, oc hvarf aptr þegar til konúngs. Oc er maðrinn fèck sárit, þá spratt hann up, oc lióp út yfir mannhrínginn, oc fèll þá dauðr niðr. Oc er byscup heyrði þetta, þá ávítaði hann konúnginn miök, oc allt til þess er konúngr fèll til fóta byscupi, oc iátti firir guði glœp sinn, oc sá sek misgert hava í þessu grimma verki, oc gerþi konúngr micla iðran firir þenna lut.

*Frá Guðröþi konúngi oc þeim brœþrum.*

54. Á þessi tíð com í land Guðröþr son Eiríks blóðöxar; hann com or hernaði í Víkina austan; siá hinn sami Guðröþr sveik Tryggva konúng með ráði Haralldz konúngs, bróður síns, oc með vèl hinnar illgiörnustu móður þeirra. Hann hafði mikit lið oc LX skipa; hann leitaði eptir ef höfþíngiar í Víkinni vildi taca hann til konúngs yfir sek; eða villdi þeir hinn cost velia sèr, at beriasc við hann. En þar hèlldu þá ríki brœþr II, er fyrr var getit, Hyrníngr oc þorgeirr; en þeir svaruðo vitrliga, oc qvoþuz helldr vilia taca hann til konúngs, en sagþu þó þat hœva um slíc stórmæli, at þíng væri stefnt eptir III daga, oc væri honum gefit konúngs nafn á fiölmennu þíngi. Guðröþr iátaði þessu, oc com til þíngs, oc var þar mikit fiölmenni. Hyrníngr

var þá firir bóndum; oc er hann reið til þíngsins, þá varþ þar bráðr atburðr; hann fèll af baki hesti sínum, oc var þegar dauðr; er þá búit um lík hans með mikilli hrygð, oc flutt heim. Bróþir hans verðr oc hryggr, svâ at hann mátti varla um ræþa; hann mælti þá til *Guðröþar* á þínginu: heyrt muno þèr hava nú, herra, þenna hinn bráða atburð, er hèr er orðinn, er ec hefi mist bróþur míns; em ec nú oc allir vârir menn í mikilli hrygð; nú bið ec, herra, at þèr gefit oss leyfi til at heyia hann vegsamliga; en þessi fagnaðr er vèr hafðum yðr ætlat, þá viliom vèr at þèr sœkit veizlu til vâr með gleði oc gafni, oc bíðit svâ, en vèr munum stefna þíng annat, oc leita þá at gera yðra sœmð. Guðröþr iátar þessu, oc lícaði honum vel orð þorgeirs; fór nú Guðröþr til veizlunnar, oc drucku þar með gleði. þat barsc at á einni hverri nótt, at Hyrníngr com þar með miclu liði, svâ sem ændrlifnaðr væri; hann lagþi ælld í scálann, oc brendi þar Guðröþ inni, oc allt lið hans; en þeir er út leituðu, vâro skiótt drepnir. Oc er Ólafr konúngr heyrði þetta, þá lovaði hann miök þeirra verk, oc gaf þeim miclar þackir firir.

*Frá Ólàfi konúngi oc þór.*

55. þat barsc at einhverio sinni, er Ólafr konúngr sigldi firir land fram á Orminum lánga, oc sat konúngr við stiórn; þá callar maðr á skipit út, er stóð á hamre einum, oc bað konúnginn hava til lítillæti at veita honum far. Oc er konúngr heyrði þetta, þá lèt hann renna skipit þángat at, sem maðrinn stóð; oc steig hann á skipit út.

Hann gerþi mikit um sek, oc mælti til konúngsmanna mörg hæþileg orð, oc sýndi á sek mikit gaman. Siá maðr var fríðr siónum, oc hafði rautt skegg; hann ló at aðrum, oc aðrir at honum, oc veitti mörgum stór orð með ymsum hætti. Þeir spurðu, ef hann kynni nocqvot at segia frá þeim lutum, er tíþendi væri í, oc firir lángu hefðu gerzk. Hann callaz marga luti vita: því at þèr manut engis þess spyria, er ec kunna eigi orlausn til. Nú segia þeir konúngi þetta, oc mælto: herra, siá maðr cann segia mörg tíþendi, oc síþan leiddu þeir hann firir konúnginn, oc spyrr konúngr, hvat hann kunni segia. Herra, land þetta er vèr siglum firir, var bygt forðum af risum nocqvorum; en þat barsc at, at þeir risarnir fengu nocqvorn bráðan bana, oc dó þeir, svâ at eigi var fleira eptir en konur II. Síþan gerþiz þat, herra, at menn tócu at byggia land þetta, þeir er menndskir vâro or austr hálfu heimsins; oc þessar hinar miclu conur, herra, þá veittu mönnum mikinn yfirgáng, oc þröngþu þeirra ráði á marga vega; oc þá tócu menn þat til ráðs, herra, at heita á þetta hit rauða skegg til fulltíngs sèr; oc þegar iafnskiótt tóc ec hamar or serk mèr, oc laust ec þer til bana. Oc er hann hafði þetta sagt, þá leypr hann af saxinu, oc aptr um stafn at allum ásiándi. Oc siálfr konúngr sá glögt þenna atburð, er hann bíeði í sióinn, oc hvarf svâ frá augum þeirra. Þá mælti Ólafr konúngr: sè nú, hversu diarfr diöfullinn var, er hann geck í sýn við oss.

*Trölla þáttr.*

56. þat er sagt at Ólafr konúngr var staddr norðr í Naumudali, at II hirðmenn konúngs girnduz þess, at vita hvârt þat væri satt, at þar væri tröllagángr mikill í þeim hèruðum. Oc á einni nótt fara þeir leynilega frá skipi konúngs, oc gánga í náttmyrkri miök lengi, oc siá síþan elld brenna firir sèr, oc nú scunda þeir þángat. Oc er þeir nálgaz elldinn, siá þeir at hann brann í helli; oc þar sitia mörg tröll, oc töluðu þau sín ímilli. Tekr þá einn til orða, sá er þeir ætluðu at vera myndi forráðandi þeirra: vitu þèr, segir hann, at hèr er cominn Ólafr konúngr, til þess at hann ætlar at reca oss íbrot frá eignum vârum. þau qvoþuz þat vita: vei verþi honum, marga illa luti hafum vèr þolt af honum. þá mælti höfþíngi þeirra: segit nú þá, hvat þèr hafit við ázk. þá tók til orða einn af þeim: ec átta bygð í Gaulardal scamt frá Laðum, oc átta ec vingott við Hákon jarl; gaf hann mèr góðar giavar; en þá er hann var rænntr ríki sínu úmacliga, þá com þessi í stað hans; þat barsc at einn dag, segir hann, þá er hirðmenn konúngs höfðu leik nær bœnum, þá þóttumk ec varla bera mega þeirra háreysti oc glaum, oc þótti mèr mikil scapraun í allu saman; oc þá rèðumk ec í leikinn meþ þeim, oc þó úsýnilega; tóc ec þá höndum mann einn, oc skilþa ec svâ við þann, at ec braut hönd á honum; oc á aðrum degi braut ec fót annars; oc hinn þriðia daginn com konúngr til leiksins; ec fór oc til, oc villda ec þá meiða nocqvorn þeirra; stóð ec þá millum þeirra,

oc þreif ec til eins þeirra; en sá tók mek úvægilega, oc lagþi fast hendr á síþum mèr, oc eigi myndi þær þá aðru vís vera, þó at þær væri af glóanda iárni gervar; hann tóc at þröngva mek miök, oc var við siálft at ec mætta eigi standaz; comumc ec þá nauðuliga or höndum honum, oc flýða ec brot þaþan miök brunninn, oc kom ec at úvilia mínum til þessa staðar. Þá mælti annat tröll: þat er frá mèr at segia, fagrar konu ásiónu tók ec á mek, oc hafþa ec horn fullt miaðar í hendi, er ec hafða mörgum illum lutum blandat, oc ætlaða ec at byrla konúnginum um qvelldit, þar er hann var á veizlu; oc er menn vâro miök drucknir, stóð ec við trapizu vel búin; þá rètti konúngr til mín hönd sína, en ec geck at honum, oc fèck ec hânum hornit; en hann hóf up hornit, oc rak í hafut mèr, oc framan í andlitit, oc lauk svâ meþ okr. Þá tók til orða hit þriðia tröll: ec tók á mec fríðrar conu mynd, oc kom ec í konúngs herbergi síð um qvelld; en konúngr sat berfættr, oc hafði knýtt línbrók at beini; byscup sat á hægri hönd honum; þá tóc ec at vekia cláða á fæti honum, konúnginum, oc hann sá hvar ec stóð, oc callaði á mek, oc bað mek mýkva cláða á fætinum, en ec settumc á scörina hiá fótum hans, bæði firir nátverþ oc eptir; oc síþan geck konúngr til svefns, oc ec með honum, oc kló ec fótinn þá enn; oc þá sofnaði byscup, oc svâ konúngr; oc þá leitaða ec við at firirfara konúnginum af diöfulegum vèlum. Oc síþan vacnaðe konúngr, oc laust þá í hafuð mèr meþ bók, svâ at haussinn

lamðiz; síþan flýþa ec ábrot þaðan, oc ber ec iafnan síþan hallt hafuð. Oc þá vacþi konúngr byscup, oc bað hann at hyggia, hvârt hann væri heill eða eigi af tilqvâmu þessa fianda, er svâ sýnilega hafði comit í þeirra herbergi. Byscup gerði sem konúngr bað, oc fann hann á fœti hans fleck illilegan, fullan af eitri, oc lèt byscup skera þann or holldinu, oc síþan var þat grœtt at heilu. Oc er konúngs menn höfðu þetta sèt oc heyrt, þá hurfu þeir aptr lióðlega, oc komu á skip at sofundum allum mönnum. En um morgoninn eptir segia þeir þetta konúngi; oc hann sagþi þetta satt vera, oc bar hann hèr vitni um: en þó vil ec eigi, at þèr farit svâ optarr, segir konúngr, á nóttum, því at þat er úvarlegt at þèr farit einir saman at slíkri þarflausu. Oc eptir þat fóru þeir byscup oc konúngr um allar þær bygþir, oc báro heilact vatn, oc frelstu fólkit af diöfulegum vèlum, er áðr vurþu margir firir mikilli ánauð.

*Frá Ólafi konúngi.*

57. Svâ er sagt, at þau Ólafr konúngr oc þyri drotníng áttu son ágetliga fríðan, oc var hann skírðr með Haralldz nafni, oc var hann heitinn eptir föður hennar; hann hafði micla ást af konúngi oc drotníngu, oc hugþu menn gott til at hann myndi stiórna ríki eptir föður sinn, oc hafði fólkit micla elscu á honum; en hann lifði varla eitt ár, oc var hann þá numinn af þessa heims lífi í eilífva dýrð.

*Frá Sveini konúngi oc Sigríði drotníngu.*

58. Á hinu fimta ári ríkis Ólafs konúngs þá

er frá því at segia er gerþiz í Danmörk, at Sveinn konúngr átti þá Sigríþi hina stórráðu; oc eitt sinn er sagt frá hiali þeirra, at drotníng mellti svâ at margir vâro við, vinir þeirra; herra, segir hon, hversu lengi scallt þú ecki at hava þeirre svívirþíng, er þú hefir fengit. Konúngr svarar: hver er sú svívirþíng, frú, er ek ber, svâ at ec gera ecki at. Þá mælti drotníng: svívirþíng var þat oc mikil scömm þèr ger, er þú vart eigi þess verþr látinn, oc eigi þóttir þú svâ mikils háttar vera, at spyria þec at, þá er Þyri systir þín giptiz Ólafi Noregs konúngi, oc hefir þú ecki at haft síþan; oc gipti hon sek siálf með ráði fóstra síns, oc var þar ecki til haft yðart leyfi, oc gerþi hann til hennar brullaup. Þá mælti Sveinn konúngr: hver svívirþíng er mèr þat? er eigi Ólafr Tryggvason ágetlegri allum konúngum aðrum, eða mynda ec nocqvot gipta betra konúngi systur mína, þó at ec rèða siálfr firir; en þó at allt mitt ríki stœþi með hinum bæzta blóma, þá væri hon þó œrit gafugliga gefin. Sigríþr drotníng mælti: eigi mæli ec því ímóti, at Ólafr konúngr er ágetlegri aðrum konúngum, oc systir þín er víst œrit vel gipt; en firir því at þú heitir konúngr, þá scallt þú virða, hversu micla svívirþíng þau gerþu þèr, þá er hann fastnaði sèr systur þína, því at lítils virði hann þá þek oc þína tign. Þá mælti konúngr: þat ætla ec at þessa meingerþ oc svívirþíng, svâ miök framcomna, at ec verþa nú at bera hana svâ búna; man oc þat bezt sama, því at Ólafr konúngr er ríkr, oc má ec ecki mínu afli við

coma, nè reca þessar svívirþíngar. Sigríþr mælti: firir því mannt þú lengi lítill konúngr vera, at þú villt svâ vera; en ef þú villdir vera konúngr eptir því, sem frendr þínir hava verit, þá myndir þú eigi þola þessa scömm oc svívirþíng; oc með sannu segi ec þèr, ef þú villt vera þvílíct lítilmenni, at þú þorir eigi at hefna slícs, þá scal ec gera vârn skilnuð, oc vil ec aldri vera hèr. Sveinn konúngr mælti: firir því at Ólafr konúngr hefir svâ mikit ríki oc styrk, hversu scal ec hefna slícs? Sigríðr mælti: með vèlum scallt þú sigra hann, oc mannt þú sigra hann um síþir. Konúngr mælti: kend þú ráðit til, hversu með scal fara, svâ at hann verði vunninn. Sigríðr mælti: fyrst scallt þú senda menn í Vinðland á fund Sigvallda jarls, er þú hefir gert útlægan firir allt Danavelldi; bióð honum til þín, at þit sættizk, ef hann vill eignaz eignir sínar oc ríki, þat er forellri hans hefir haft. Síþan scallt þú skilia þat á hann, at hann fari sendiferþ þína til Noregs, oc bœti hann svâ þann hinn glœpilega lut, er hann gerþi við þek, oc gerit þetta með blíðu. Sendimenn fara nú til Sigvallda með örendum konúngs, oc bera up firir hann; oc jarlinn bregþr við skiótt, oc ferr til konúngs, oc tala þau sín mál. Oc segir konúngr Sigvallda, ef hann vill hava eignir sínar: þá scallt þú fara sendæför vâra til Svíþióþar oc Noregs með sannum merkiom til Ólafs konúngs svænsca, oc síþan til Ólafs konúngs Tryggvasonar, at vèr finnimk allir saman í Brenneyiom á hinu næsta sumri; geri Svíakonúngr sek líclegan til, sem hann eigi þángat

nauðsynia örendi. þá mælti Sigríþr: sendi Ólafr konúngr son minn þau orð nafna sínum til Noregs, at hann flyti fram með hânum guðs örendi at cristnin mætti fram gánga í hans ríki; oc veit ec, ef þetta liggr við, at firir hvervetna fram man hann fara at boða guðs nafn, oc man oss þá auðvellt at leiða hann með þessu í nocqvorar umsátir. En ef Ólafr konúngr Tryggvason ferr or Noregi, oc látir þú hann líða um Eyrarsund, oc fari hann sína leið, sem hann vill; má hann þá öngum grunum á renna, at þú sèr eigi trúligr. En þenna lut mát þú mest sýna, hversu lítill þú ert, Sveinn konúngr, ef þú lætr hann þá fara aptr í friði oc frælsi. Nú tekr Sigvalldi við þessu örendi þeirra konúngs oc drotníngar, oc hæitr ferðinni, oc býr nú ferþ sína, oc ferr til Svíþióþar. Oc er Eiríkr þá cominn til Svíþióþar, son Hákonar jarls, oc Sveinn bróþir hans, oc frètta þeir til ferða Sigvallda. En þar var úvinátta mikil með þeim, síþan er þeir börðuz á Hiörúngavâgi. Oc nú verða þeir varir við ferþ Sigvallda, oc senda orð Sigvallda, at hann comi á þeirra fund. Oc Sigvalldi sèr at sá man vera hinn bezti costr, at fara at finna þá; oc ferr þegar, oc finnr þá brœþr, oc fagnar þeim vel. þeir spyria, hvert hann ætlar at fara. Hann svarar: þat man vera nú á yðru valldi, hvert ec man fara; oc nú segir Sigvalldi þeim brœþrum allan atburð sinnar ferðar. Eiríkr mælti: ef þetta er satt, er þú segir, þá scallt þú fara í friði oc allt þitt föruneyti. Nú ferr Sigvalldi jarl, þar til er hann finnr Ólaf Svíakonúng, oc segir honum orðsendíng þeirra Sveins

konúngs oc Sigríþar drotníngar. Ólafr Svíakonúngr tók vel við Sigvallda, oc samþyckir þat allt, sem þau Sveinn konúngr oc móðir hans höfðu rœtt firir Sigvallda jarli; er þat ecki nauðsyn at rita nú annat sinni. Eptir þat fór Sigvalldi til Noregs, oc hittir Ólaf konúng Tryggvason á Upplöndum, oc com hann þar litlu firir iól, oc tók Ólafr konúngr við honom eincar vel; var hann með konúngi um jólin. Sigvalldi jarl segir Ólafi konúngi orðsendíng nafna síns, Svía konúngs, oc bað hann segia sèr, áðr hann fœri ábrot, sína tilætlan. Oc eptir iól býz Sigvalldi til brautferþar; oc þá segir Ólafr konúngr Sigvallda jarli, at hann scal svâ segia Svíakonúngi, at hann man coma án iva, svâ sem þeir hava orð til sennt, til Brenneyia, oc þar þraut ríki hans. Síþan fór Sigvalldi jarl aptr til Danmerkr, oc segir þeim at Ólafr konúngr Tryggvason man coma á nefndum degi til þess staðar, sem þeir hafðu áqveþit, oc lètu þau nú Sigvallda jarl hava bæði frið oc fóstrland.

*Frá Ólafi konúngi.*

59. Þat viliom vèr oc rita, at á þeim V árum, er Ólafr konúngr rèð Noregi, þá lèt almáttigr guð svâ micla farsælu skína yfir landit í allum góðum lutum, bæði ávexti iarþarennar, oc blíðleik loptzins, at aldri fengu þeir, hvârki áðr nè síþan, þvílíca farsælu. En þat mark var til, at á þeirre helgu tíþ, Pálmsunnudag, er konúngr geck frá messu, þá sá hann einn mann standa firir kirkio, oc hafþi á baki sèr micla byrði af grasi því er vèr cöllum hvanniòla. Konúngrinn

rètti til hönd sína, oc villdi reyna þenna sumar ávöxt, svâ sem hann var þá at siá með miclum blóma oc algerleik. Oc siá maðr, er borit hafði, setr niðr byrðina, oc fèck konúngi einn hvannióla, oc konúngr bar hann inn í dryckiostofuna, þar er hirðin var halldin. Hann settisc í hásæti sitt, oc scar af hvanniólanum nocqvorn lut, oc sendi drotníngu; oc hon tók við, oc mælti: hærra, segir hon, í minni hefi (ec) fest at, þá er ec var barn oc mèr comu tennr up, þá var mèr gefit fè; en þat fè scylldi giallda Sveinn konúngr, bróþir minn, með leigum, þá er ec villda heimta; nú bið ec yðr, herra, at þèr heimtit þetta fè, þá er þèr farit suðr til Danmerkr; oc siá megi þèr, herra minn, hversu mikilla eigna ec missæ í Vinðlandi, en engi hefir valld til haft, nè áræði, at heimta mitt fè hèrtil; oc þetta hefi ec margan dag grátið, hversu neisulega ec hefi látit mína eign. Þetta fær konúngi mikillar áhyggio, oc hugsar hann nú sitt mál.

*Frá Ólafi konúngi.*

60. Oc á hinu næsta sumri samnar Ólafr konúngr saman mikinn her, oc lèt boð fara um allt sitt ríki; oc er saman com liðit, þá hafði konúngr XX skip oc hundrað; oc vâro þá með honum margir höfþíngiar oc kappar. Þorgeirr oc Hyrníngr, mágar hans, vâru höfþíngiar yfir miclu liði; býsc konúngr nú or landi oc drotníng. Oc er herrinn er búinn, þá sigldi konúngr suðr með landi, oc læggr hann til eyiar einnar, er Mostr heitir. Þar hafþi Ólafr konúngr við comit

fyrst er hann com af Englandi; oc þar lèt hann gera hina fyrstu kyrkiu. Nú lagþi konúngr at eynni með allum hernum. Í þeirre eyio var einn gamall maðr oc blindr; hann átti þar bú oc eignir; hann var framsýnn miök. Oc er herrinn lá við eyna, þá bauð konúngr nocqvorum mönnum at gánga á land með sèr; fóru þeir til húsa hins gamla mannz. Oc hinn gamli spurþi, hverìr þar væri comnir, eþa hvaþan þeir væri, eða hvat þeir villdi. En sá er firir þeim var, mælti, oc segir at þeir vâro kaupmenn scamt þaðan af landi ovan, oc fóru með varníng sinn at selia. Þá mælti bóndi: hvat kunni þèr oss at segia frá skipaliði konúngs eða samandrátt hers hans. Þeir sögþu honum at herrinn lá við eyna. Þá andvarpaði hinn gamli maðr miök, oc mælti svâ: hó, hó, mikill scaði man hèr at höndum coma, er konúngr vârr mon ábrot fara, oc þar monum vèr týna IIII lutum þeim er miclu eru betri oc dýrlegri af þessu landi en hèr hafi verit fyrr. Oc mikit er þat at vita, segir hann, ef alla þá scolum vèr týna firir vâra úhamíngio. En sá maðr er firir lèzk vera kaupmönnum, mælti til hins gamla mannz: hverìr eru þeir IIII lutir, er svâ miclu eru dýrlegri en aðrir, at engir mega þeim samvirþazk, hvârki nú nè fyrr. Þá mælti bóndi: hinn fyrsta lut tel ec til þess konúng vârn Ólaf, er af berr allum konúngum, oc þat er atqvæþi allra hinna spakustu manna, at engi hafi comit af því kyni þvílícr í þetta land frá Haralldi hárfagra, því at engi hefir stiórnat ríkinu með þvílícri dýrð oc hiálpræþum; oc ef svâ berr til, at

vèr missum þessa, þá man oss eigi auðit verþa at fá annan þvílícan meðan vèr lifum. Annan lut tel ec þyri drotníng, henni bera allir eitt vitni, at aldrigi hafi comit í Noreg þvílíc cona at allri gœzku oc viti. Hinn þriðì lutr er skip hans Ormrinn lángi, þar rœþa oc allir eitt um, at alldrígi man smíðat hava verit þvílíct skip. Fiórði lutr er hundr hans, er Vígi heitir, sá er í sinni nátúru er betri oc stercari en aðrir hundar. Nú uggi ec at eigi vinniz oss geva til at hava svâ ágetliga luti í landi vâru, því at svâ berr opt til, at þeir er svâ dásamligir ero lutirnir, þeirra missa menn opt skiótt. Oc er Ólafr konúngr heyrði þetta, þá mælti hann til sinna manna: förum nú til skipa. Oc er þeir gengu út, þá mælti hinn blindi maðr, en þeir námu staðar hiá durunum: allum verþr þat þá er elldaz, segir hann, at eigi at eins tecr lícamliga sýnina frá, helldr verþu vèr oc at þola oc at reyna þoku oc myrkr hugarins, því at eigi vissa ec at ec talaða nú við siálvan konúnginn, en ecki mynda ec svâ málugr verit hava, ef ec hefða þat vitat. Nú ferr konúngr til skipa ovan, oc siglir síþan austr firir land til þess staðar sem áqveðinn var, oc fornkonúnga stefna var vön at vera. Oc var ecki Svíakonúngr þar cominn, oc beið Ólafr konúngr hans II vikur, oc kom hann eigi. En eigi vissi Ólafr konúngr þær tálar oc svik, er firir hann vâru settar. Oc nú síþan ferr hann alla sína leið ígegnum Eyrarsund, oc síþan til Vinðlandz; oc í Vinðlandi fann hann marga vini sína, oc fèck

af þeim micla sœmð; hann var þar miök lánga ríð um sumarit, oc com til hans Ázstríð, dóttir Burizleifs konúngs, kona Sigvallda jarls, oc systir Garie[1] hinnar vitru, er Ólafr konúngr hafði átt. Þar fann hann oc Dixin, er fyrr var frá sagt. Oc þó at margir tœki við konúngi sœmilega í Vinðlandi, þá hafði þó micla fýst lið hans til heimferðar. Ólafr konúngr hitti í Vinðlandi Burizleif konúng, oc beiddiz af honum þeirra eigna, er verit scylldu hava tilgiöf þyri. En til þessa veitti Ástríð konúngi lið, dóttir Burizleifs konúngs, oc hann var oc hinn mesti vin Ólafs konúngs, af því er hann hafði verit í Vinðlandi, þá er hann átti dóttur hans. Oc nú leysti Burizleifr konúngr eignir þær með lausafè, oc lèt flytia lausafè til skipa Ólafs konúngs; oc dvalþiz Ólafr konúngr þar lengi.

*Frá sonum Hákonar jarls.*

61. Svâ er sagt um sonu Hákonar jarls, Eirík oc Svein, at þeir fyllduz up mikils caps oc illvilia ímóti Ólafi konúngi firir sakir dráps faður þeirra, oc þat með er þeir náðu eigi at vera í fóstrlandi sínu; oc villdu þeir nú ræna Ólaf konúng bæði ríkinu oc þar með lífinu. Oc þegar er Sigvalldi hafði farit af Svíþióð til Noregs, þá lagðu þeir brœþr Eiríkr oc Sveinn til móz við Ólaf Svíakonúng, oc báru þeir saman ráð sín. Þeir hafðu oc hitt Svein Danakonúng. Oc er þeir spyria nú allir, at Ólafr konúngr Tryggvason er cominn til Vinþlandz með mikinn her, þá óttuðuz þeir miök, oc þótti hann vera tor-

[1]) *þannig; mun réttara* Geiru.

sótligr; samna þeir þá saman miclum her, oc áttu síþan stefnur sín í milli, konúngarnir oc jarlarnir, oc settu þat ráð at Sigvalldi jarl fœri enn til Ólafs konúngs, oc vita ef hann fengi leitt hann í þeirra ofrefli oc fyrirsáttr, er þeir höfðu firir honum búit. En þat var við eyna Svolþr. En Sigvalldi scylldi teyia Ólaf konúng til þeirra með fám skipum. Sveinn konúngr fiþr Ólafi konúngi þat til saca, er hann tók systur hans án hans vilia, oc þat annat er hann hafði sezk í scattland hans Noregs velldi, er Haralldr, faþir hans, kallaði haukey sína. Svâ segir Sigvalldi jarl:

Hár varðar þú hiörvi
haukey, liva oc deyja.

Ólafr Svíakonúngr fèck þat til saca at Ólafr Noregs konúngr hefði gert svívirðliga til móður hans oc brugþit með lausyrðum þeim ráðahag er ætlaðr hafði verit með þeim, oc lostit hana með glóva sínum: á ec at hefna honum mikillar sneypu. Sigríþr var oc miök eggiandi þessa úfriðar. En þeir Hákonar synir Eiríkr oc Sveinn þóttuz œrins fiandscapar eiga at minnaz við Ólaf konúng. Sigvalldi var hinn fimti höfþíngi, oc var hann Danakonúngs maðr. Nú spyrsc þessi kurr í Vinðland, at meiri von sè at umsátir væri settar firir Ólaf konúng oc hans lið, þá er hann villdi aptr fara; sannaði þetta annarr, en annarr syniaði, oc kallaði engu gegna. Ólafr konúngr callaði þetta vera útrúlict, oc lèt sèr fátt um finnaz. Nú ferr Sigvalldi til Vinðlandz, oc hittir Ólaf konúng, oc taca þeir tal sín ímilli. Ólafr konúngr spyrr, hvat satt sè í því, hvart nocqvorar

umsátir væri sættar firir oc úfriðr. Sigvalldi jarl segir at þat var hinn mesti hègómi oc lygþ, er þeim var sagt, oc sverr um at hann segir satt. Ólafr konúngr trúir orðum Sigvallda. Oc firir því at almáttigr guð lèt þat at beraz á þeirra dögum, at Ólafr konúngr yrði svikinn oc tælldr fyrst firir illgiarnan oc lýginn anda, oc misti hann svâ ríkis síns at úvilia sínum, oc svikinn af úvinum sínum, at eigi stýrði hann lengr ríki sínu iarðligu, er hann má litlu síþr sýnaz himnescr maðr helldr en iarðnescr. Þetta ér ritat af Sigvallda jarli.

Nec nominabo
pene monstrabo
curvus est deorsum
nasus in apostata,
qui Sveion regem
de terra seduxit
et filium Tryggva
traxit in dolo.

Þat segir svâ:

Munkat ec nefna,
nær mun ec stefna,
niðrbiúgt er nef
á níþíngi,
þann er Svein konúng
sveik or landi
oc Tryggvason
á tálar dró.

*Frá Ólafi konúngi, er hann gaf heimleyfi mönnum sínum.*

62. Svâ er sagt, þá er Ólafr konúngr fann gnadd oc möggl sinna manna firir þat er þeir

dvölþuz lengr í Vinðlandi, en þeim þótti bezt. Þá lèt hann stefna þíng fiölmennt, oc þá talaði hann: veit ec þat, segir hann, at mikill fiölði manna er þat í mínu liði, er heiman fór í sumar frá æignum sínum oc konum oc börnum, oc frendum oc fóstlandi, oc lèt þat allt at baki sèr til þess at fylgia mèr; oc er því vârkunnlict at yðr þycki þat þúnct at dveliaz hèr svâ lengi; nú firir þetta, þá viliom vèr geva leyfi aptr at hverva til fóstriarðar sinnar þeim mönnum er þess girnaz; en miclu meire þöck kann ec þeim mönnum, er mèr vilia fylgia; scal ec oc sýna þat, þó at síðarr sè, þeim er þat gera. Oc er konúngr hafþi mællt þetta, þá gaf fólkit honum micla þöck firir. Þá reis up einn gamall maðr á þínginu, oc mælti: þann konúng hafum vèr yfir oss, er úlíkr er aðrum konúngum, oc úiafn í sinni nátúro, oc eigi man finnaz hans iafníngi; oc firir því at hann er brot or ríki sínu, þá kann vera at hann verði í hásca nocqvorum; en þó at hann gefi mönnum sínum heimleyfi af milldi sinni, þá samir oss þó eigi at skiliaz við svâ dýrligan höfðíngia; helldr samir oss at beriasc með honum, oc veita honum trúliga fylgþ oc fagra þiónustu, meðan vèr eigum cost; at eigi beriz svâ at, at vèr úrœkimk við vârn herra, oc verði hann firir þat frá oss tekinn, svâ at vèr niótum hans alldri síþan. Þessum orðum hans veittu fáir menn andsvör. Oc er kom hinn nesti dagr eptir, þá er konúngr oc hirðmenn hans vacnuðu, þá sá þeir rofinn leiðángrinn, oc brottu af herbúðunum flest allt, oc uppi segl þeirra; oc eigi vâru

þá eptir meirr en XI skip. Ólafr konúngr var þó eigi búinn at sigla, oc dvalþiz hann enn um ríð. Svâ er sagt, at konúngarnir hava nú lengi legit í þessum safnaði, oc þolir liðit illa, oc þyckir lánct at bíða, svâ at margir örvæntu at Ólafr konúngr myndi coma í þann hinn micla her, oc þótti þó úsýnt áðr en lètti, hversu fara myndi þeirra viðskipti; oc gerþi liðinu leitt at sitia. Oc nú siá þeir á einhveriom degi her Norðmanna sigla með miclum fliótleik, oc vurðu harðla fegnir. En Ólafr konúngr bióz meirr í tómi, oc fèck Ázstríð honum margar Vinþasneckior, oc fylgþi konúnginum austan, því at hon þóttiz skilia, at svikræði myndi vera við Ólaf konúng, ef hann fœri ígegnum Danavelldi. Sigvalldi var þá farinn norþr á Scáney. Ólafr konúngr hafþi, þá er hann fór or Jómsborg, eitt skip oc LXX skipa; svâ segir Halldórr hinn úcristni:

Óna fór oc einu
unnviggs konúngr sunnan
sverþ rauð mætr at morði
meiðr siautugum skeiða,
þá er húnlagar hânum
hafði iarl of krafðan,
sætt geck seggia ættar
sundr, Scánúnga fundar.

Nú lágu höfþíngiar í höfninni, þá er skip Ólafs konúngs sigldu hit ytra, oc vâro höfþíngiar á hólminum, oc sá til er flotinn fór firir.

*Frá siglíngu Ólafs konúngs.*

63. Ok þann dag var fagrt veðr af skini, oc gengu höfþíngiar oc sveitirnar á hólminum, oc

sá til er smáskipin sigldu firir. Oc er mörg vâru sigld skipin, þá siá þeir eitt mikit skip oc frítt, oc þá mælto þeir, at þat myndi vera Ormr hinn lángi, oc förum til skipanna! þá mælti Eiríkr jarl: bíðum ænn, segir hann, fleiri hava þeir stórskip en Orminn lánga; oc þetta skip átti Styrcárr af Gimsum, oc var þat mikit skip. Eiríkr mælti: meiri oc ágetlegri man yðr sýnaz Ormr hinn lángi. þá sá þeir enn mikit skip, oc vel búit, oc hafuð á; oc þá mælti Sveinn konúngr: nú man hèr fara Ormr hinn lángi, verþum nú eigi of seinir. þá svarar Eiríkr jarl: eigi man þetta vera Ormrinn lángi, því at fá hava enn farit stórskip þeirra, en mörg eru til; þetta skip átti frændi konúngs einn ríkr oc ágetr. Nú verþr á nocqvot lið; oc þá sá þeir mikit skip sigla; þá mælti Sveinn konúngr: nú mun hèr fara Ormrinn lángi. Eiríkr jarl svarar: þetta er mikit skip oc frítt, en meiri oc ágetligri man yðr sýnaz Ormrinn lángi, sá er Ólafr konúngr stýrir. Oc þegar eptir siglir annat mikit skip oc frítt; oc áttu þessi skip þeir bræþrnir Hyrníngr oc þorgeirr. Síþan varð á lið nocqvot, áðr sigldi mikit skip oc frítt með segl blástavat, oc var skip þetta miclu meira en þau er áðr hafðu siglt, þat var skeið oc engi hafuð á. þá stóð Sveinn konúngr up oc mælti, oc glotti við: hræddr er Ólafr konúngr, hann þorir nú eigi at sigla með hafuð á Orminum lánga; förum nú oc leggiom at honum! þá mælti Eiríkr jarl: eigi er hèr Ólafr konúngr á þessu skipi; þetta skip kenni ec, því at ec hefi þat opt sèt; þetta skip á Ær-

língr Skiálgsson af Jaðre, oc er betra at leggia um scut þessu skipi til orrostu, þeim drengiom er þar skipat innan borðz, oc siálfir megu vèr þat vita, ef vèr hittum Ólaf konúng Tryggvason, at oss er betra scarð í flóta hans, en vèr mœtim þessi skeið. Þá mælti Ólafr Svíakonúngr: eigi scylldim vèr nú æðraz of miök, at leggia til bardaga við Ólaf konúng, þó at hann hafi skip stór, því at er sú scömm oc neisa, er spyriaz man á öll lönd, ef vèr liggiom hèr úflýianda her, en hann sigli þióðleið firir utan. Þá svarar Eiríkr jarl: hærra, lát sigla þetta skip, ec segi þèr þessi tíþendi, at eigi hefir Ólafr konúngr Tryggvason um siglt, oc þenna dag man þèr costr at beriaz við hann. Nú ero hèr margir höfþíngiar, segir Eiríkr, oc væntir mek þeirrar ríðar af þeim, er allir hafim vèr œrit at vinna, áðr en lètti. Oc nú sá þeir sigla mikit skip, oc mælto margir: furðu mikit skip er þetta, er nú siglir; oc þetta man vera Ormrinn lángi; eigi vill Eiríkr jarl nú beriaz oc hefna föþur síns. Oc við þetta stendr Eiríkr jarl up reiðr miök, oc biðr þá gánga til skipanna, oc telr þó meiri vân at Dönum scal eigi úleiðara at beriaz en honum oc hans mönnum. Oc nú varþ ænn á hlið miök lángt, áðr þeir siá sigla III skip, oc öll stór, oc var þó eitt miclu mest, oc hafði þat drecahöfuð gylld. Oc nú mælto allir, at jarlinn hefði satt sagt: oc hèr ferr nú Ormr hinn lángi. Eiríkr jarl svarar oc segir, at eigi var þat Ormrinn lángi, en biðr þá þó til leggia, ef þeir vilia, oc reyna þat. Þá tók Sigvalldi jarl skeið eina, oc fór út til skip-

anna, oc skióta up hvítum skilldi, því at þat var friðmark; hinir laða seglunum oc bíða; oc þetta hit micla skip hèt Traninn, því stýrði þorkell nefia, frendi konúngs. Spyria þeir þá Sigvallda, hver tíðendi hann kunni segia. Hann lèzk kunna at segia þau tíþendi at vèlræði var sett firir Ólaf konúng. Nú láta þeir þorkell flióta skipit oc bíða, oc vilia nú eigi undan fara. Nú siá þeir konúngarnir at sigla IIII skip, oc er eitt miclu mest, oc þar á dreca hafuð gylld; oc nú mæltu margir: fúrðu mikit skip er Ormr hinn lángi, ecki skip í verölldu man þvílíct vera at fegrð eða vexti, oc mikil rausn er í at láta gera slík skip. þá mælti Sveinn konúngr: hátt man Ormrinn lángi bera mek í qvelld, oc hânum scal ec stýra, áðr sól setizk; hann heitr nú á liðit at búaz. þá mælti Eiríkr jarl oc þó svâ at fáir menn heyrðu: þó at ecki skip hefþi Ólafr konúngr meira en nú megu þèr siá, þá myndi Sveinn konúngr við einnsaman Danaher alldrigi þessu skipi stýra. Sigvalldi mælti, at þeir scylldu laða seglunum, oc leggia undir hólminn; kallar hann betr standa veþrit at fara landhallt með stór skip oc byr lítinn; þeir gera svâ, heimtaz undir hólminn. þetta hit micla skip hèt Ormr hinn scammi. Oc þá leið eigi helmíngr einnar tíþar, áðr en konúngar oc allt liðit sá III skip all stór, oc eptir þessum skipum austr í havit var at siá sem gull eitt sæi; oc er nálgaðiz svâ at siá mátti, þá vâru þar dreca hafuð ágetlig, oc skína með mikilli birti, oc lánct var at bíða, áðr en fram com annarr stafn, oc var þetta skip búit allt með gulli

oc silfri. Nú horfðu hèr allir á þetta hit micla skip, er fram rendi, oc þótti allum mikil undr, hversu löng stund áðr var en þeir sæi scutstafninn. Þá mælti Eiríkr jarl: standit nú up, því at nú þarf eigi at þræta um, hvart Ormrinn lángi man sigla, oc þar megu þèr nú hitta Ólaf konúng Tryggvason. Nú þögnuðu margir, oc varð þeim ótti mikill at þessu hina micla skipæ; hræddiz nú hèr margr við sinn bana. Oc enn mælti Eiríkr jarl: maclect er Ólafi konúngi þetta hit sœmilega skip, svâ miök sem hann berr af aðrum konúngum, svâ miök berr oc þetta skip af allum aðrum skipum. Oc er Ólafr konúngr sèr at lið hans hefir lagt undir hólminn, þá þyckir honum líclict at þeir myni spurt hava nocqvot. Vændir hann oc þessum skipunum undir hólminn, oc laða seglunum. Sigvalldi jarl stýrir skeið sinni inn at hólminum ímóti þeim konúngum. Oc nú fagna þeir þessu miök höfþíngiar allir saman, er þeir (siá) Ólaf konúng cominn í umsátir sínar; gera þeir nú luti, hverr þeirra fyrst scal at leggia Ólafi konúngi með sínu liði, því at allir girnaz þeir til ríkis hans. Oc com up lutr Sveins konúngs; lætr hann þá búa LX skipa til orrostu, oc skipar nú liði sínu, oc lèt bera merki firir sèr.

*Frá Ólafi konúngi.*

64. Ólafr konúngr spurði lið sitt, hví þeir sigldi eigi. Þeir sögðu hver sök til var, oc báðu hann flýia. Hann svarar þeim: víst vil ec eigi flýia, því at[1] helldr girnumc ec at beriaz, því at eigi er sá rèttr konúngr, er hann flýrr úvini

[1]) *ofaukið* ec.

sína firir ræzlu sakir. Oc er Ólafr konúngr sèr, oc hans menn, at þeir eru sviknir, oc allr siór í nánd þeim var þakiðr af herskipum; en Ólafr konúngr hafþi þá lítið lið til orrostu; svâ sagþi Hallfröðr, er liðit var frá honum siglt:

þar hyck víst til miök mistu,
mörg kom drótt á flótta,
gram þann er gunni framþi
gengis þrœnscra drengia;
nœfr vá einn við iöfra
allvalldr tvâ snialla,
frægr er til slíсs at segia,
síþr oc iarl hinn þriðia.

Nú riðlaz lið þeirra konúnganna; ferr nú í æinn stað Dana herr, en í annan stað Svía herr; Eiríkr jarl býz í þriðia stað með sínum her. þá mælti til Ólafs konúngs einn vitr maðr þorkell dyðrill: herra, segir hann, hèr er mikill her oc ofrefli liðs; drögum up segl vâr, oc siglum út á haf eptir liði vâro; er þat engum manni bleyði at hann ætli hóf firir sèr oc sínum mönnum. þá mælti Ólafr konúngr: leggi saman skipin, oc herclæðiz menn, oc bregþi sverþunum; ecki scal á flótta hyggia; þetta orð vâttar Hallfröðr svâ:

Geta scal máls þess, er mæla
menn, at vâpna sennu:
dólga fángs við drengi
dáð öflgan gram kváðu;
baðat her tryggvan hyggia
hneckir sína recka,
þess liva þióðar hressar
þróttar orð, á flótta.

Ólafr konúngr skipaði nú liði sínu, oc lætr víggyrðla skipin, oc mælti svâ, at á sit borð lægði hvârt skipit Orminum lánga, Traninn oc Ormr hinn scammi, oc tengia síþan öll saman. þá mælti stafnbúi konúngs, nefna sumir til Vikar, en sumir Úlf hinn rauða: hann spyrr konúnginn, hvart Ormrinn scal því lengra fram taca or tengslunum en annur skip, sem hann var lengri gerr. Ólafr konúngr svarar: því var hann lengri gerr en annur skip, at hann scylldi lengra fram leggia. þá mælti stafnbúinn: ávinnt mun þá um söxin, herra, oc at vísu man þar costr bardagans. þá mælti konúngr: ec vissa eigi at ec ætta stafnbúann bæði rauðan oc ragan; oc því lèt ec hann gera meira aðrum skipum, at ec villda at hann væri því auðsæri í orrostunni, sem hann er vegligri í siglíngunni en annur skipin. þá mælti stafnbúinn af reiþi til konúngs: hyggi svâ firir yður tign, herra, at eigi snúi þèr meirr baki við at veria lyptíngina, en ec scal framstafninn. þá varð konúngr (reiðr) miök, oc villdi skióta til hans spióti. þá mælti stafnbúinn: skiót þángat, herra, er meiri er þurvin, ecki hafæ þèr of marga liðveizlu menn. Sumir segia III verit hava stafnbúa Ólafs konúngs, oc vâru allir sterkir, var einn Úlfr hinn rauði, annarr Vikarr; þriði Hyrníngr; oc þat vilia flestir segia at Úlfr hafi þessi orð mælt við konúnginn. Oc í þenna tíma siá menn at skip rendi ákafliga mikit[1] at lyptíngunni á Orminum lánga, oc rendi af suðr ætt. þat var sextán sessa, oc geck maðr or stafninum, oc talaði við Ólaf konúng með

[1]) *sýnist vera hálfvegis útskafið.*

úkunnre túngu; oc svâ mælti oc konúngr ímóti, at Norðmenn skilðu eigi. Oc er þeir höfðu talat um ríð, þá fóro þeir til landz, oc vâru þar allan daginn, meðan bardaginn var, oc lètu flióta skipin um ackeri. Oc er þeir vâru í brottu, spurðu menn konúngs, hverir þeir menn væri, er við hann hafðu talat. Hann sagþi at þeir væri úkunnir menn oc komnir af Vinðlandi. þessir höfþíngiar fiórir, konúngar II oc II jarlar, leggia til orrostu við Ólaf konúng; oc er Sigvallda lítt við getið orrostuna; en þó segir Scúli þorsteinsson í flocki þeim er hann orti um orrostuna, at hann var þar:

Fylgþa ec Frísa dólgi,
fèck ec úngr þar er spiör súngu,
nú fiðr ölld at ec elldumk,
alldrbót, oc Sigvallda;
þá er til mótz við mœti
málmþíngs, í dyn hiálma,
suðr firir Svolþrar mynni
sárlauk roðinn bárum.

*Frá því er Sveinn konúngr hèllt til bardaga við Ólaf konúng.*

65. Nú sèr Ólafr konúngr setta ímóti sèr fylkíng, til bardaga búna; oc spyrr konúngr, firir hveriom höfþíngia þar sè merki borin. Hânum var sagt, at firir Sveini konúngi vâru þar merki borin. þá mælti Ólafr konúngr: eigi munu scógargeitrnar oss yfirstíga, því at Danær hava geita hug, oc ecki scolum vèr óttaz þat lið; því at alldri hava Danir enn sigr haft, ef þeir hava barðz á skipum. Oc er þyri drotníng heyrði þetta, þá

varð hon við brygg; oc er konúngr vissi þat, þá leiddi hann hana undir þilior niðr, oc lèt búa um hana vel með skialldborg oc sterkum hlífum, hann mælti til hennar: ecki er nú at gráta, því at í dag scal ec heimta tannfèit þitt, þat er þú eignaþiz af bróður þínum. Konúngrinn var í rauðum silkikyrtli svâ fögrum sem rósa væri, oc þar yfir utan steypði hann brynio, oc stóð hann í lyptíngu. Oc eptir þat qvóðu við lúðrar um allan herinn. Dana konúngr leggr nú at skipum Ólafs konúngs, oc fèck ecki meira at gert en roðit hin yztu skip. Oc af stórskipum þeim er konúngr átti scorti eigi harða scot hríð, oc verða Dana konúngs menn miök sárir, en sumir drepnir. En þó at svâ veri callat, at Sveinn konúngr lægþi fyrst at, þá var þó scotit af skipum Svía konúngs, oc svâ jarls skipum; því at þeir lágu svâ nær at vel mátti skióta á þeirra skip. Nú börðuz þeir lengi, oc veitir Danum þúnct; oc er þeir hafðu lengi barz, oc Danir örvættu sèr sigrs, en vâro miök þreyttir, þá hurfu þeir frá, oc hafðu þeir látit marga menn, oc hurfu þeir nú frá við lítinn orðztír, sem Ólafr konúngr gat til.

*Nú leggr Svía konúngr til orrostu.*

66. Ok er þeir hurvu frá, þá leggr at Svía konúngr með LX skipa, oc er valit lið hans miök, allir hinir sterkustu, oc ágeta vel búnir. Ólafr konúngr Tryggvason spyrr, firir hveriom þar sè merki borin. Hânum var sagt, at Ólafr Svíakonúngr átti merki þau: oc ætlar hann at beriaz við yðr. Konúngr mælti: auðveldra man Svíum verða

oc blíðara at slækia innan blótkoppa sína, en gánga up á Orminn lánga undir vâpn vâr, oc hrióða skipin undir oss; oc þess væntir mek, at ecki þurfi vèr at óttaz hrossæturnar. Nú leggia þeir at fast; oc lèt Noregs konúngr enn tengia á sitt borð hvart Orminum lánga Orminn scamma oc Tranann. En svâ er sagt, þá er Danir hurfu frá, at menn Ólafs Noregs konúngs fóro af hinum minnum skipunum oc á hin stœrri. En þeir er firir vâro, tócu með þöck viþ þeim; oc varð nú hin harðasta orrosta með þeim nöfnum; leggia Svíar hart at fram um stafninn, en Ólafs Noregs konúngs menn veita harða scothríð. Oc er þeir hafðu lengi barz, þá vâru eydd skip Svía konúngs XVIII. Oc nú flýðu enn Noregs konúngs menn af hinum smærum skipunum oc á Orminn, oc leituðu þángat hiálparennar, oc forða líflátinu, því at Ormrinn var miclu lengri oc borðhærri en annur skip, oc vár þat gott vígi, sem kastali væri. En svâ gerþiz mikill fiölþi manna á Orminum lánga, at varla mâttu þeir menn, er vapnfœrir vâro, vega firir þrönginni. Oc er Svía konúngr sá marga menn sína drepna, oc þó fiölþa sárt, þá sýndisc hânum at leggia frá, þvíat liðit hans var þreytt miök. En Eiríkr jarl oc hans lið lágu æ í scotmáli í sífellu á skip Noregs konúngs, þó at hinna sè meirr viðgetit; oc allr múgrinn, bæði Danakonúngs oc Svía konúngs, lágu iafnan í scotmáli, hverìr sem at sóttu. Nú var oc mart látit af liði Ólafs Noregs konúngs, því at hann átti lángt at sœkia liðveizlumenniria. Oc eptir þetta fóru konúngarnir til landz, oc

Eiríkr jarl, oc allr herrinn, oc var stefnt þíng, oc ráðagerþ mikil, hvat til scylldi taca.

*Nú eru menn nefndir á Orminum (lánga).*

67. Nú þóttiz Ólafr Noregs konúngr vita, at nocqvorr rói myndi á verða bardaganum oc hvílld; býðr hann þá þeim manni er hèt þorkell dyðrill, at hann scylldi taca Tranann, er þá var hroðinn, oc skipa hann sárum mönnum oc vanfœrum til bardaga, oc fara ábrot or bardaganum. Svâ segir Hallfröðr:

Úlfgœþir sá auða
armgrióz trönu flióta
hann rauð geir at gunni
glaðr oc báða naðra;
áðr hialldrþorinn hèlldi
hugframr í böð ramre
snotr á siglu otri
sunnz þorketill undan.

Oc at þessu konúngs boði fer þorkell undan comiz orrostunni. Þá stóðu up á Orminum lánga þrennar fylkíngar sterkra manna; en þessir menn ero nefndir til at á hafi verit Orminum í hinni síþurstu atlaugu: Hyrníngr oc þorgeirr bróðir hans, Biörn af Stuðlu, þorgrímr þióðólfsson, Ásbiörn or Mostr, þórðr or Niarðarlög, Einarr Styrkársson af Gimsum þambarskelvir, Kolbiörn af Raumaríki, þorsteinn oxafótr, þorsteinn hvíti af Oprostöðum; þorkell dyðrill fór áðr íbrot; Úlfr hinn rauði af Heinmörk, Víkarr austan af Tíundalandi, bróðir Arnlióz gellina, Vakr hinn ærmski, Bersi hinn sterki, Án Scyti af Jamtalandi, þrándr hinn rammi af þelamörk oc Styrmir

bróðir hans; þeir Haleygirnir Þrondr skiálgi oc Ögmundr sandi, Hlöðver lángi or Salltvík oc Hárekr hvassi; þeir Inþrœndir Ketill háfi oc Þorfiþr eisli, Hávarðr oc þeir brœþr or Orcadal, Arnór mœrski, Hallsteinn oc Börkr or Fiörðum, Eyvindr snákr, Bergþórr bestill oc Hallkell af Fiölum, Ólafr drengr oc Arnviþr or Sogni, Sigurðr bílldr oc Einarr horðski, Fiðr oc Ketill rygski, Griótgarðr röscvi oc Þórólfr, Ívarr smætta oc Hallsteinn Hlívarson, Ormr scógarnef, oc margir aðrir, þó at vèr kunnim eigi nefna þá. Ólafr konúngr bióz nú enn til hins sama ærfiðis eptir föngum, oc ætlar at þreyta nú þenna fund.

*Frá ráðagerþum höfþíngia.*

68. En á þíngi þessu er þeir eiga höfþíngiar, þá festa þeir sáttmál sín ímilli, ef þeir veita jarlinum Eiríki œrit lið at beriaz ímóti Ólafi konúngi Tryggvasyni, at hann scylldi hafa II luti landz í sínu valldi, þat er konúngum bæriz til handa, oc geraz firir landvarnarmaðr firir Noregs ríki, en giallda þeim scatta á hverio ári af þeirra luta. Eiríkr jarl scylldi eignasc skip Ólafs konúngs oc allt lutskipti þat er fengiz í orrostunni; en þriðiong Noregs velldis hverr þeirra við annan; festu þeir þetta með sèr. Oc síðan býsc Eiríkr jarl með lið sitt; hann hafði þat skip er callat var Járnbarðinn, þat var mikit skip oc ákaflega harðgert, stafninn hvârrtveggi þakiðr með miclu iárni oc hvössum eggiabroddum; hann hefir XIX skip, oc harðfengla skipuð. Róa nú at konúngs skipinu með miclum ácafa, svâ at þat er sumra manna

sögn at brotnaði nocqvot at Orminum í atlögunni. Oc er Ólafr konúngr sèr atróðr jarls með svâ mikilli ákefð, þá spurþi hann sína menn, hverr svâ kappsamliga legþi at. þeir svara: þat hyggiom vèr, herra, at þar sè Eiríkr jarl Hákonarson með Járnbarðann, er allra skipa er mest. þá mælti Ólafr konúngr: miök hava þeir skipat tignum mönnum í her þenna ímóti oss; oc af þessu liði er oss vân harðrar orrostu; þeir ero Norðmenn sem vèr, oc hava opt sèt blóðug sverð oc mart vâpnaskipti; monu þeir oc þyckiaz eiga við oss scapligan fund, oc er oc svâ; oc ecki slæliga rœr hann at; man hann nú ætla at hefna föþur síns. Stafnbúi Eiríks jarls var Scúli þorsteinsson, oc annarr Vigfúss Vígaglúmsson, þriði Torfi Valbrandzson, oc Finnr Eyfindarson af Herlöndum, norœnn maðr, oc scaut allra manna bezt; hann hafði gervan boga Einars þambarskelfis. Af því má marca, hversu Ormrinn lángi var skipaðr, at Einarr bió í krapparúmi, oc scaut þaðan um daginn gullvöfðum örum, oc var eigi missifengr. Oc nú tókz snörp orrosta, oc leggr jarl fast at Orminum, oc villdi giarna eignaz skipit, ef hann mætti. En Ólafr konúngr oc hans menn veriaz ágetliga vel með úumrœþilegum hraustleik. Konúngr stóð í lyptíngu oc scaut báðum höndum, oc hendi á lopti hvert scot er til hans flaug, oc sendi aptr, oc drap margan mann um daginn. Oc þvílíct gerþu þeir stafnbúar hans, Hyrníngr oc Vikarr, at þeir börðuz drengilega, oc vörðuz vascliga, þó at þúnct fèlli bardaginn; fiölþi lèzt oc af jarli. Einarr scaut margan mann

til bana, en særði fiölþa. Á Orminum vurþu margir sárir firir skeptum oc kesiom eða grióti, en fáir vâro þá enn látnir, en allir þreyttir oc mœddir. Oc er þeir hafðu barz lánga hríð, þá sá Eiríkr jarl marga menn sína fallna, en þó fleiri sára; þá leggr hann at landi, oc hefir fengit mikinn mannscaða; hann biðr þá dauða menn flytia af skipum, oc þá er sárir vâru, en skipar í staðinn hvílldum mönnum oc úsárum iafnmörgum.

*Frá Ólafi konúngi Tryggvasyni.*

69. Ok er jarl lagþi at landi, þá biðia menn Ólafs konúngs, at hann flýi, oc segia hversu mikit þeir hava í ábyrgð. Hann qvað æigi flýia scylldu: því at rèttr konúngr á eigi at flýia. Oc þat skip er fyrr sögþum vèr frá, XVIsessan, rennir at konúngs skipinu aptr at lyptíngunni, oc báðu konúnginn leyfa sèr at gánga up á Orminn; qvoþuz giarna vilia deyia með honum, ef þess væri auðit. Konúngr vill þat eigi: því at mèr gerir þat ecki at þèr gángit hèr up, en beraz má svâ at, at mèr verþi miök at gagni, ef þèr eruð í sama stað, þar er þèr vâruð áðr, oc veitit mèr mikit fulltíng. Oc er þeir heyrþu þat, lagþu þeir at landi. Eiríkr jarl callar nú saman bæði Dana her oc Svía her, oc biðr veita sèr lið, at hann megi hefna föðnr síns: man oss þetta vera eilíft brígzli, bæði Danakonúngi oc Svíakonúngi, hvert sinn er getit er Ólafs konúngs Tryggvasonar, ef vèr fám eigi sigrat hann; oc alldri sá ec slíca scömm, þar er hann hefir eitt skip, en vèr hafum útalligan her. Eptir þetta tók herrinn at herklæðaz af nýio til bardaga, oc herþa nú

hugi sína, oc hètu allir honum sinni liðveizlu. Oc áðr en lúki þessi stefnu, þá heitr Eiríkr jarl at taka helga skírn, ef hann fengi sigraþ þenna hinn ágeta konúng. Oc Eiríkr jarl hafþi áðr haft í stafni á skipi sínu þór; en nú lèt hann coma í staðinn hinn helga cross, en hann braut þór í sundr í smán mola, en crossinn setti hann í stafn á Járnbarðanum. Oc eptir þetta svífr jarl því í scap at láta calla til sín vitran mann þorkel hinn háva, bróður Sigvalldа jarls; hann mælti til hans: opt hefi ec verit í bardagum, segir Eiríkr jarl, oc alldrigi fundit raustari menn eða vígkœnni, en Ólafr konúngr er oc hans menn, eigi hefir ec oc sèt nè eitt skip iafn torsótlict, sem er Ormr hinn lángi; lægg nú til ráð nocqvor, þorkell, segir jarl, ef þú ert svâ vitr maðr, sem sagt er, at vinna Orminn. þorkell fór undan lengi, oc qvaðz engi brögð kunna til leggia. Oc er jarlinn bað þessa lengi, oc margir aðrir, þá varð um síþir þat at hann varð yfirstíginn, firir þat er honum var boðit gull oc silfr mikit; hann gaf þá til slœglict ráð oc vitrlect; hann bað þá gera fyrst castala mikinn af stórum trióm með þeim hætti, sem herturn veri, oc bera síþan á castalann stór trè, oc fella þau á Orminn: oc væntir mek þá, segir hann, at lýði. Oc svâ segia menn, at alldregi myndi sóttr hava orðit Ormrinn, ef eigi væri þetta ráð fundit. Síþan læggr jarl til bardagans, oc leggr nú fast at, oc síbyrðir nú Járnbarðann við Orminn. Ólafr konúngr mælti, er hann sá at jarl rœri at: genginn er nú þórr or stafninum á Járnbarðanum, en nú er í staðinn cominn

hinn helgi cross; oc helldr man Jesús cristr, drottinn, vilia til sín tvâ en einn. Svâ segir Halldórr hinn úcristni, er hann qvað um Eirík jarl:

Ferð com helldr í harðan,
hnitu reyr saman dreyra,
túngl scáruz þar tíngla,
tángar Ormr hinn lángi;
þá er borðmikinn barða
bryn flagz reginn lagði,
iarl vann hiálms und hólmi
hríð við faðmis síðu.

Oc enn:

Gerðist snarpra sverða,
slitu drengir frið lengi,
þar er gullin spiör gullu,
gángr um Orm hinn lánga;
dólgs qváðu fram fylgia
frán leggbíta hánum,
svænsca menn at sænnu
suðr oc dansca runna.

Oc enn qvað hann:

Hycka ec vægð at vígi,
vann drótt iöfur sóttan,
fiörð comsc iarl at iörðu
ógnharðan sek sporðu,
þá er fiarðrefil fœrðu
fólc harðr á tróð barða,
lítt var sævar sóti
svángr við Orminn lánga.

þessi orrosta varð nú svâ hörð, at furða var at, fyrst af atsókninni, en þó mest af vörninni. Oc svâ com um síðir at allum megin lagþu skipin

at Orminum; en þeir vörþuz svâ snarpliga, at þeir gettu sín eigi, oc liópu út af borðunum með vâpnum sínum, svâ sem þeir berðiz á meginlandi. Svâ segir Hallfröþr:

Sucku niðr af naðre
nadd fárs í boð sárir
baugs gerðuz við vægiaz
verkiendr Hèðins særkiar;
vanr man Ormr þótt Orme
alldýrr konúngr stýre,
hvars hann scríðr með liþ lýða
lengi slícra drengia.

þá er Ólafr konúngr sá at þyntiz skipunin á borðunum, oc menninir fèllu miök um mitt skipit, þá eggiaði hann ákaft sína menn at beriaz, oc spurði hvart sverþin biti ecki, eða reiddi þeir svâ slióliga til: ec sè at þèr fáit siálfir sár mörg, en sumir falla dauðir á þiliornar, en hinir standa er ímóti yðr beriaz, oc eiga þeir þó at vega up yfir hafuð sèr. þá svarar Kolbiörn stallari: eigi er undarlict, herra, þó at sverðin sè slæ, því at þau hava mart högg þolt í dag, oc sýniz mèr sem mörg myni vera brotin til únýz. þá lióp Ólafr konúngr or lyptíngunni oc í fyrirrúmit, oc tók up mörg sverþ or hásætis kistunni í firirrúminu, oc voru þau bæði hrein oc hvöss; hann bað sína menn taka þau, oc vega með. Oc þá sá menn hans, at blóð fèll undan brynstúkunni á hendi konúngsins, en eigi vissu þeir, hvar hann var sárr. Oc eptir þetta geck hann up í lyptíngina, oc með honum Kolbiörn, oc hafði hvârtveggi þeirra gullroðinn skiölld oc

hiálm á höfþi oc silkitreyio utan um brynio; hvârtveggi hulþi oc svâ andlit sitt, at ecki mátti glögt kenna, hvârr þeirra var; því at svâ vâro öll vâpn þeirra lík, hvârtveggi var oc mikill maðr oc drengilegr. Oc svâ er sagt, at síðan er skip Ólafs konúngs vâru öll hroðin, oc öll vâro frá-höggvin annur frá Orminum lánga, at allum megin lagþu at skipin at Orminum, kendi þá oc allr herrinn hvar konúngr stóð í lyptíngunni. En svâ var þá mikill vâpnaburðr, oc grjót flaug í lyptíngina, at allir skilldir þeirra oc treyior, þá vâro svâ sem scúvaðar væri af scotunum. Oc svâ segir Sverrir konúngr, at alldri hefði hann heyrt dœmi til, at nè einn konúngr hafi staðit í lyptíngu í þvílícri atsókn, oc gerþi sek svâ auðkendan, at allir mætti siá hann í orrostunni, en allir megu þat skilia, at hann gerþi þetta til ágetis sèr. Oc nú lèt Eiríkr jarl fella þessi hin miclu trè á Orminn af þeim hinum háva turn, er gerr var af stórviðum, oc við þat hallaðiz Ormrinn miök, oc varð nú hin snarpasta orrosta; fèllu þá margir af hvârumtveggiom. Oc þó at Eiríks jarls sè nú mest við getið orrostuna, þá var nú þó nær allr herrinn í atsókninni, sem sagt var. Oc þeir hinir ágetu menn er fyrr vâru nefndir, Hyrníngr oc Þorgeirr oc Vikarr, börðuz nú allsnarpliga með sínum mönnum, oc varðu stafninn. Oc þó umsíþir falla þeir með ágetligum orðztír firir vopnum sinna úvina, oc var nu úhœgt at veria þat scarð, er þessir hafðu staðit. Oc nú í þessu bili scaut Einarr Þambarskelfir til Eiríks jarls tveim ârum. Þá mælti jarl: eigi em ec fúss at

bíða hinnar þriðio. Oc þá mælti hann til Finnz af Herlöndum, er scyti var allra manna beztr, oc fyrr var nefndr, hann bað hann skióta Einar þambarskelfir. Eigi man ec skióta hann, segir hann, en læmia man ec bogann firir honum, ef ec má. Oc nú villdi Einarr skióta hinni þriðio ör, oc dró nú bogann. Fiðr scaut þá á bogann Einars með bílldör, oc com á þinorinn, oc brast í sundr boginn Einars. Ólafr konúngr mælti, er hann heyrði brestinn: hvat brast? Einarr svarar: Noregr or hendi þèr, konúngr! segir Einarr. Ólafr konúngr reiddisc þá, oc mælti: guð man því ráða, en eigi bogi þinn. Oc nú gerðiz áköf hríð, oc fèllu margir cappar á Orminum, oc þeir flestir er fyrr vâro nefndir. Oc þyntiz nú á borðunum. Gengu þá up menn Eiríks jarls á Orminn, oc fóru svâ sem skœþir vargar aptr oc fram á Orminum, oc fèllu menn nú allt um mitt skipit. En fram um stafninn oc firirrúmit hèllduz menn lengst við. Eiríkr jarl sœkir nú aptr til lyptíngarennar, oc hans menn; sœkia menn þá allum megin at lyptíngunni. Svâ segir Halldórr:

Hèt á heiptar nyta
hugreifr með Óleifi
aptr hnè þióð á þóptur
þengill sína drengi;
þá er haf vita höfðu
Hallandz of gram sniallan
varð of Vinda myrðe
vapneiþr lokit skeiðum.

Þá er Eiríkr jarl var cominn í firirrúmit, oc hans menn, á Orminum, þá varð þar hörð viðtaka, oc

snarpt vâpnaskipti, því at svâ sem liðit fèll firir Ólafi konúngi oc þynntiz á borðunum, þá dreif aptr til lyptíngar, oc var þar nú laðinn mikill valköstr. En þeir er upstóðu á Orminum vâro harðla móðir. Oc er Ólafr konúngr sá, hvar jarlinn Eiríkr var cominn með mikit lið, þá scaut Ólafr konúngr til jarls báðum höndum III kesiom scamskeptum; en þær flugu ecki eptir vanda, því at engi þeirra tók jarlinn; ein flaug firir ovan hafuð honum, en annur firir utan hœgri síþu honum, hin þriðia hiá vinstri síþu, oc fóru þessi scot öll til únyz. Oc er Ólafr konúngr sá þat, þá undraðiz hann miök, oc mælti: mikil er hamíngia jarlsins, oc þat vill guð nú at hann hafi ríkit, oc eigniz landit. Oc er hann hafþi þetta mælt, þá sá allir þeir er þar vâro coma yfir lyptíngina oc konúnginn himnesct liós, bæði mótstöðumenn hans, þeir er með jarli vâru, oc svâ konúngs menn, þeir er á lífi vâru. Oc menn Eiríks jarls hioggu[1] í liósit, oc ætluðu at vega þann er guð vegsamaþi með liósinu. Oc er ábrot hvarf liósit, þá sá þeir hvergi konúnginn, oc leituðu þeir hans allt um skipit oc umhverfis hiá skipinu, ef hann veri á sundi; oc finna þeir hann eigi. Þá gengu oc firir borð þeir VIII menn er up stóðu á Orminum í þessi svipan; oc var þar Einar þambarskelfir, Kolbiörn hinn uplendzki, Þorsteinn oxafótr, Biörn af Stuðlu, Ásbiörn or Mostr, Þrondr hinn skiálgi, Ögmundr af Sandi; þeir vâro allir dregnir up í skip. Þat vilia sumir menn segia, at Ólafr konúngr hafi laupit firir borð, oc kœmiz

[1]) *leiðrètt*; lioggu, *A' máske* höggu.

svâ íbrot, oc hafi sènn verit í útlöndum; en sumir vilja segia at hann hafi fallit í þessum bardaga; en hvar sem lífi hans hefir lokit, þá er líclict at guð hafi tekit sálina til sín, slíca stund sem hann lagþi á, cristnina at styrkia, oc alla luti þá er guði var sœmð í. Eiríkr jarl æignaðiz nú Orm hinn lánga oc annur skip Ólafs konúngs, oc margs mannz vâpn þess er drengiliga hafði neytt áðr um daginn. þessi orrosta hefir verit fregst á Norðrlöndum fyrst af vörn drengilegri, er Ormrinn var variðr, oc því næst af atsókninni oc sigrinum, er þat skip var hroþit er engi maðr ætlaði at unnit myndi verþa á vatni fliótanda, en þó mest firir sakir höfþíngians þess er átti, er var Ólafr konúngr, er frægstr maðr var á dansca túngu; oc svâ gerðu menn sèr mikit um umrœþu um Ólaf konúng, at menn villdu eigi heyra at hann myndi fallit hafa, svâ sem Halldór vísar á í sínum flocki.

*Frá Ólafi konúngi.*

70. þat segia menn, at á sitt borð lœpi hvârr þeirra Ólafs konúngs oc Kolbiarnar stallara. En konúngarnir oc Eiríkr jarl hafðu lagt at utan smá scútur at hinum stœrrum skipunum, oc scylldu þeir draga þá af kafi, er útbyrðis liópu, oc fœra þeim höfþíngionum. Oc þá er siálfr konúngr hafði á kaf laupit, þá villdu þeir taka hann höndum, er á smáscútunum vâru, oc fœra hann jarli. En Ólafr konúngr brá yfir sek skilldinum, oc steypti sèr í kafit. En Kolbiörn scaut sínum skilldi undir sek, oc fèll svâ á sióinn, at skiölldrinn varð undir hânum, oc kom hann sèr af því

eigi í kafit; oc varð hann handtekinn, oc dreginn up í scútu eina, oc hugþu þeir at þar væri Ólafr konúngr; var hann þá leiddr firir Eirík jarl. Oc er hann vissi at þar var Kolbiörn, en eigi konúngr, þá gaf jarl Kolbirni griþ. En í þessi svipan þá röri ábrot Vinðasneckian; oc er þat margra manna sögn, at Ólafr konúngr hafi steypt af sèr brynionni í kafi, oc komiz með sundi til Vinðasneckiunnar. Oc hefir siá frásögn víða farit síðan, sem heyra má í þeirra manna qvæþum, er þetta hava sannat; svâ segir Hallfröðr:

Væitat ec hitt hvart hreyti,
húngrdeyfi scal ec leyfa
dynsæðínga dauðan,
dýrblics eða þó kvikvan.

Oc ænn qvað hann:

Sagþr var mèr nè meira,
man ec stríð af því bíða,
lýðum firðr oc láði
landvörðr firir siá handan;
væri oss, þó at ærir
ælldz þeim svikum belldi,
heila lícn ef hauka
haukklifs iöfurr lifði.

Hèr segir svâ at þegar var tvennt frásagt þeim fundi, hvârt hann myndi fallit hava, eða braut comizt. Oc mörg annur dœmi ero til þess. — Oc ef guð lovar, scal ec segia sem ec veit sannast, hvat þeir menn báro frá, er þar vâru í bardaganum, hvat þeir sá síþarst til Ólafs konúngs. Svâ segir Scúli þorsteinsson, at þá er hann geck á konúngs skipit, þá lágu svâ þyct hinir dauðu

menninir firir fótum mèr, sagði hann, at varla mátti gánga firir; oc þá sá hann konúnginn í lyptíngunni; oc þá sá hann frá, oc vellti búkunum frá fótum jarli oc sèr; oc þá er hann sá til annat sinn, þá sá hann konúnginn eigi. Svâ segir Einarr þambarskelfir, at hann sá driúpa blóð smám oc smám af hiálmi þeim er konúngrinn hafði á höfði, oc á kinn konúnginum; oc er hann villdi at hyggia vandliga, hvat hann gerði, þá com í hafuð honum Einari mikit steinshögg, svâ at hann fèll við, oc náliga vissi hann ecki. En litlu síþarr lióp hann up, oc hugþi hann þá at konúnginum, oc þá sá hann eigi konúnginn. Svâ segir Kolbiörn at konúngr scaut um daginn, at blóð rann undan brynstúkunni; en er hann leit til sveitar jarls, er up lióp á skipit, þá var hann nocqvot svâ óttafullr, oc þá lióp hann þángat til er konúngr hafði staðit, oc er hann sá hann eigi, þá lióp hann af skipinu oc á sióinn; oc er hann com á sióinn, þá kendi hann flióta undir sèr skiölld, oc átti þann skiölld Ólafr konúngr, allra skiallda fegrstr, oc gull-lagðr; hann þóttiz skilia at undir þeim skilldi svam siálfr konúngr Ólafr; oc síþan lèt Kolbiörn þenna skiölld; oc síþan sá úvinir hans, at hann hafþi hiálm líkan þeim er konúngr hafði, oc svam hann þá milli skipanna; þá ætluðu þeir at þar myndi vera Ólafr konúngr, oc verþa þeir glaðir við, oc tóku hann nú af sundi; oc er þeir fundu at þessi maðr var eigi Ólafr konúngr, þá gáfu þeir honum grið. Nú svâ sem fyrri sögþum vèr, at úvinir konúngs leituðu hans vandliga, oc fundu hann eigi;

þá sagþu nocqvorir menn af liði jarls, at maðr com til Vinðasneckionnar, oc svam at skipinu, oc var í rauðu clæði, oc er hann var up cominn í skipit, þá var þat þegar íbrotu; oc allar Vinðasneckiornar vurðu þá þegar íbrottu, þær er þar hafðu verit um daginn, oc hèlldu suðr firir land.

*Frá Eiríki jarli.*

71. Eptir þenna hinn frægia bardaga hefir nú Eiríkr jarl fengit ágetligan sigr, tekr hann af allu fólki mikit lof; þessar orrostu er minníng ger firir andaðum mönnum hinn III eða IIII idus dag septembris mánaðar. Drotníngin þyri kunni stórilla þessum atburðum; gret hon beiscliga, því at henni var mikill harmr qveicðr í hiarta, svâ at hon mátti hvârki eta nè drecka. Oc er Eiríkr jarl heyrði þetta, þá geck hann til hennar, oc tóc með þessum orðum at tala við hana: vèr höfum gert, segir hann, mikinn glœp, er vèr hafum rænnt þenna hinn góða konúng oc hinn ágeta ríkinu oc tigninni; oc eigi er oc yðarri tign oc sóma at eins scaði gerr, er vèr hafum hann felldan, helldr er þat mikit allri landzbygðinni, oc mestr þegnum hans; oc firir því at eigi megum vèr nú aptr bœta yðr þenna hinn micla scaða, eða leiða þenna hinn dýra konúng aptr til yðar, er nú er frácallaðr ríkinu, þá vil ec giarna veita yðr þat at hugga yðarn hryggleik; oc í engan stað skallt þú nú hava minna sóma oc eigi minnæ metorð, oc engi yður tign lægri vera á vârum dögum at aftecnum þessum einum er þá hafþir þú, er Ólafr konúngr lifþi; nú biðiom vèr yðr, frú, at þèr látið yðr sóma at taca fœzlu oc dryck,

oc hiálpa svâ yðrum lícama. þá mælti drotníng: þetta mælir þú af mikilli gœzku oc góðgirnd, sem þú ert opt vanr; en þó at ec velia mèr þann lut til handa, at liva helldr en deyia með Ólafi konúngi, þá er þó hiartat mitt svâ ákafliga lostit með hörmum hryggleiksins, oc síþan þrútit orðit í úmegni hugarins, at engi gneisti lífsins má mek nú nœra eða lífga. Oc svâ varð oc, því at þyri drotníng lifði scamma ríð síþan, oc fór hon af þessi verölldu með miclum harmi hiartans, oc lángri föstu; oc þat er frá sagt at nocqvorr dýrlegr prestr gaf henni þat râð, at henni mætti vera âbyrgþarlaust, oc utan syndina; en hon hèlpi svâ lífi sínu með einu æpli, oc þat gerði hon með krapti bindandinnar oc þó lýðninnar, oc svâ lifþi hon IX daga, oc andaðiz síþan með þeima hetti. En Eiríkr jarl tók nú mikinn sóma oc lof, er hann fèck þvílícan sigr; hann tók nú Orminn lánga, oc setti sek stiórnarmann firir hann, oc skipaði hann sínum mönnum meþ þrænnum skipanum. En þetta hitt ágeta skip fór æ hallt síþan, oc villdi ecki at stýri láta, en geck fram með miclum torvelldum oc þúnga. Oc um síþir comz Eiríkr jarl með þetta skip, oc þó með miclum kostnaði oc ærfiði oc starfi í Víkina austan. En er hann sá at þetta skip villdi honum ecki lýðit vera, oc enga vegliga þiónustu veita honum, helldr sýndi þat mikinn þúngleica af sèr oc ærfiði, þá lèt jarlinn höggva ísundr skipit oc brenna síþan. Oc er Norðmenn heyrðu þetta, at Ólafr konúngr var fallinn, þá vurðu allir hryggvir, oc iðruðuz þeir, er þeir höfðu girnz

